# ÞÝÐÍNG

# BRJEFA HÓRAZAR,

EPTIR

G. MAGNÚSSON OG J. ÞORKELSSON.

GEFIN ÚT

AF

HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFJELAGI.

(FYRRA HEFTI).

REYKJAVÍK.

(1864).

 ÞETTA TITILBLAÐ ER TIL BRÁÐABYRGÐA.

# Fyrri bókin[1].

## Fyrsta brjef[2]

til

*Mesenasar*[3].

Efni brjefsins.

*Hórazíus ávarpar enn mikla velgjörðamann sinn Mesenas, og er þetta höfuðefnið í orðum hans: þú reynir, Mesenas, er eg á svo mikið að þakka, að fá mig aptur til að kveða, sem eg hefi áður gjört, en aldur minn og hugur hefir breyzt; eg er nú farinn að hugsa um annað þarfara en kveðskap, það er að segja um heimspeki (1)*[4]. *Þó fylgi eg eigi neinum tilteknum heimspekíngaflokki, en fer eptir því, er mjer geðjast bezt í þann og þann svipinn, og gjörist stundum ötull og atorkusamur í þjónustu sannrar manndáðar, en hneigist aptur stundum til munaðar og unaðsemda (2). Mjer þykir hver sú stundin seint líða, er heptir fyrirætlun mína, að geta gengið að því með atorku, er stoðar jafnt fátækan sem auðgan, og úngan sem gamlan, en það er heimspekin (3). Þótt þekkíngin sje lítil, er hún þó betri*

---

[1]) *Fyrri bókin.* Brjefum Hórazíusar er skipt í tvær bækur, og eru tuttugu brjef í enni fyrri, en þrjú í enni síðari. Líklegt þykir, að fyrri bókin hafi komið fyrir almenníngssjónir árið 18 fyrir Kristburð, eða því nær.

[2]) *Fyrsta brjef.* Líklegt þykir, að brjef þetta sje ritað ár. 19 fyr. Kristsb., eða því nær.

[3]) *Mesenas* þessi hjet öllum nöfnum Kajus Silníus Mesenas; hann var af etrúrskri konúngaætt (eða höfðíngjaætt); hann var mjög handgenginn Ágústusi keisara, og var einhverr enn mesti ágætismaður, er uppi var á hans dögum; þó er Mesenas einkum orðinn nafnfrægur fyrir velvilja þann, er hann sýndi fræðimönnum, einkum skáldum, til að mynda Hórazíusi, höfundi brjefa þessara, og enu mikla sagnaskáldi Virgilíusi. Mesenas dó ár. 8 fyr. Kristsb., skömmu áður en Hórazíus dó.

[4]) (1). Svigatölur þær, er hjer eru hafðar, og hvervetna annars staðar, þar er skýrt er frá efni einhvers brjefs, eiga við talnagreiníng þá, er höfð er við brjefin sjálf í meginmálinu.

*en ekki, og má vel takast, að lækna hverja meinsemd sálarinnar, sem er, ef menn að eins ljá mentuninni þolinmóðlega eyra sitt (4). Menn sneiða hjá ýmsu, er óþægilegt þykir, t. a. m. litlum fjármunum og embættasynjun, en menn eiga því heldur að stunda að ná sannri þekkíngu og öðlast sanna mannkosti (5). Mönnum þykir alment mikið koma til auðlegðarinnar, en menn ætti heldur að stunda það, er eykur hugarþrek vort (6). Vera kann, að mönnum þyki eg vera ólíkur því, sem fólk er flest, í dómum mínum og tilhneigíngum, en mjer þykja skoðanir manna ísjárverðar; menn eru svo ólíkir í ástundunum sínum, að eigi er gott að vita, hverjum fylgja skal, eða hverju fylgja skal; svo eru og sömu mennirnir óstöðugir mjög, svo að furðu gegnir (7). Menn taka eigi eptir því, þótt eitthvað þyki fara misjafnlega í líkamlegum efnum einhvers manns, en hins er síður gætt, þótt eitthvað sje veilt í efnum sálarinnar (8). Að endíngu er sagt, að spekin veiti manni alt ágæti andlegt og líkamlegt, auðlegð, frelsi, mannvirðíngar, fegurð, mikið vald og góða heilsu, en nú er öllu snúið upp í gaman, og talað um, að kvef geti þó verið óþægilegt (9).*

1[5], Þú reynir, Mesenas, er eg hefi fyrst[6] um kveðið, og mjer byrjar síðast um að kveða, að lykja mig aptur inn í eð 1—3.[7]

---

[5]) *1. Tölur þær, er hjer eru hafðar og annars staðar við upphaf einhvers brjefs eða greinar, eiga að sýna greiníng, er gjörð er á efni brjefanna.*

[6]) *fyrst. Áður en brjef þetta kom fyrir almenníngssjónir, hafði prent birzt mönnum af kvæðum Hórazíusar, fyrst Kýmikvæði hans (eða Satýrur), þá Tvíhendur hans (eða Epodi), og enn þrjár enar fyrri bækur af Söngkvæðum hans eða Harpkvæðum (á latínu Carmina). Fyrsta kvæðið í hverjum af kvæðaflokkum þessum er til Mesenasar, og sýnir Hórazíus þar með, að hann hefir viljað votta þessum mikla velgjörðamanni sínum þakklæti sitt, með því að hafa kvæði til hans fremst í hverjum kvæðaflokknum, en hvort sem er, að Hórazíus á hjer við eð fyrsta kvæði í Kýmikvæðum sínum, eða eð fyrsta kvæði í Tvíhendunum (eða jafnvel Tvíhendurnar allar), sem sumir ætla, er mönnum þó kunnugt, að Hórazíus hafði kveðið ýmislegt áður, en hann fór að kveða til Mesenasar, er hann fyrst kyntist við ár. 39 (eða 38) fyr. Kristsb., og er hjer, sem optar, að eigi má fara svo nákvæmlega eptir orðum þeim, er við eru höfð.*

[7]) *1—3. Tölur þær, er hjer eru hafðar og annars staðar neðan við meginmálið, eiga við vísuorðatöluna í frummálinu.*

forna leikmannahús[8], og hafa menn þó þegar nógsamlega á mig horft, og mjer lausnarstafur[9] gefinn verið. Eg er nú eigi á sömu árunum, sem eg áður var, og eigi svo skapi farinn. Vejaníus[10] hefir hengt upp vopn sín í hof Herkúlesar[11], farið síðan í felur

3—5.

---

[8]) *leikmannahús. Það var ein af höfuðskemtunum Rómverja, að menn voru látnir berjast hverir við aðra, eða við óarga dýr, t. a. m. við ljón; voru slíkir menn kallaðir skilmíngamenn (á lat. gladiatores, af gladius: sverð). Þeir menn, er til skilmínga voru ætlaðir, voru í húsi sjer, og voru þar látnir temja sjer hvatki það, er til skilmínga heyrði, og er það slíkt skilmimannahús eða leikmannahús, er hjer er um talað. Til skilmínga voru annaðhvort hafðir herteknir menn, eða þrælar, eður og óbótamenn; frjálsir menn gáfu sig og opt til skilmínga fyrir kaup; það var og eigi sjaldan, að frjálsir menn gáfu sig til skilmínga kauplaust, og vildu með því leita sjer fremdar og frama. Hórazíus segir hjer, að Mesenas leiti við að lykja sig aptur inn í forna leikmannahús, það er með öðrum orðum, að Mesenas vilji fá sig aptur til að yrkja, sem Hórazíus hafði áður gjört.*

[9]) *lausnarstafur. Menn, er námu skilmíngar, voru fyrst framan af eigi látnir hafa vopn, er særa máttu, heldur ótelgdar viðargreinir* (rudes). *Slíkar greinir höfðu skilmíngamenn og vanalega, er þeir byrjuðu skilmíngar á skilmíngasvæðinu sjálfu, og áttu með þeim eins konar forleik* (proludium), *áður en þeir tóku algjörlega að skilmast; og að lokum, er skilmíngamenn fengu lausn frá skilmíngum, fengu þeir og slíkar greinir til jartegna um, að þeir væri nú lausir við ena fyrri iðn sína. Hjer segir Hórazíus, að menn hafi þegar nógsamlega á sig horft, og að sjer hafi þegar lausnarstafur gefinn verið, en það er með öðrum orðum, að hann sje þegar orðinn fullkunnur fyrir kvæði sín, og að hann hafi þegar nóg kveðið.*

[10]) *Vejaníus var nafnkendur skilmíngamaður, og er þess getið, að hann hafi eptir margar sigurvegníngar helgað vopn sín Herkúlesi, er tignaður var í Fúndsborg, en sú borg lá í Árúnkafylki í suðurhlut Latlands (eða Latsíums), litlu sunnar en í landnorður frá Terrasínu, og í útnorður frá Formíaborg.*

[11]) *Herkúles. Persevs, sonur Júppíters uppheimaguðs, og Danáar Akrisíusdóttur Argverjakonúngs, ljet síðara hlut æfi sinnar gjöra Mýsenuborg í Argverjafylki í Suðurgrikklandi, og var hann þar síðast konúngur.*

*Persevs átti fjóra sonu, er svo hjetu, Elektrýon, Stenelus, Alseus og Mestor. Elektrýon tók við ríki eptir föður sinn í Mýsenu. Alseus átti tvö börn, son og dóttur; hjet sonur hans Amfitrýon, en dóttirin Anaxó. Elektrýon fekk bróðurdóttur*

út á land, og dylst þar, að hann þurfi eigi svo opt að

5—6.

---

*sinnar, Anaxóar Alseusdóttur, og átti með henni dóttur eina, er Alkmena hjet. Amfitrýon Alseusson fór til hirðar Elektrýons föðurbróður síns og mágs, og dvaldist þar um hríð; ætlaði Elektrýon honum dóttur sína Alkmenu, og ríkið eptir sinn dag.*

*En nú er þess getið, að Tafíus, dóttursonur Mestors Persevssonar, hafði stofnað nýlendu á Tafey, er lá fyrir vestan Akarnanafylki í Miðgrikklandi, og voru þeir eyjarskeggjar kallaðir Fjarbyggjar* (Teleboar), *fyrir því að þeir þóttu hafa flutt sig lángt frá ættborg sinni.*

*Tafíus átti son einn, er Pterelaus hjet. Þá er Tafíus dó, kallaði Pterelaus til erfða að sínum hlut í Mýsenu, og sendi sonu sína þángað til að halda fram kröfum sínum.*

*Elektrýon vildi eigi láta neitt af hendi; fóru synir Pterelausar þá herskildi yfir landið, og ráku brott hjarðir Elektrýons. Nú let Elektrýon safna liði, og fóru synir hans í móti sonum Pterelauss, og áttu orrustu við þá; fjellu þar fyrirliðar hvorstveggja hersins, og margt annarra manna; af sonum Elektrýons var að eins einn eptir á lífi, er Lýsimnus hjet, svo og einn af sonum Pterelausar, sá er Everes er nefndur.*

*Elektrýon vildi nú hefna sona sinna; selur hann þá stjórnina heima í hendur dóttur sinni og Amfitrýon, og lofaði Amfitrýon, að gefa honum dóttur sína, ef sjer gengi vel ferð sín.*

*Elektrýon fór, og vann Tafeyínga; hvarf síðan heim aptur, og hafði með sjer hjarðir sínar. Gekk Amfitrýon þá í móti honum, og vildi fagna honum; en nú hljóp kýr ein út úr nautahópnum, og vildi Amfitrýon snúa kúnni við, og kastaði kylfu eptir henni, en kylfan lenti í Elektrýon, og fjell hann þegar örendur til jarðar.*

*Amfitrýon gjörði þetta að vísu óviljandi, en lýðurinn lagði þó óþokka á hann þar fyrir; varð hann því að fara af landi brott, og varð nú Stenelus, bróðir Elektrýons, konúngur í Mýsenu.*

*Amfitrýon flýði norður til Þebuborgar í Boiótafylki (í Miðgrikklandi), og fylgdi Alkmena honum. Þá var Kreon Menoikevsson konúngur í Þebuborg; hann tók vel við þeim Amfitrýon og Alkmenu, og ljet þau hjá sjer vera. En nú er þess getið, að Alkmena vildi eigi giptast Amfitrýon, nema hann hefndi bræðra hennar, og fengi unnið Fjarbyggja.*

*Amfitrýon gjörði nú samband við Kefalus Deionevsson og aðra höfðíngja, er voru í grend við Þebuborg; fór síðan í móti Fjarbyggjum og vann þá, og gaf bandamönnum sínum eyjar þær, er hann vann, og var ein af þeim síðan kölluð Kefalsey (eða Kefallenía eða Kefallónía) af nafni Kefalusar konúngs.*

*Nú víkur sögunni til Júpíters uppheimaguðs. Meðan Amfitrýon var í herferðinni móti Fjarbyggjum, er þess getið, að Júpíter tók á sig mynd Amfitrýons, kom til Alkmenu, er sat*

leggja að lýðnum með bænum sínum yzt úti á sand-

6.

*heima í Þebuborg, og ætlaði Alkmena, að Amfitrýon væri nú aptur heim kominn. Júppíter samrekti Alkmenu, og er sagt, að hann hafi þá gjört þrjá daga að einni nóttu, svo að hann mætti því betur njóta samvista við Alkmenu. Síðan, er stundir liðu fram, og Amfitrýon var sjálfur aptur heim kominn, er þess getið, að Alkmena gekk með tvo púnga, annan af völdum Júppíters, en annan af völdum Amfitrýons, er nú var orðinn maður hennar. Þá er sá dagur kom, er sá púnginn skyldi fæðast, er var af völdum Júppíters, birti Júppíter öllum guðum og gyðjum í uppheimum, að þann dag mundi sá maður fæðast af ætt sinni, er verða mundi yfirmaður allra nábúa sinna. Júnó drottníng kvaðst efa, að svo væri, sem Júppíter sagði, og kvaðst eigi trúa því, nema Júppíter ynni eið að því, svo að eigi mætti rjúfast. Júppíter vann eiðinn, og sór við Stýgá í undirheimum, en jafnskjótt, sem Júppíter hafði eiðinn unnið, fór Júnó niður til jarðar, og kom til Argverjaborgar; þar var þá Nikippa Pelopsdóttir, kona Stenelusar, föðurbróður Amfitrýons, óljett, og var þetta enn sjöundi mánuður hennar, en Júnó hraðaði svo fæðíngu fóstursins, að barnið fæddist þegar enn sama dag, en það var sveinbarn, og var sá sveinn kallaður Evrystevs; en aptur aptraði Júnó svo fæðíngu Alkmenu, að hún varð eigi ljettari þann dag. Síðan hvarf Júnó aptur til uppheima, og mælti við Júppíter: nú er sú hetja fædd, er ráða skal fyrir Argverjum; það er Evrystevs sonur Stenelusar, Persevssonar, sonar þíns.*

*Júppíter fekk eigi eið sinn aptur tekið, nje hefnt sín á Júnó, og var honum nú svo gramt í geði, að hann tók dóttur sína Skaðsemd (eða Ate), og kastaði henni af himni niður, og kvað hana aldri skyldu aptur til himins hverfa; síðan hefir hún farið um meðal manna, og orðið margs meins valdandi.*

*Af Alkmenu er það að segja, að þá er hún varð ljettari, fæddi hún tvo sveina; var annarr kallaður Herkúles, og var sá sonur Júppíters, en hinn var Ífíkles kallaður, og var hann sonur Amfitrýons.*

*Brátt varð það bert, hvorr bræðranna var sonur Júppíters. Meðan Herkúles lá í vöggu, sendi Júnó höggorma tvo að fyrirfara honum, en barnið tók í höggormana og kreisti þá til dauðs. Einhverju sinni var það, að Júppíter sá, að Júnó svaf; tók hann þá Herkúles, og lagði hann á brjóst Júnóar, en er barnið tók að sjúga, vaknaði Júnó, og varpaði sveininum brott; hrukku þá dropar úr brjósti Júnóar, og varð þar af mjólkurbrautin, er guðirnir gengu, þá er þeir fóru milli himins og jarðar.*

*Þá er Herkúles óx upp, og hafði aldur til, ljet Júppíter Merkúríus sendigoð fara með hann til Línusar söngvara Apoll-*

inum[12]. Einhver rödd[13] hljómar optlega um eyra mitt, er nú er

6—7.

*onssonar, og Keirons læknis Kronussonar, og skyldu þeir kenna honum það, er úngum kappaefnum byrjaði að nema. Síðar, þá er Herkúles færðist af bernskuskeiði, er þess getið, að hann hafi gengið brott frá öðrum mönnum, og sezt á gatnamót; þar komu til hans konur tvær, önnur fögur og ásjáleg, og vildi sú leiða hann til munaðar og unaðsemda; hin var óásjálegri, og sýndi honum fram á ýmsar torfærur á lífsleið hans. Fyrri konan á að jartegna munaðargirnd, en en síðari sanna manndáð; Herkúles fylgdi enni síðari.*

*Júnó var aldri áhyggjulaus um Herkúles; hún bljes og Amfitrýó ótta í brjóst; var hann hræddur um, að sjer mundi standa einhver óheill af Herkúlesi, og sendi hann fyrir því til bræðrúngs síns, Evrystevs í Mýsenu, en Evrystevs sendi hann ýmsar forsendíngar, og lagði fyrir hann enar mestu þrautir, er síðan hafa gjört hann ágætara en flestar aðrar, ef eigi allar aðrar hetjur í fornöld. Áður en Herkúles tók að leysa af hendi þrautir sínar, er þess getið, að hann hafi snúið sjer til vefrjettarinnar í Delfum, og að vefrjettin hafi sagt honum, að honum byrjaði að leysa af hendi tólf þrautir eptir boði Evrystevs, og að hann mundi síðan ódauðlegt nafn hljóta. Þessar tólf þrautir Herkúlesar voru, 1, að vinna ljónið við Nemeu (í Argverjafylki); 2, að vinna orminn í Lernuvatni við Argverjaborg; 3, að vinna villigöltinn á Erýmantsfjalli í Arkadafylki; 4, að ná enum gullhyrnda hirti, er var á Menelausfjalli í Lakverjafylki, en hjörtur sá var helgaður Díónu veiðigyðju; 5, að stökkva brott enum eirklóuðu og eirnefjuðu fuglum við Stymfalsvatn í Arkadafylki; 6, að ná belti Hippólýtu Bogkvennadrottníngar (eða Amazónadrottníngar); 7, að hreinsa nautahús Ágíasar Elismannakonúngs (á Pelopsey), en í nautahúsi þessu höfðu gengið þrjár þúsundir nauta í þrjá tigu vetra, og húsið aldri verið hreinsað allan þann tíma; 8, að vinna enn eldfnýsanda graðúng á Krítey; 9, að ná enum mannætu hestum Díómedesar Bistónakon-*

*[12]) sandur er hjer kallað svið það, er skilmíngamenn ljeku á, en svo var það svið kallað, af því að sandur var á því hafður, svo að blóðið hyrfi því betur, þar er menn skilmdust, svo og til þess, að óhálla væri. Af þessum stað þykir sjá mega, að skilmíngamenn, er vildu fá lausn, hafi gengið yzt út á sandinn, þar að, er lýðurinn sat, og beðið sjer þar lausnar.*

*[13]) rödd. Hórazíus talar hjer um eins konar rödd (eða andlega veru), er gefur honum góðar bendíngar; svo talar hinn mikli gríski spekíngur Sókrates opt um eins konar rödd eða andlega veru, er optlega gaf honum bendíngar, og einkum latti hann opt, ef það var eitthvað eigi gott, er hann hafði í hyggju að gjöra.*

hreint[14] orðið; vertu svo hygginn, segir röddin, að leysa hest

7—8.

---

*úngs í Þraklandi; 10, að vinna enn þríhöfðaða þurs Gerýon Krýsaorsson; 11, að ná gulleplum Vestureyjadísa; 12, að ná hundinum Serberus úr undirheimum.*

*Auk þessara tólf þrauta, er Herkúles leysti af hendi eptir boði Evrystevs konúngs, vann hann og ýmsar aðrar þrautir af eiginni hvöt; hann frelsaði Hesíónu Laómedonsdóttur Trójumannakonúngs frá sæskrimsli einu, er skyldi fyrirfara henni; hann vann risann Anteus Jarðarson í Líbýu, og enn grimma Búsíris Egiptalandskonúng, og enn enn eldspýjanda Kakus, er bjó í Ítalalandi, þar er Rómaborg var síðar gjör; hann fekk og frelsað Alsestu Pelíasdóttur, er hafði látið líf sitt fyrir mann sinn, Aðmetus Ferumannakonúng Feresson (í Þessalalandi), og leiddi hana aptur frá undirheimum upp í mannheima. Herkúles frelsaði og Prómetevs Japetsson jötuns; Prómetevs hafði náð eldi af himnum uppi hjá guðunum, og haft hann með sjer á jörð niður til mannheima; fyrir þessa sök var hann negldur á Kákasfjall í Austurheimi, og kroppaði gammur einn lifur hans um daga, en það, er gammurinn át, meðan dagur entist, óx aptur um nætur. Gamm þenna skaut Herkúles, og leystist Prómetevs svo úr nauðum sínum. Enn er þess getið, að fyrr meir hafi Norðurálfan og Suðurálfan verið áfastar að vestan, og eið eitt legið milli; eið þetta rauf Herkúles eitt sinn, og reisti tvo stólpa á berg þau, er stóðu sitt hvorum megin við eð nýja sund, Kalpa að norðanverðu, en Abýla að sunnanverðu; stólpar þessir voru síðan kallaðir Herkúlesstólpar, og sundið Herkúlessund, en sund þetta er og kallað öðrum nöfnum Gadessund, eða Gíbraltarsund, eða Njörfasund. Enn er í fornum sögum sagt frá ýmsum afreksverkum Herkúlesar, þótt þeirra sje eigi hjer getið.*

*Herkúles var tvíkvæntur; fyrst átti hann Megöru Kreonsdóttur Þebverjakonúngs; með henni átti hann sjö börn, en Júnó uppheimadrottníng gjörði hann eitt sinn svo óðan, að hann drap konu sína og börnin öll. Síðan átti Herkúles Deianeiru Oinevsdóttur, Kalýdonsmannakonúngs. Deianeira var áður lofuð Akelóus fljótsguði í útnorðurhlut Miðgrikklands; Herkúles vann Akelóus, hjelt síðan með Deianeiru heimleiðis til Tirynþsborgar í Argverjafylki, en er hann kom austur að Evenusfljóti, er rann um útnorðurhlut Vestlókrafylkis og landsuðurhlut Etólafylkis, bað hann Nessus risa, er bjó við Evenusfljót, og flutti menn yfir fljótið, að bera Deianeiru yfir; en er Nessus kom yfir fljótið, vildi hann nauðga Deianeiru; kallaði*

[14]) *hreint. Hórazíus segir hjer, að eyra sitt sje hreint orðið, og kemst hann svo að orði, af því að hann þykist nú leggja eyru sín við því einu, er gott er.*

þinn, er farinn er að eldast, frá vagni þínum í tækan tíma, 7.

---

*hún þá yfir fljótið til Herkúlesar, og bað hann hjálpa sjer. Herkúles skaut örum af boga sínum á Nessus; hafði örum þeim verið dýft í blóð ormsins í Lernuvatni, og voru rammeitraðar, en er Nessus sá fyrir dauða sinn, fekk hann Deianeiru nokkuð af blóði sínu; sagði Nessus, að ef Deianeira riði blóði því í kyrtil, er Herkúles gengi í, mundi hún fá því varnað, að hann hneigðist til ástar við aðrar konur en sjálfa hana.*

*Nú er þess getið, að Herkúles var einhverju sinni á ferð austur í Evboiu, er liggur austur undan Miðgrikklandi; hann kom til Evrýtusar, er var konúngur í Oikalsborg þar á eynni; Evrýtus átti dóttur þá, er Íóla hjet; Herkúles fekk ástarhug á henni, og bað hennar; en Evrýtus vildi eigi gefa honum hana. Fór Herkúles þá brott frá Evrýtusi og hugði á hefnd. Síðan er þess getið, að Ífítus, sonur Evrýtusar, fór að leita hesta, er honum höfðu horfið, eða, eptir því sem aðrir segja, nauta, er horfið höfðu föður hans; kom Ífítus þá til Herkúlesar, og drap Herkúles hann. Þetta þótti níðingsverk, og kom fyrir þá sök sjúkleikur nokkurr yfir Herkúles, og sagði vefrjett honum, að hann mætti eigi heill verða, nema hann yrði mansali seldur, og þjónaði einhverjum manni þrjá vetur. Nú var Herkúles seldur enni sællífu Lýdadrottníngu, Omfölu Jardansdóttur; þar sat hann í kvennklæðum, og spann á rokk, og hefir fornum fræðimönnum þótt þetta jartegna, að en mikla hetja skyldi lítillækkast í mannheimum, áður en henni veittist guðleg tign í uppheimum.*

*Nú er aptur að segja frá Herkúlesi; þá er hann hafði losazt úr ánauðinni hjá Omfölu, fór hann aptur til Evboiu, rjeð á Oikalsborg, vann borgina, og drap Evrýtus; fekk hann nú náð Íólu, og sendi hana heim til konu sinnar Deianeiru með öðrum herteknum konum. Brátt fekk Deianeira að vita, að Herkúles hafði ástarhug á Íólu; hugsaði Deianeira sjer þá, að neyta blóðsins, er Nessus hafði henni gefið, og hún geymt mjög vandlega alt til þess tíma. Rauð hún nú kyrtil einn í blóðinu, og sendi kyrtilinn til Herkúlesar, og bað hann þiggja kyrtilinn og hafa hann, er hann vildi mikið við hafa. Þá er kyrtillinn kom til Herkúlesar, var að því komið, að Herkúles skyldi fórna Júppíter uppheimaguði fyrir sigur þann, er hann hafði unnið yfir Evrýtusi; varð Herkúles glaður mjög, er hann sá kyrtilinn, og fór þegar í hann; var nautunum nú slátrað og kveykt í fórninni, og leggur þegar logann af fórninni til himna, en nú verður Herkúles þess varr, að kyrtillinn límist að holdi hans, og að sárir verkir læsa sig með enum mestum harmkvælum um allan líkam hans; þetta voru áhrif blóðsins úr orminum í Lernuvatni. Þá er Deianeira, kona Herkúlesar, fekk að vita, hver áhrif sendíng hennar hafði haft, tók hún svo mikinn harm,*

að honum hlekkist eigi á að lokunum, og taki mikillega að mása, og verði svo að athlægi. Hjer af kemur það, að eg legg nú niður kveðskap og annað leikfáng, og gref vandlega eptir, hvað satt er og sæmilegt, og gef mig allan við því, og legg niður hjá mjer ýmsa muni[15], er eg megi síðar til taka.

2, En svo að þú nú eigi þurfir að spyrja, hverr sá leiðtogi er, er eg fylgi, eða hvert það húsgoð[16] er, er eg hefi mjer til varðveizlu, þá er þjer það að segja, að eg hefi eigi skuldbundið mig til að vinna eið að orðum nokkurs meistara, heldur berst eg sem útlendíngur, hvert sem veðrið hrífur mig. Stundum gjörist eg ötull og atorkusamur, og sökk mjer niður í veraldleg málefni, gæti sannrar manndáðar, og þjóna henni með harðneskju; stundum hverf eg aptur með launúng að kenníngu Aristipps[17], og

8—19.

*að hún fyrirfór sjer sjálf, en Herkúles ljet flytja sig upp á Oitufjall, er lá milli Þvíafylkis (eða landsuðurhluts Þessalalands) og Fókafylkis; þar var Herkúlesi bál búið, og lauk hann þar með sjálfviljugum dauða járðneskri tilveru sinni; hvarf skuggi hans til undirheima, en sjálfur var hann hafinn til himna, og gekk hann þar síðan að eiga Hebu æskugyðju.*

*Hórazíus getur þess hjer, að skilmíngamaður, er lagði niður skilmíngar, hafi hengt upp vopn sín í hof Herkúlesar (og helgað honum þau), og hefir hann það gjört, af því að Herkúles var talinn vera eins konar aflraunaguð.*

[15]) *ýmsir munir, það er ýmisleg (heimspekileg) þekkíng.*

[16]) *húsgoð. Rómverjar trúðu á marga guði, og var það eitt í trú þeirra, að þeir ætluðu, að hvert hús eða heimili hefði eins konar verndargoð. Hjer er talað um, hverr sá leiðtogi er, er Hórazíus fylgir, eða hvert það húsgoð er, er hann hefir sjer til varðveizlu, en það er með öðrum orðum: hverjum heimspekíngi eða hverjum heimspekíngaflokki hann fylgir.*

[17]) *Aristippus var frá Sýrenuborg, er lá á norðurströnd Afraálfu (eða Suðurálfunnar), í bygðarlagi því, er kent var við borgina, og kallað Sýrenufylki; það lá í vestur og útnorður frá Marmaríku, þar er nú er hálendið Barka, fyrir austan Sýdruflóa. Aristippus kom til Aþenuborgar, meðan Sókrates var á lífi, og leitaði samvista við hann; síðan stofnaði Aristippus skóla þann, er kendur er við Sýrenu, og kallaður Sýrenuskóli. Aristippus og þeir menn, er hjeldu áfram kenníngu hans, kendu, að sæla væri eð æðsta góðendi lífsins, og að menn öðlaðist hana með því, að leita með hófi unaðsemda þeirrar stundarinnar, er yfir stæði.*

reyni að leggja gæði heimsins undir mig, en varast að leggja sjálfan mig undir þau.

3, Svo sem þeim þykir nóttin löng, er vinkona þeirra bregzt, og dagurinn þykir þeim lángur, er eiga verk af höndum að inna, og svo sem þeim þykir árið seint líða, er enn eru á barnsaldri, og eiga enn að búa við harða gæzlu mæðra sinna, svo þykja mjer þeir tímarnir seint líða og óþægilega, er hepta von mína og fyrirætlun að gánga að því með atorku, er stoðar jafnt fátækan sem auðgan, ef þess er gætt, en skaðar jafnt únga menn sem gamla, ef það er vanrækt.

4, Nú er eptir, að eg stjórni sjálfum mjer og huggi mig með þessum frumfræðum. Þótt menn hafi eigi svo hvassa sjón sem Lynsevs[18], munu þeir þó eigi þar fyrir vanrækja að hafa smyrsl á augu sín, ef þeir eru augnveikir, og eigi mundu menn vera ótilleiðanlegir til að varðveita líkami sína fyrir enni hnútóttu handaveiki, þótt þeir geti eigi gjört sjer von um limastyrk ens ósigranlega Glýkons[19]. Nokkuð má áleiðis komast, þótt skamt sje. Ef brjóst vort brennur af ágirnd og aumlegri fjegirni, þá eru til orð og ummæli[20], er vjer fáum með linað sjúkleik þenna,

19—34.

---

[18]) *Lynsevs sá, er hjer er um talað, var sonur Afarevs Messenumannakonúngs Períeressonar. Lynsevs var einn af Argóarförum, eða köppum þeim, er voru í för með Jason Esonssyni Þessalakonúngs, þá er hann fór á skipinu Argó austur til Kolklands, að sækja gullgæruna af hrút þeirra systkina, Frixusar og Hellu. Lynsevs þessi er einkum nafnfrægur orðinn fyrir hvassa sjón sína, og því var hann stafnbyggi* (proreta) *á Argó, og skyldi hann hafa gætur á, hvað fyrir bæri. Þess er og getið, að Lynsevs þessi hafi sjeð í jörð niður, og ætla sumir það jartegna skulu, að hann hafi fyrr en aðrir menn (á Grikklandi) fundið málma í jörðu niðri. Æfilok Lynsevs urðu þau, eptir því sem sumir segja, að hann barðist með bróður sínum Ídasi við þá frændur þeirra, Kastor og Pollúx, og fjell Lynsevs fyrir Pollúx, en Ídas feldi Kastor.*

[19]) *Glýkon sá, er hjer er um talað, var ágætur aflraunamaður í Pergamsborg í Tevþrantsfylki (í Áslandi); hann var uppi um sama leyti sem Hórazíus.*

[20]) *orð og ummæli. Í fornum bókum Grikkja og Rómverja er eigi sjaldan talað um eins konar galdra og töfraumæli, og*

og losað oss við mikinn hlut veiki þessar. Ef lofgirni svellur í brjósti þínu, þá eru til nokkur þau friðþægíngarmeðöl[21], er þig munu hressa mega, þá er þú hefir blaðið[22] þrysvar[23] lesið af hreinum hug. Engi öfundsjúkur maður, engi reiðigjarn maður, engi dáðleysíngi, engi ofdrykkjumaður eða kvennafarsmaður er svo ósveigjanlegur, að hann fái eigi mýkzt, ef hann að eins ljær mentuninni þólinmóðlega eyra sitt.

5, Það er dygð, að sneiða hjá lesti, og upphaf speki að hafa losazt við heimsku. Vjer sjáum, hve mikið vjer leggjum á oss á sálu og líkam, að vjer fáim það forðazt, er vjer hyggjum mest böl vera, en það eru litlir fjármunir og vanvirðuleg embættasynjan[24]. Menn fara ótrauðir í kaupferðir yzt út í Ind-

35—45.

---

*ætluðu menn, að með slíkum orðum og ummælum mætti græða líkamlegar meinsemdir; svo er t. a. m. sagt hjá Kató eldra í Akuryrkjubók hans, 160. kapítula, að ef limur ferr úr liði, eða bein brotnar, skuli við hafa ýms orð, t. a. m. ista, pista, sista, og fleira því um líkt. Svo sem menn nú hafa ýms orð og ummæli, er græða meinsemdir líkamans, svo vill Hórazius segja, að til sje orð og ummæli, er með megi græða meinsemdir sálarinnar, en þessi orð og ummæli eru heilsusamlegar kenníngar heimspekinnar.*

21) *friðþægíngarmeðal. Það var trúa manna, að ýmsar meinsemdir, hvort sem voru á sálu eða líkam, kæmi af því, að einhverr guð, eða einhverjir af guðunum væri reiðir manni; var þá helzt til úrræða, að blíðka þann guð, eða þá guði, er reiðir voru, á einhvern hátt, t. a. m. með fórnum, eða einhverjum ummælum. Friðþægíngarmeðöl þau, er Hórazíus talar hjer um, eru hollar kenníngar heimspekinnar.*

22) *blað. Orð þetta hefir Hórazíus hjer að einu leytinu um eins konar blað með einhverjum töfraummælum á, og að öðru leytinu um kenníngar heimspekinnar.*

23) *þrysvar. Talan þrír hefir jafnan þótt merkileg; svo hafa fornir heimspekíngar t. a. m. tekið fram, að sú tala væri allra talna fullkomnust, og að við þá tölu væri alt bundið, af því að hún hefði í sjer upphaf og miðju og enda hvers hlutar. Hjer er talað um að lesa blað þrysvar, ef hrífa skal. Varró enn fróði talar og um í Akuryrkjubók sinni, 1. þætti, 2. kap., þar er hann talar um að lækna fótaveiki, að hafa upp einhvers konar bænarorð þrysvar níu sinnum. Hjá oss er í öðru sambandi talað um þrysvar tuttugu og sjö.*

24) *embættasynjan. Hjer er talað um, að óþægilegt*

land[25], að þeir fái hjá fátæki sneitt, og skunda yfir haf, kletta og eldsvoða; en er þá eigi betra, að nema og fræðast, og trúa þeim, er betur veit, að eigi fari svo, að menn leggi hug á það, er þeir af fákænsku sinni dást að og æskja? Hverr sá, er gjarna berst í sveitum úti og á gatnamótum, skyldi drepa hendi við krýníngu í enum miklu ólympsku leikum[26], ef hann getur gjört

45—51.

---

*þykir, ef mönnum er synjað um embætti, og er að tiltölu miklu optar um það talað hjá Rómverjum, en hjá oss, en það kemur til af því, að embætti voru næsta fá hjá Rómverjum, en veitíng eigi bundin við neitt tiltekið nám eða nein ákveðin próf, sem hjá oss, heldur að eins við ákveðinn aldur, óflekkað mannorð, og fleira því um líkt; svo er og aðgætanda, að embætti voru hjá Rómverjum veitt á allsherjar þíngum, þar er meginhlutur alþýðunnar átti atkvæðarjett, og þóttu alþýðu eigi sjaldan mislagðar hendur við veitíngarnar.*

[25]) *Indland, eð alkunna mikla þjóðland í Austurheimi; það liggur syðst á meginhlut Austurálfunnar, og liggur að því Arabahaf og Persland að vestanverðu, Kínverjaríki að norðanverðu, Kínlandshaf að austan, og lítill hlutur Kínlandshafs og austurhlutur Indlandshafs að sunnan. Indland liggur nær 81 jarðstigi austar en Ísland, og nær 29 jarðstigum sunnar en það; en það af landinu, er gengur lengst í suður, er suðurhlutur Malæjaskaga, og gengur hann nálega suður undir Miðjarðarbaug. Frá Indlandi fengu menn í fornöld eins konar litarefni, er kallað var Indlands litur, á latínu Indicum; þar af er komið orðið indigó (sama sem blásteinn eða blákkusteinn) hjá oss.*

[26]) *enir miklu ólympsku leikar. Ólympsvöllur (eða Ólympía) var völlur einn eða sljetta, er lá norðan til við Alfeusfljót, skamt frá Písuborg, í bygðarlaginu Elis, í útnorðurhlut Pelopseyjar; þar var lundur einn heilagur, er Altislundur hjet; þar var og hof ens ólympska Sevs. Á þessum stað voru haldnir enir ólympsku leikar, og er mælt, að Herkúles hafi þá stofnað; síðan lögðust leikar þessir niður, en voru upp teknir af nýju þrem hundruðum vetra eptir niðurbrot Trójuborgar; gjörði það maður nokkurr, er Ífítus hjet, og löggjafi Spartverja, Lýkúrgus. Leikarnir voru haldnir fjórða hvert ár, fimm daga senn; þeir voru haldnir í nautablótsmánuði (ἑκατομβαιών), en sá mánuður var enn fyrsti mánuður ársins hjá Aþenumönnum, og hófst nokkuru fyrir miðjan júlímánuð eptir voru tímatali.*

*Leikarnir voru ýmislegir, og voru enar helztu tegundir þeirra, 1, kapphlaup; 2, glíma; 3, hnefaleikur; 4, krínglukast, og var krínglа sú, er kastað var, úr steini eða járni; 5, stökkur, og stukku menn með þúng blýlóð í höndum; 6, spjótvarp;*

sjer von um ena þægilegu pálmviðargrein[27], og á kost á að fá hana, og þurfa þó lítið fyrir að hafa?

6, Silfrið er minna vert en gullið, og gullið minna vert en góðir mannkostir. Bræður, bræður, fyrst er að leita fjár, en síðan góðra mannkosta, er fjeð er fengið; þetta er kent í hvelfigöngunum[28], frá efstu göngunum til enna neðstu; þetta er haft upp fyrir úngum mönnum og gömlum[29], er hafa

50—56.

*7, kappreið; 8, kappakstur, og voru ýmist tveir hestar eða fjórir fyrir vagn beittir. Sá, er hestana átti, fekk sigurlaunin, en eigi sá, er hestinum reið eða á vagninum ók. Það var og stundum, að hesteigandinn var fjarstaddur, og stundum var það kona.*

*Þeir menn, er sigur fengu í leikum þessum, voru krýndir sigursveig, og var sveigur sá gjörr af blöðum villismjörviðar þess, er óx í Altislundi; þeim var og gefin pálmviðargrein í hægri hönd, og þótti það einhver en mesta sæmd, að hljóta slíkan sigur, og voru sigurvegurunum hátíðir haldnar, fyrst í Ólympíu sjálfri, og síðan heima, er þeir voru heim komnir; þeim voru og reistar líkneskjur, og lofkvæði um þá kveðin, líkt sem drápur um Norðurlandakonúnga í fornöld; ættborg eða ættjörð þeirra þótti og hafa mikinn sóma af þeim, og veitti þeim ena mestu virðíng og rjettindi fram yfir aðra menn.*

*Frá ár. 776 höfðu menn skrá, er nöfn þeirra manna voru á rituð, er sigur unnu í enum ólympsku leikum, og töldu menn síðar tímann bæði eptir ólympskum áradeildum* (olympiades), *og eptir sigri þeirra manna, er sigur unnu í leikunum, á líkan hátt, sem áratal var miðað við ræðismensku manna hjá Rómverjum, og við fæðíng Krists hjá oss.*

[27]) *pálmviðargrein. Í næstu skýríngu hjer á undan er þess getið, að þeir menn, er sigur hlutu í enum ólympsku leikum, fengu sigursveig á höfuð, og pálmviðargrein að auki í ena hægri hönd.*

[28]) *hvelfigöng. Af ýmsum frásögnum þykir ráða mega, að á landnorðurhlut höfuðtorgsins í Rómi hafi verið þrenn hvelfigöng (eða göng með hvelfíngu yfir; á lat. jani); þar höfðu penníngakaupmenn (eða okurmenn) byggistöðu sína, og getur Hórazíus hjer um kenníng slíkra manna.*

[29]) *úngir menn og gamlir. Flestir ætla, að hjer sje talað um únga menn eða únglínga, er fara í skóla, til að nema reikníngslist og fleira því um líkt, og gjörir Hórazíus hjer ráð fyrir, að jafnvel gamlir menn sje með, og á það að sýna, hve ant mönnum var alment um að verða vel að sjer í reikníngi, en reikníngslistin þykir nytsamleg ment til varðveizlu efna sinna og aukníngar þeirra.*

stokk[30] sinn og spjald[31] hengd á vinstra arm sjer, og þeir hafa það upp aptur. Þótt vjer hafim hugarþrek til að bera, og sjeim vandaðir í siðferði voru og vel máli farnir, og trúir og dyggvir, verðum vjer þó taldir meðal alþýðumanna, ef oss vantar sex sjö þúsundir í að eiga fjögur hundruð þúsunda sjöskildínga[32]; en er úngir sveinar 56—59.

---

[30]) *stokkur. Flestir ætla, að hjer sje talað um eins konar stokka eða öskjur, er menn höfðu reiknisteina eða reiknipenn-ínga í; samanb. næstu skýríng hjer á undan.*

[31]) *spjald, það er reikníngsspjald.*

[32]) *sjöskildíngur. Rómverjar höfðu eins konar penníngamynd, er þeir kölluðu eining eða einpenning (á lat. as, en það orð er skylt enu gríska orði* εἷς, *þ. e.* heis, *er merkir einn að voru máli); einpenníngur þessi var nokkuru minni, en þrír skildíngar eptir voru penníngatali, eða með öðrum orðum, lítið meira en tveir skildíngar og fjórir fimtu hlutir skildíngs. Af tíu einpenníngum myndaðist aptur önnur penníngamynd, er kölluð var tíeiníngur (á lat. denarius, af deni: tíu* í hverjum, *og as: eining eða einpenníngur); tíeníngur var jafn 28 skildíngum eptir vorum penníngum eða lítið meira. Tíeining var skipt í tvent, og var helftin kölluð fimmeiníngur (á lat. qvinarius, af qvini: fimm* í hverjum, *og as: einpenníngur), og var fimmeiníngur jafn fjórtán skildíngum að voru penníngatali, eða lítið meira. Enn var fimmeining skipt í tvo hluti, og var helmíngurinn kallaður sestertius á latínu (af sesqvi-: hálfur, og tertius: enn þriðji); var sú penn-íngamynd jöfn hálfum þriðja einpenning, eða lítið eitt meira en sjö skildíngar hjá oss, og er hún hjer kölluð sjöskildíngur.*

*Rómverjar höfðu fyrst framan af enga penninga, en greiddu það, er greiða skyldi, með lifandi skepnum, t. a. m. nautum og sauðum. Síðan var gjaldeyrir þeirra eir eða koparr, og var það vegið, er greitt var, og talið eptir pundum, en pund-ið var kallað libra, eða pondo, eða as. Sumir segja, að Servíus Túllíus, er var enn sjetti konúngur Rómverja (frá ár. 578 til árs. 534), hafi fyrstur mótað penninga af eiri; aðrir ætla, að það hafi eigi verið gjört fyrr en á stjórnarárum tímenninga (ár. 451 til árs. 449). Silfurpenníngar voru fyrst mótaðir ár. 269, og voru þá við hafðar þær þrjár penníngamyndir, er hjer voru áður nefndar, tíeiníngar, fimmeiníngar, og hálfir fimmein-íngar eða sjöskildíngar, og var sjöskildíngurinn sú pennínga-myndin, er optast var eptir talið, og það jafnvel, þótt talað væri um mikið fje. Hjer er talað um fjögur hundruð þúsunda sjöskildínga, en það er sú fjáreign, er þurfti á dögum Hóra-zíusar til að geta verið í riddarastjett hjá Rómverjum; það eru nær þrír tigir þúsunda ríkisdala eptir voru penníngatali, eða, ef*

leika sjer[33], segja þeir: þú skalt vera konúngur[34], ef þú breytir rjettlega. Það sje eirveggur vorr, að vera oss einskis ills meðvitandi, og þurfa eigi að blikna fyrir nokkura sök. Segðu mjer, kunníngi: hvort er betra, lögmál Róssíusar[35], eða ummæli enna úngu sveina, er veita þeim konúngdóminn, er breyta rjettlega, þessi ummæli, er enir karlmannlegu Kúríar og Kamillar[36] höfðu
59—64.

---

*gjörr skal á kveða, 29,442 ríkisdalir og 93 skildíngar, eptir því sem sumum reiknast; en ráðherrar hjá Rómverjum skyldu eiga hálfu meira, eða nær sex tigu þúsunda ríkisdala að voru penníngatali.*

[33]) *en er úngir sveinar leika sjer,* osfrv. *Hórazíusi þykir úngum sveinum fara betur, er þeir leika sjer, en fullorðnum mönnum ferr í breytni þeirra.*

[34]) *þú skalt vera konúngur, ef* osfrv. *Sumir ætla, að orð þessi sje tekin úr einhverjum ákveðnum leik, en þó vita menn það eigi með neinni vissu.*

[35]) *lögmál Róssíusar. Í leikhúsum Grikkja var eins konar svið milli leiksviðsins sjálfs og áhorfandanna; á sviði þessu var dansmannaflokknum (eða söngmannaflokknum) ætlað að standa, er dansa skyldi (eða sýngja), og því var svið það kallað danssvið eða dansmannasvið (eða söngsvið, eða söngmannasvið; á grísku:* ὀρχήστρα, þ. e. orchestra, *af* ὀρχεῖσθαι, þ. e. orcheisþæ: *að dansa). Rómverjar notuðu eigi þetta dansmannasvið (eða söngmannasvið) á sama hátt, sem Grikkir, og ár. 194 fyr. Kristsb. er þess getið, að ráðherrarnir fengu dansmannasviðið til að sitja í. Róssíus sá, er hjer er um talað, hjet öllum nöfnum Lúsíus Róssíus Ótó; hann var alþýðustjóri ár. 67 fyr. Kristsb., og bar hann þá fram nýmæli það, að riddarar skyldi hafa sæti sín í leikhúsinu í fjórtán sætaröðum þeim, er næstar voru ráðherrasætunum (eða dansmannasviðinu), en til þess að vera riddarar, þurftu menn, sem áður er sagt, að eiga að minsta kosti 400,000 sjöskildínga (eða nálega þrjá tigu þúsunda ríkisdala), og nefnir Hórazíus þetta lagaboð hjer, af því að honum þykir það sýna, að fje er talið nauðsynlegt til þess, að geta komizt til töluverðra metorða.*

[36]) a, *Þeir Kúríar og Kamillar, það eru slíkir menn, sem þeir Maníus Kúríus tanni (eða dentatus) og Markus Fúríus Kamillus voru.*

b, *Maníus Kúríus tanni var einn af enum miklu ágætismönnum Rómverja í fornöld, og er hann, og þeir Kamillus hjer nefndir, sem optar, til dæmis um, hvílíkir Rómverjar fyrrum voru. Kúríus tanni var þrysvar ræðismaður, eð fyrsta sinn ár. 290 fyr. Kristsb., og vann hann þá Samna og Saba (eða*

fyrir munni sjer? Hvort ræður sá þjer betur, er ræður þjer að 64—65.

---

*Sabína). Nokkuru síðar átti hann og við Lúka (eða Lúkana), og sigraði þá. Ár 275 var Kúríus ræðismaður annað sinn; barðist hann þá við enn nafnkenda Pyrrus Epírusmannakoníng, og vann hann í miklum bardaga við borg þá í Samnafylki (eða Hirpafylki), er Óheillaborg* (Maleventum) *var kölluð, en eptir sigur þenna var breytt nafni borgarinnar, og hún kölluð Heillaborg* (Beneventum). *Árið 274 var Kúríus ræðismaður eð þriðja sinn; átti hann þá enn í höggi við Samna og Lúka, svo og við Brútta.*

*Kúríus var mikill hófsemdarmaður og sparneytinn mjög; er þess getið, að Samnar gáfu sig undir vernd hans, þá er hann hafði unnið þá, og einhverju sinni var það, að þeir sendu menn með allmikið fje til hans, og ætluðust til, að hann skyldi þiggja, en er sendimenn komu, sat Kúríus við arin sinn, og segja sumir, að hann hafi matreitt sjer rófur, en aðrir, að hann hafi matazt þar, og borðað af lítilli trjeskál. Nú er sendimenn komu með fjeð, og báðu Kúríus þiggja, kvaðst hann eigi fjárþurfi vera, og bað sendimenn segja samlöndum þeirra, að hann vildi heldur vera höfðíngi yfir auðgum mönnum, en eiga sjálfur auð fjár, og enn bað Kúríus sendimenn muna, að hann mundi hvorki sigrast láta í fylkíngu, nje láta fje verða sjer að fótakefli.*

*Þótt Kúríus væri slíkur maður, sem nú er sagt, var hann þó ákærður fyrir, að hann hefði dregið undir sig fje ríkisins, og er þá mælt, að hann hafi borið fram blótbolla einn af trje og unnið eið að, að hann hefði eigi haft neitt heim með sjer af herfángi óvinanna, nema bolla þann. Um Kúríus þenna er þess enn getið, að hann var með tönnum fæddur, og því fekk hann viðurnefni það, að hann var tanni kallaður. Hann dó ár. 270 fyr. Kristsb.*

c, *Markus Fúríus Kamillus var og einn af enum mestu ágætismönnum Rómverja í fornöld; hann var kjörinn til alvaldsmanns ár. 396 fyr. Kristsb., og vann hann þá Vejaborg í Etrúralandi, en Rómverjar höfðu áður setið um borgina þegar í tíu vetur, og fengu eigi unnið hana. Tveim vetrum síðar, eða ár. 394, vann Kamillus Falersborg, er og lá í Etrúralandi, og vann hann borg þá fremur með veglyndi, en hreysti eða ráðkænsku. Kamillus hafði herbúðir sínar fyrir framan borgina, og fekk lítið eða ekki að gjört; er þess nú getið, að barnakennari einn, er hafði til kenslu syni helztu manna borgarinnar, var vanur að gánga með piltum sínum út fyrir borgina, þeim til skemtunar og hreifíngar. Nú var það einn dag, sem optar, að maður þessi gekk út fyrir bæ með pilta sína; fór hann þá til herbúða Kamillusar, og kvaðst nú hafa selt Falers-*

afla þjer fjár, og það á rjettan hátt, ef þú getur, en annars 65—66.

---

*borg í hendur Rómverjum, er hann hefði selt þeim í hendur börn þeirra manna, er hefði mest ráð í borginni. Kamillus bauð við slíkum glæp, og mælti við barnakennarann auk annars: vjer höfum vopn, eigi móti þeim aldri, er eirt er, þótt borgir sje teknar, heldur móti vopnuðum mönnum, og mun eg þá sigra með rómverskum vjelum, en það er með hreysti, hervirkjum og vopnum. Því næst ljet Kamillus fletta kennarann fötum, og binda hendur hans á bak aptur; síðan seldi Kamillus hann í hendur sveinunum, og ljet þá aptur með hann fara til borgarinnar, og ljet fá þeim vöndu, er þeir mætti slá hann með, og reka hann svo til borgarinnar. Við þetta breyttist mjög skap borgarmanna; áður höfðu þeir verið enir áköfustu í vörn sinni móti Rómverjum, en nú gáfust þeir sjálfviljuglega á vald þeirra.*

*Nú er þess að geta, að þá er Kamillus vann Vejaborg (ár 396), hafði hann heitið Apolló Delfaguði tíunda hlut herfángsins; fekk þetta hermönnunum mikillar óánægju, en mál þetta lá þó að miklu í þagnargildi, unz lokið var umsátinni um Falersborg; þá var mál þetta hafið af nýju, og fór Kamillus þá í útlegð brott frá borginni, og suður til Hegraborgar (eða Ardeu), en sú borg lá í þeim hlut Latlands ens forna, er Rútúlar bygðu, nokkuru norðar en á miðri vesturströnd landsins, en er Kamillus var brott farinn frá borginni, var hann útlagur gjörr fimtán þúsundum eirs, eða nokkuru minna en fimm hundruðum ríkisdala eptir voru penningatali.*

*Nú er frá því að segja, að í þann tíma (ár 391) sátu enir gallnesku Senónar um Klúsíuborg í Etrúralandi; sáu Klúsíumenn sitt óvænna, og sendu menn til Róms og báðu ráðið þar fulltíngs. Bræður þrír voru sendir til Klúsíuborgar; skyldu þeir semja við Galla fyrir hönd ráðsins og Rómverja, en er eigi gekk saman með sendimönnum Rómverja og Göllum, gengu sendimenn í bardaga með Klúsíumönnum. Þetta þótti Göllum þjóðrjettarrof, og voru menn sendir til Róms, er skyldu krefja, að sendimenn væri fram seldir. Því var synjað. — Gallar hugðu nú að fara til Rómaborgar sjálfrar. Á leiðinni komu Rómverjar í móti þeim, þar er Allíufljót rennur í Tíberá, nokkuru meira en tvær mílur fyrir norðan Rómaborg. Hjer tókst orrusta, og biðu Rómverjar þar slíkan ósigur, að sá dagur ársins, er bardagi þessi stóð, en það var enn 18. dagur júlímánaðar, var síðan talinn einhverr enn mesti óheilladagur hjá Rómverjum* (dies Alliensis og Alliensis dies); *þó flýðu fleiri af Rómverjum, en fjellu, og fór mestur hlutur flóttamanna vestur til Vejaborgar í Etrúralandi, en aðrir heim aptur til Rómaborgar.*

kostar með hverju móti, er verða má, svo að þú getir átt kost 66—67.

---

*Þegar eptir bardagann við Allíufljót fóru Gallar til Róms; var þar lítið um vörn. Margt fólk flýði víðs vegar brott af borginni, en þeir menn, er helzt var nokkurrar varnar af von, höfðust við á vígi borgarinnar á Kapítólshæð. Nokkurir aldraðir höfðíngjar, er hvergi vildu fyrir hopa, settust á torgið eða við hús sín í skrautbúnaði sínum, og biðu þess, er að höndum bæri. Gallar rændu nú borgina, og brendu mikinn hlut hennar, og drápu hvern mann, er fyrir varð, en vígimu náðu þeir eigi; hugsuðu þeir sjer þá, að sitja í borginni, unz þeir, er í víginu voru, yrði vistalausir, og þröngva þeim svo til uppgjafar.*

*Nú er að segja frá Rómverjum, þeim er í Vejaborg voru; þeir vildu fulltíngja samborgarmönnum sínum í Rómi, og þótti þá helzta úrræðið, að leita til Kamillusar í Ilegraborg, og var hann nú að alveldismanni gjörr. En áður en Kamillus kom til Róms, krepti svo að vígismönnum, að þeir tóku að semja við Galla; Gallar voru og eigi ófúsir til samnínga, því að sótt var upp komin í her þeirra; þá tók og sjálfa vistir að skorta, og varð það nú að samníngum með vígismönnum og Göllum, að vígismenn skyldu greiða Göllum þúsund punda gulls; en er gullið var vegið, þóttu Gallar hafa of stór met, og er Rómverjar kærðu það, er sagt, að Brennus, fyrirliði Galla, hafi lagt sverð sitt og belti á þá skálina, er metin voru á, og mælt: hverfur hamíngja, er horfinn er sigur* (vae victis). *en nú er mælt, að Kamillus hafi að komið í þessi svipan, tekið gullið af voginni, og gefið það þjónustumönnum sínum, en boðið Göllum að taka vogina og metin, og hafa sig á braut, og enn er mælt, að Kamillus hafi sagt, að það væri ættgengt Rómverjum, að frelsa ættborg sína með járni, en eigi með gulli. Brennus undi þessu illa, og sagði, að sáttmál væri við sig rofið, en Kamillus sagði, að engir samníngar hefði verið rjettlega samdir, síðan er hann hefði alveldismaður orðið, og kvað hjer alla slíka samnínga ónýta. Ljet Kamillus því næst menn sína ráða á Galla, og sigraði þá, og var hann fyrir því síðan kallaður faðir borgarinnar og annarr höfundur hennar. Á þessa leið segja ýmsir rómverskir sagnaritendur frá viðskilnaði Galla og Rómverja; aðrir sagnamenn segja, að Gallar hafi brott farið með gullið, og þykir mörgum sú sögn líklegri.*

*Þá er Rómaborg var laus orðin við Galla, þótti borgin allóbyggileg; vildu því margir, einkum alþýðumenn, flytja sig norður til Veja, en höfðíngjar stóðu flestir fast í móti flutníngnum, og var Kamillus fremstur í þeim flokki; var borgin nú af nýju við reist, og þótti Kamillus koma þar hvervetna fram, er bezt gegndi.*

á að sitja nærr, til að horfa á enn grátlega kveðskap Púpíusar[37]; eða sá, er hvetur þig öfluglega að rísa frjálslega og einarðlega upp í móti enni drambsömu hamíngju, og lagar þig svo, að þú fáir það gjört?

7, Ef Rómalýður[38] spyrði mig, hvernig á því stendur, að eg er eigi svo í dómum mínum, sem hann, eins og eg geng í enum sömu stólpagöngum[39], sem hann, og að eg aðhyllist eigi það eða forðast, er hann sjálfur ann eða hefir óbeit á, þá mundi eg svara því[40], er varkárr refur svaraði forðum sjúku ljóni: það

67—74.

---

*Ár 389 var Kamillus kjörinn til alveldismanns eð þriðja sinn; vann hann þá Volska, Ekva og Etrúra. Ár 368 var hann enn alveldismaður, eð 4. sinn, og næsta ár (367) eð 5. sinn. Ár 365 dó hann í sjúkdómi, er þá gekk.*

[37]) *Púpíus þessi var harmsagnaskáld (eða tragedíuskáld). Um hann er oss eigi annað kunnugt, en að sagt er, að kvæði hans hafi haft þau áhrif á áhorfendur, að þeir hafi eigi tára bundizt, er þau voru leikin; og því er mælt, að hann hafi sjálfur sett sjer legtitul, er svo var: Flebunt amici et bene noti mortem meam, nam populus in me vivo lacrimatu'st satis, það er að voru máli:* vinir og góðkunníngjar munu gráta lát mitt, því að lýðurinn hefir nógsamlega yfir mjer grátið, meðan eg lifða. *Hórazíus nefnir Púpíus hjer til þess að sýna, að auðlegð sje eigi svo einkar mikils verð, þótt hún jafnvel veiti mönnum riddaratign, svo að þeir megi sitja því framar í leikhúsinu, og fái því betur sjeð slík harmsagnakvæði, sem þau, er Púpíus samdi; sumir ætla. að Hórazíus hafi nefnt Púpíus hjer, af því að honum hafi þótt lítið til hans koma, en það verður eigi, að minsta kosti með neinni vissu, ráðið af orðum Hórazíusar.*

[38]) *Rómalýður, það eru Rómverjar, eða með öðrum orðum (samborgarmenn Hórazíusar, eða) þeir menn, er Hórazíus eiginlega ritaði fyrir.*

[39]) *stólpagöng. Það var mjög alment hjá Grikkjum og Rómverjum, að stólparaðir (eða súlnaraðir) með þaki yfir voru hafðar umhverfis hof og önnur hús, einkum þau, er vanda skyldi. Í stólparöðum þessum (eða súlnaröðum) þótti gott til forsælu, er sólskin var og hiti; þar þótti og skýli gott, er regn var og óveður, og því voru menn þar opt á gángi, og eru slíkar raðir fyrir því kallaðar stólpagöng eða súlnagöng.*

[40]) *Það, er varkárr refur svaraði* o. s. frv. *Eð alkunna gríska dæmisagnaskáld Esópus, er var uppi á fyrra hlut sjöttu aldar fyr. Kristsb., að því er menn ætla, hefir svo frá sagt í einni af dæmisögum sínum (enni 91.), að ljón eitt, er var orðið*

kemur til af því, að förin fæla mig; þau liggja öll að þjer, en ekki þeirra frá þjer aptur. Lýðurinn er sem dýr með mörgum höfðum, því hvað á eg fyrir mjer að hafa? eða hverjum á eg að fylgja? Sumir hafa allan hug sinn á alþjóðlegum leigíngum[41]; sumir veiða ágjarnar ekkjur með sætabrauði og eplum, og reyna að ná í gamalmenni, er þeir fái hleypt í dýragerði eða fiskitjarnír[42], og enn eru þeir margir, er auka efni sín á huldu okri. En látum það nú vera, að sitt geðjist hverjum; en getur þá sami maðurinn unað enu sama stundinni leingur? Ef auðmaður segir:

74—84.

---

*svo gamalt, að það mátti eigi afla sjer bjargar með styrkleik líkams síns, hugsaði sjer, að leita sjer bjargar með hyggjuviti sínu; gekk það þá inn í helli einn, lagðist þar niður, og ljezt vera sjúkt mjög; komu nú alls konar dýr til ljónsins, og vildu vita, hvernig því liði, en ljónið tók þau öll, og lagði þau að munni sjer. Þá er ljónið hafði svo deytt mörg dýr, sá refurinn, að þetta var bragð ljónsins; gekk hann þá til hellisins, þar er ljónið lá, en nam þó staðar fyrir utan hellismunnann, og spurði ljónið, hvernig því liði. Ljónið sagði, að sjer liði vel, og spurði því næst refinn, hví hann kæmi eigi til sín. Refurinn svaraði: eg hefði komið inn til þín, ef eg sæi hjer eigi för, er öll liggja inn til þín, en ekki þeirra út aptur. Með sögu þessi hafði Esópus viljað sýna, að vitrir menn væri nærfærnir um hættur, er þeim væri búnar, og notar Hórazíus hjer þessa sögu Esópusar.*

[41]) *Sumir hafa allan hug sinn á alþjóðlegum leigíngum (á lat.:* pars hominum gestit conducere publica). *Sumir ætla, að hjer sje einkum talað um þá menn, er tóku skatta ríkisins á leigu, eða með öðrum orðum um þá menn, er tóku að sjer að heimta saman skatta þá, er ríkið átti, og hjeldu skattheimtendur sköttunum sjálfum, en greiddu aptur ríkinu ákveðið gjald af þeim eða eptir þá; aðrir ætla, að hjer sje og talað um menn, er tóku eitthvað annað á leigu, það er ríkið átti, t. a. m. veiðar í fiskivötnum, eða saltnámur; og enn ætla aðrir, að hjer sje talað um menn, er tókust á hendur ýms störf fyrir ríkið, t. a. m. hofgjörðir.*

[42]) *dýragerði eða fiskitjarnir. Í latínunni stendur vivarium, og er það orð ýmist haft um dýragerði eða fiskitjörn; í dýragerðum ljetu menn ýms merkurdýr gánga, t. a. m. rádýr, dádýr og hjörtu; í fiskitjörnum höfðu menn ýmsar fiskitegundir, t. a. m. múrenur og ostrur. Óvíst þykir, í hvorri merkíngunni orðið er hjer haft, en í orðum Hórazíusar liggur, að menn vilji ná í gamla menn, er eiga nokkuð, hugnast þeim um stundarsakir, og eignast síðan það, er eptir þá verður.*

ekki vik í heimi berr af enni unaðlegu Bajaborg[43], þá fær vatnið þar[44] og hafið þar að finna til ástar ens hraðfara húsbónda; en ef ill girnd gefur honum aptur aðra bendíng, þá munu þjer, smiðir, fara á morgun með tól yður til Teansborgar[45]. Ef hvíla fæðíngargoðsins[46] stendur í andyri ens auðga manns, þá segir

83—88.

---

[43]) *Bajaborg lá í Valllandi (eða Kampaníu), vestan til við Púteólavík, í norður og lítið eitt í landnorður frá Mísensborg, en í landsuður frá Kúmaborg. Við Bajaborg voru ágæt böð, og sótti þángað mesti mannfjöldi.*

[44]) *vatnið þar. Í útnorðurhlut Púteólavíkur var eið eitt, er gekk frá ströndinni lítið eitt fyrir norðan Bajaborg, og í norður eða lítið eitt í landnorður yfir til strandarinnar hinum megin. Fyrir innan eða vestan eið þetta var eins konar vatn, er kallað var Lúkravatn (eða Lúkrínsvatn), og er það vatn það, er hjer er um talað. — Síðar eyddist vatn þetta og eiðið, og ætla sumir, að það hafi orðið við eldsumbrot, er voru þar í jörðu ár. 1538, og þá myndaðist þar fjall eitt keilulagað, er kallað er Nýja Fell (á ítölsku* Monte Nuovo), *en fjall það liggur í austur og lítið eitt í suður frá Kúmaborg.*

[45]) *Teansborg sú, er hjer er um talað, lá norðarlega í útnorðurhlut Valllands (eða Kampaníu), í austur og lítið eitt í suður frá Svessuborg, en í útnorður frá Kalaborg. Teansborg þessi var höfuðborgin í þeim hlut Valllands, er Sídikar (eða Sídikenar) fyrrum bygðu, en enir eiginlegu Valllendíngar síðan lögðu undir sig: Önnur borg, en Teansborg þessi, var Teansborg sú, er lá í útnorðurhlut Appúlafylkis, vestur undir Trentófljóti. — Flutníngur sá og breytíngar, er Hórazíus talar hjer um, eiga að sýna, hve óstöðugir auðmenn eru.*

[46]) *fæðíngargoð. Það var trúa Rómverja, að með manni hverjum fæddist eins konar andaleg vera, er fylgdi manninum, meðan hann lifði, og dæi síðast með honum; þessa veru kölluðu Rómverjar genius, en það orð kemur af orðstofninum gen, er kemur fram í sagnarorðinu gignere (fyrir gi-genere): að geta (á dönsku:* at avle), *og að fæða; vera þessi er hjer kölluð fæðíngargoð. — Þá er einhverr kvæntist, var það siður, að hann ljet búa fæðíngargoði sínu rekkju í andyri húss síns, og eru þaðan af komin orðatiltæki þau, er hjer eru höfð, að rekkja fæðíngargoðsins stendur í andyri einhvers, sama sem: að hann sje kvæntur, og að þar sje engi rekkja, sama sem: að maðurinn sje ókvæntur. Síðan er þess hjer getið (í annarri bók, öðru brjefi, 189. vísuorði), að fæðíngargoð þetta (eða æfigoð) sje ýmist hvítt eða svart, og ferr litbreytíng sú eptir því, hvernig manni gengur í heiminum, hvort honum gengur vel eða illa.*

hann, að ekki sje fremra og ekki betra, en einlífið; en ef þar er engi hvíla, þá sverr hann og sárt við leggur, að þeim einum líði vel, er kvongaðir eru. Hvernig á eg að halda Prótevs[47], er 88—90.

---

[47]) *Prótevs var sæguð; hann bjó í hafi úti við Farey, norður undan vesturhlut Egiptalands, og gætti þar sela. Þá er Trója var unnin, og Menelaus Spartverjakonúngur Atrevsson leitaði heimleiðis, hraktist hann suður til Egiptalands, og varð veðurteptur á Farey í tuttugu daga, sakir þess að hann hafði eigi stofnað guðunum fullkomin blót. Kom þá til Menelausar dóttir Prótevs, sú er Eidópea hjet; hún spurði Menelaus, hvernig stæði á veru hans þar. Menelaus sagði, að guðirnir hepti ferð sína, og bað Eidópea segja sjer, hverr sá væri af guðunum, er það gjörði. Eidópea vísaði Menelausi þá til föður síns, ens spávísa Prótevs, og sagði, að hann mundi geta frætt Menelaus um margt, ef Menelaus fengi gjört honum fyrirsát og náð honum. Menelaus spurði nú Eidópeu, hversu hann skyldi haga umsátinni við enn gamla guð. Sagði Eidópea honum þá, að er sólin væri komin upp á mitt himinhvolfið, þá kæmi enn sannspái gamli sæguð af hafi utan í útrænunni, og væri hulinn dimmu gráði; sagði Eidópea, að hann legðist nú til svefns í holum hellum, og að umhverfis hann svæfi mikill fjöldi sundfimra sela, er kæmi upp af enum gráa sæ, og sagði hún, að af þeim legði ríkan sæþef. Híngað skal eg leiða þig, mælti Eidópea við Menelaus, þegar er lýsir af degi, og búa þjer þar ból, en þú skalt velja með þjer þrjá sveitúnga þína, þá er þú hefir hraustasta við en vel þóptuðu skip. Skal eg nú segja þjer öll vjelabrögð ens gamla guðs; fyrst mun hann telja selina, og gánga um hópinn, en er hann hefir varpað tölu á alla selina og skoðað þá, mun hann leggjast niður í miðjum hópnum, sem sauðamaður í hjörð; en þegar er þjer sjáið, að hann hefir lagzt, skulu þjer neyta afls og orku, og halda honum, þótt hann brjótist um og vilji sleppa, því að þess mun hann freista, og bregða sjer í allra kykvenda líki, þeirra er á jörðu hrærast, og í vazlíki, og eldslíki brennanda; en þjer skuluð halda fast tökum, og betur á herða; en er hann leitar að fyrra bragði orða við þig, og er orðinn sem hann var, þá er þjer sáuð hann leggjast, þá skalt þú, öðlíngur, sleppa tökunum, og láta enn gamla guð lausan, og spyrja hann, hverr af guðunum þröngvi kosti þínum, og hversu þú megir aptur heim komast yfir eð fiskauðga haf. Þá er Eidópea hafði þetta mælt, stakk hún sjer á kaf í eð bylgjótta haf; morguninn eptir tók Menelaus þrjá af sveitúngum sínum, er hann treysti bezt, og gekk með sæ fram; kom þá Eidópea til hans, og hafði með sjer fjórar selshúðir nýflegnar. Nú lagði Eidópea þá Menelaus í látur hvern hjá öðrum, þar*

bregður sjer í ýmsar myndir? Hvað gjörir fátæklíngurinn? það er hlægilegt til þess að vita; hann skiptir um herbergi[48], og legubekki[49], og um böð[50] og skeggrakara[51], og leigir sjer skip, 90—92.

---

*er selirnir voru vanir að liggja, og lagði sína selshúð yfir hvern þeirra, og biðu þeir þar allan morguninn, og lagðist mikill fjöldi sela hjá þeim, og þótti þar ill lega; en er kom að miðjum degi, kom enn gamli guð af hafi utan; fór nú svo sem Eidópea hafði sagt; Prótevs gekk um alla selina, og varpaði tölu á þá, og taldi þá Menelaus fyrsta; grunaði hann eigi, að hjer mundi nein svik undir búa, og lagðist síðan sjálfur niður. Nú rjeðu þeir Menelaus á hann, og brá hann sjer þá fyrst í líki kamploðins ljóns; síðan varð hann að dreka, og flekkudýri og miklu svíni, og því næst að vatni rennanda og hálaufguðum viði; en þeir Menelaus voru einbeittir, og hjeldu fastatökum; sá Prótevs nú sitt óvænna og sefaðist, og fekk Menelaus nú fregnir hjá honum. Hjer um bil á þessa leið hefir eð gríska höfuðskáld Hómer sagt frá breytíngum Prótevs; eð rómverska þjóðskáld Virgill talar og um breytíngar hans í Akuryrkjukvæði* (Georgica), *fjórðu bók, og lætur Virgill þar (í vísuorðunum 407 til 410) Prótevs breyta sjer ýmist í byrst svín, eða svart tígrisdýr, eða hreistrugan dreka, eða dökkmakkaða ljónynju, eða hvassbrestanda loga, eða þunnt vatn.*

*Af því að Prótevs breyttist svo margvíslega, varð það orðtak hjá Rómverjum, að hverflyndir menn og óstöðugir voru kallaðir Prótevar, og því fara Hóraziusi svo orð, sem honum fara hjer, er hann talar um óstöðugleik Rómalýðs.*

[48]) *hann skiptir um herbergi. Orð Hóraziusar benda til, að óstöðugleikur manna sje svo mikill, að jafnvel fátæklíngar, er leigja sjer (íveru)herbergi, hvar sem bezt gengur, uni hvergi, og skipti jafnan um.*

[49]) *legubekkur er hjer það kallað, er Latínumenn kalla lectus (á grísku* λέκτρον *eða* λέχος, *af* λέγεσθαι, *í merkíngunni: að leggjast). Slíka legubekki höfðu Rómverjar til að liggja á, þá er þeir vildu hvílast eða sofa, eða lágu sjúkir, svo og, er þeir mötuðust, en það var siður Rómverja, að þeir mötuðust eigi venjulega sitjandi sem vjer, heldur hölluðu þeir sjer á vinstri hlið á legubekki við matborð sín, og hálflágu svo, en mansmenn, er gengu um beina, tóku matinn á borðinu, og rjettu þeim, er mötuðust, hann svo lagaðan, að þeir þurftu eigi annað, en taka við honum með hægri hendinni og stínga honum upp í sig.*

[50]) *böð voru mjög tíð hjá Rómverjum, sem flestum öðrum mentuðum þjóðum; þykja böð mjög holl, og einkum nauðsynleg í enum heitari löndum.*

[51]) *skeggrakari. Í latínunni stendur tonsor, og er*

og þjáist jafnt af sjósótt sem auðmaðurinn, er ferr á þrennæríngi[52], er hann sjálfur á.

8, Ef eg kem í móti þjer, og hárskeri, er hefir mislagðar hendur, hefir fjatlað um hár mitt, þá hlær þú; og ef eg hefi slitna skyrtu[53] undir stroknum kyrtli, eða kápa mín ferr eigi vel, 93—96.

---

*það orð upphaflega og eiginlega haft um klippíngarmann, en Rómverjar hafa það þó optast um barðskera eða skeggrakara, eða með öðrum orðum um þá menn, er höfðu þá sýslu, að raka skegg manna; þeir enir sömu menn voru og vanir að klippa höfuðhár manna og neglur.*

*Í fornum sögum er þess getið, að sá siður að raka sig, eða láta raka sig, hafi fyrst komið upp hjá Grikkjum á dögum Alexanders ens mikla (er dó ár 323 fyr. Kristsb.) Um skeggrakstur hjá Rómverjum er þess getið, að maður nokkurr, er hjet Públíus Lísiníus Mena, hafi ár 300 (fyr. Kristsb.) haft skeggrakara með sjer frá Sikiley til Róms, og að þá hafi Rómverjar alment farið að raka sig, og enn er þess getið, að Afríkusipíó enn eldri, er dó, eptir því sem menn helzt ætla, ár 183, hafi fyrstur manna með Rómverjum tekið upp þann sið, að láta raka sig dag hvern.*

*Auðmenn hjá Rómverjum ljetu einn af mansmönnum sínum hafa það starf, að raka sig; aðrir gengu í skeggrakarabúðir. Hjer er talað um, að fátæklíngar skipti um rakara, og sjest á því, sem öðru, hve menn voru óstöðugir og hviklyndir.*

52) *Þrennæríngur, þ. e. skip með þrennum áraröðum, hverri upp af annarri; þó var eigi hver árin sett beint yfir aðra, heldur voru árar þeirrar raðar, er ofar var, yfir bili því, er var milli ára þeirra, er neðar voru. Svo hafa menn t. a. m. mynd frá fornöld, er á má sjá eptra hlut áraraðar á annarri hlið þrennærings, og er en aptasta ár ennar neðstu raðar öptust; þá en aptasta ár miðraðarinnar yfir bili því, sem er milli tveggja enna öptustu ára ennar neðstu raðar; þá aptasta ár efstu raðarinnar milli annarrar árar neðstu raðarinnar og annarrar árar miðraðarinnar, og svo framvegis. Rómverjar tala um skip með tvennum, þrennum, fernum og fimm, og jafnvel með tíu, tuttugu, þrjátíu og fjörutíu áraröðum.*

*Með þessum sínum orðum vill Hórazíus sýna, að fátæklíngar, er ekki skip eiga, leigi sjer skip, og fari á þeim eitthvað sjer til skemtunar, þótt þeir þjáist í sjósótt; og ferr þeim í þessu sem auðmönnum, er sjálfir eiga stór skip, er þeir hafa til skemtiferða.*

53) *skyrta. Rómverjar höfðu á elztu tímum venjulega að eins eina kápu* (toga) *yfir sjer, þá er þeir gengu út, og náði kápa sú niður á ökla, ef henni var niður hleypt. Síðar höfðu Róm-*

þá hlær þú; en hvað gjörir þú þá, er hugur minn berst við sjálfan sig, og eg hafna því, er eg hefi áður eptir sózt, og leita þess aptur, er eg hefi nýslept, og er allur á reiki og sjálfum mjer ósamkvæmur í öllu lífi mínu, og ríf og reisi, og gjöri krínglótt, það er ferhyrnt er? þá ætlar þú, að eg sje eigi vitlausari, en fólk er flest, og hlær eigi, og hyggur eigi, að eg þurfi læknis við, eða forræðismanns, er dómstjórinn[54] setur, og þó ert þú
97—104.

---

*verjar eins konar kyrtil* (tunica) *undir kápu sinni, og náði kyrtill sá ýmist niður undir hnje, eða jafnvel stundum niður á ökla; kyrtil þenna höfðu menn og eigi sjaldan eingöngu, og enga kápu yfir. Enn er þess getið, að menn höfðu eins konar skyrtu* (subucula) *undir kyrtli sínum, og hafa menn mynd frá fornöld, þar er sjá má mann í skyrtu, er nær vel niður á miðjan legg, en síðan er kyrtill yfir, hálflauss eða flakandi, en Rómverjar voru venjulega buxnalausir, og fyrir því hylst skyrtan eigi.*

[54]) *dómstjóri, svo er hjer kallaður maður sá, er Rómverjar kölluðu praetor* (þ. e. pretor).

*Ár 510 fyr. Kristsb. var konúngsstjórn af numin í Rómi; voru þá kjörnir tveir ræðismenn* (consules) *í stað konúngs. Ræðismenn voru fyrst framan af að eins kjörnir af ættum höfðíngja (eða patrisía), en eigi af alþýðumönnum; ár. 367 fyr. Kristsb. fengu alþýðumenn á unnið, að kjósa skyldi annan ræðismann af flokki alþýðumanna, en nú var stofnað aptur dómstjóraembættið* (praetura), *og máttu að eins enir heldri menn fá það embætti fyrst framan af.*

*Höfuðstarf dómstjóra var að stjórna dómum bæði í einstaklegum málum, og í alþjóðlegum málum eða sakamálum; hann bjó málið til dóms, tók til dómendur, skar úr, hvað lög væri, líkt sem lögsögumaður hjá oss; hann kvað og á, hverr halda skyldi þeim hlut, er um var deilt, til þess er málið væri til lykta leitt. Á fyrri tímum, meðan lýðurinn, en eigi einstakir menn, dæmdi sakamál, voru dómstjórarnir forsetar eða forstjórar á slíkum þíngum. Dómstjórinn gekk og í stað ræðismannsins, þá er hann var fjarstaddur, og gegndi störfum hans bæði á samkomum öldúngaráðsins og öðrum mannfundum; hann bauð og liði út. Dómstjórinn hjelt embætti sínu eitt ár. Þá er hann tók við embætti, birti hann auglýsíng nokkura* (edictum), *og kunngjörði með henni, eptir hverjum reglum hann ætlaði að fara í dómstjórn sinni; slíkar auglýsíngar urðu síðan eins konar rjettarbætur eða viðbót við lögin. Dómstjórinn setti óðum, vitskerðum og eyðslusömum mönnum fjárhaldsmann eða forræðismann, ef þeir áttu engan frænda, er það skyldi vera að lögum; slíkur forræðismaður var kallaður curator á latínumáli;*

verndari minn, og reiðist, þótt eigi sje annað, en nögl sje illa skorin á vini þínum, erá alt sitt athvarf, þar er þú ert, og hefir alt sitt traust á þjer einum.

9, Að eg nú eigi lengi þetta mitt mál, meir en orðið er, þá er spakur[55] maður Júppíter[56] einum minni; hann er auðugur, hann er frjáls, hann er í hávegum hafður, hann er fagur ásýndum, og í stuttu máli: konúngur konúnganna[57], og einkar vel heilsu farinn, nema þá er kvefið[58] þjáir hann.

103—108.

---

*en fjárhaldsmaður eða fjárgæzlumaður kvenna eða þeirra manna, er eigi voru til lögaldurs komnir, kallaðist t u t o r.*

*Ár. 317 fyr. Kristsb. var fyrst kjörinn dómstjóri af alþýðustjett. Ár. 243, eða því nær, voru fyrst kjörnir tveir dómstjórar, og skyldi annarr dæma milli útlendínga, eða milli borgarmanna og útlendínga. Ár. 227, eða því nær, þá er Rómverjar höfðu unnið Sikiley og Sardey, var bætt við tveim dómstjórum, og skyldu þeir dæma mál manna á eyjum þeim. Ár. 197, þá er hvorrtveggi Spánn var unninn, urðu dómstjórar sex, og skyldu þeir tveir enir nýju dæma mál manna á Spáni hvorumtveggja. Á dögum Súllu (ár. 81) urðu dómstjórar átta; á dögum Sesars (er veginn var ár. 44) urðu þeir sextán, en á dögum keisaranna hvarf embætti þetta, sem öll önnur en fornu embætti.*

*Orðið p r a e t o r er saman dregið fyrir p r a e i t o r, og er það komið af enu latínska sagnarorði p r a e i r e* (að gánga fyrir); *er því en upphaflega og eiginlega merking orðsins sú, að það er haft um hvers konar (forgöngumenn eða) forráðsmenn, eða foríngja, sem vera skal, en þó einkum um hershöfðíngja eða liðforíngja; þó er dómstjóramerkíngin lángtíðust hjá enum beztu rithöfundum (t. a. m. Síseró og Sesar), er bækur rituðu, þá er málið var í mestum blóma (á fyrstu öld fyr. Kristsb.).*

[55]) *s p a k u r maður er* o. s. frv. *Hjer er talað um spakan mann, líkt sem sumir heimspekíngar gjörðu, einkum Stólpgángamenn (eða Stóumenn); þeir sögðu, að spekin veitti manninum alt ágæti andlegt og líkamlegt.*

[56]) *J ú p p í t e r (eða eptir grísku máli: Sevs), var æðsti guð Grikkja og Rómverja; hann var sonur þeirra systkina og hjóna, Satúrnusar (eða Krónusar) Himinssonar, og Hreu Himinsdóttur, og bróðir þeirra Neptúnusar hafguðs, og Plútons undirheimaguðs. Kona Júppíters, og systir þeirra bræðra, var Júnó (á grísku Hera).*

[57]) *k o n ú n g u r konúnganna. Svo var enn alkunni herkonúngur Agamemnon kallaður, og er það eins konar einkenníng þess manns, er þykir hafa meira ríki en aðrir menn.*

[58]) *k v e f i ð. Þótt sumir heimspekíngar, svo sem einkum*

## Annað brjef[1].
til
## Lollíusar[2].

Efni brjefsins.

*Meðan þú, Lollíus, hefir tamið þjer mælsku í Rómi, hefi eg í Prenestsborg lesið af nýju kvæði Hómers; og sýnir Hómer betur en enir ágætustu heimspekíngar, hvað fagurt er og ljótt, og hvað nytsamlegt er og eigi nytsamlegt (1). Í Ilíonskvæði er sýnt, hvert ríkar geðshræringar leiða menn, og hverjar eru afleiðíngar þeirra (2). Í Odyssevskvæði hefir Hómer sýnt oss með dæmi Odyssevs (eða Úlixesar), hvað hyggindi fá að gjört; þar er og talað um dáðlausa menn og duglausa, og líkjumst vjer, er nú lifum, það er að segja á dögum Hórazíusar (og nú á vorum dögum) þeim mönnum í dáðleysi og dugleysi (3). Ræníngjar rísa árla úr rekkju, að þeir fái menn vegið, en vjer varðveitum oss eigi, og hyggjum eigi að efnum andar vorrar, og þó gætum vjer líkams vors, ef eitthvað er að honum, en bezt er að hyggja á speki, og draga það eigi, en byrja heldur þegar og bíða eigi við (4). Menn leita sjer fjár og auðvænlegs ráðahags, og ryðja óyrktar merkur, en það er eigi auðlegð, er græðir meinsemdir líkams eða andar, heldur er það heilsusamlegt hugarfar, er veitir manninum ánægju og yndi (5). Bezt er að sneiða hjá munaði, fjegirni, öfund og reiði, og nema það, er gott er, meðan menn eru úngir og sveigjanlegir, og fara að orðum þeirra manna, er betur vita en vjer (6).*

---

*Stólpgángamenn, kendi, að mótlætíngar þessa heims væri þeim manni ljettbærar, er spakur væri, töluðu þeir þó sumir um, að kvef og annað því um líkt gæti verið óþægilegt, og sýnist svo, sem Hórazíus hendi hjer gaman að slíkum kenníngum.*

1) *Annað brjef. Sumir ætla, að brjef þetta sje ritað ár. 21 fyr. Kristsb.; samanb. næstu skýríng hjer á eptir.*

2) *Lollíus. Sumir ætla, að Lollíus þessi sje Markus Lollíus, er var ræðismaður ár. 21 fyr. Kristsb., og þykir enum sömu mönnum þá líklegt, að brjef þetta sje ritað það ár, er Lollíus var ræðismaður; til Lollíusar þess er og eð níunda kvæði ennar fjórðu bókar harpkvæðanna. Aðrir ætla, að Lollíus sá, er brjef þetta er til, hafi verið sonur Markusar Lollíusar ræðismanns.*

1, Meðan þú, mikli[3] Lollíus, hefir tamið þjer mælsku[4] í Rómi[5], 1—2.

---

[3]) *mikli. Í latínunni stendur maximus. Þeir menn, er ætla, að brjef þetta sje til Markusar Lollíusar ræðismanns (samanb. 2. skýríng), þýða maximus, sem hjer er gjört, og ætla, að Hórazíus ávarpi Lollíus svo, af því að hann var ræðismaður; aðrir, er ætla, að brjef þetta sje til sonar Markusar Lollíusar, ætla, að maxímus sje haft hjer í merkíngunni elztur, og gjöra þeir menn þá ráð fyrir, að Markus Lollíus hafi að minsta kosti átt þrjá sonu, þótt oss sje það að öðru leyti eigi kunnugt.*

[4]) *temja sjer mælsku, á lat. declamare. Öll alþjóðleg vandamál voru hjá Rómverjum rædd á þíngum eða almennum mannfundum, og því var mælska eða málsnild eitt af því, er Rómverjar einkum stunduðu á uppvaxtarárum sínum eða framfaraárum. Af því að hjer er talað um eins konar æskumannanám, þykir sumum líklegt, að brjef þetta sje heldur til sonar Markusar Lollíusar, en til sjálfs Markusar (samanb. 2. og 3. skýríng).*

[5]) *Róm, það er en alkunna borg á Ítalalandi. Borg þessi var fyrst höfuðborg Rómverja, eða ens rómverska ríkis, í hálfa tólftu öld, frá ár. 753 (eða 752) fyr. Kristsb., og til árs. 395, eptir Kristsb., en þá skiptist ríkið; síðan, er eð vestlæga rómverska ríki leið undir lok (ár. 476), tók páfadómur smám saman að eflast, og hefir Róm síðan verið aðsetur páfa alt til vorra daga.*

*Alment er sagt, að þeir bræður, Rómulus og Remus, hafi gjört borgina ár. 753 fyr. Kristsb., eptir því sem Varró enum fróða frá segist (en vetri síðar, eða ár. 752, eptir sögn Katós ens eldra), og er jafnvel svo glögt á kveðið, að sagt er, að afmælisdagur borgarinnar hafi verið 21. dagur aprílmánaðar. Í öðru lagi er sagt, að missætti hafi upp komið meðal þeirra bræðra, Rómúlusar og Remusar, og að Rómúlus hafi látið drepa bróður sinn, og síðan, er Rómúlus var orðinn einvaldur, er sagt, að borgin hafi fengið nafn af honum, og verið kölluð Róm, á lat. Roma. En nú hefir ýmsum fræðimönnum fyrr og síðar þótt ólíklegt, að slíkt orð, sem Róma er, hafi myndazt af Rómúlus, og þykir öllu líklegra, að Rómúlus hafi myndazt af Róma. Af þeirri orsök, og ýmsum öðrum orsökum, hafa ýmsir fræðimenn því ætlað, að mikið af því, er sagt er um Rómaborg og uppruna hennar, sje eins konar tilbúníngur, og að nafnið Róma sje sama orð, sem eð gríska orð hróme: styrkur, og að borgin hafi eigi fengið þetta Rómnafn (eða styrkleiksnafn), fyrr en hún var orðin máttug mjög. Það er eitt, er þykir styrkja þessa ætlan, að þess er getið í fornum bókum, að nafni gæzlugoðs Rómaborgar, svo og enu upphaflega og eiginlega nafni borgar-*

hefi eg í Prenestsborg[6] lesið af nýju höfund[7] þann, er kveðið 2—1.

---

*innar sjálfrar, hafi leynt verið, og þykjast menn vita, að það hafi fyrir því gjört verið, að óvinir fengi eigi kvatt verndargoð eða gæzlugoð borgarinnar brott af henni, en það var trúa manna, að ef menn vissi, hvað verndargoð einhverrar borgar hjetu, svo og, hvað borgin sjálf hjet, þá fengi menn kvatt verndargoð borgarinnar brott, og þótti þá borgin sjálf auðunnari. Með því að nú eð upphaflega og eiginlega nafn borgarinnar var ókunnugt, ætla menn, að borgin hafi fengið nýtt nafn, og að það hafi verið þetta Rómnafn eða styrkleiksnafn.*

*Róm liggur nokkuru norðar en á miðri vesturströnd Ítalalands, sunnan til við 42. jarðstig norðurættar; Reykjavík á Íslandi liggur lítið eitt fyrir norðan 64. jarðstig, og liggur Róm þá nokkuru meira en 22 jarðstigum (eða 330 jarðmílum) sunnar en Reykjavík. Austurlengd Róms frá Ferrey (eða Ferreyjarbaug) er lítið meir en 30 jarðstig; Reykjavík á Íslandi liggur lítið meira en fjögur jarðstig fyrir vestan Ferrey, og liggur Róm þá nokkuru meira en 34 jarðstigum (eða 510 jarðmílum) austar en Reykjavík.*

*Róm var fyrst gjör á hæð einni sunnan til við Tífur (eða Tíberá), nær sextán þúsundum skrefa þar frá, er Tífur kemur til sjávar; síðan var bætt við sex, eða þó heldur sjö nýjum hæðum fyrir sunnan fljótið, og tveimur fyrir norðan það; í fornöld gætti þó miklu minna þess hlutar borgarinnar, er lá fyrir norðan fljótið, en á síðari tímum hefir norðurhlutinn eflzt mjög, og er höll páfa þar.*

[6]) *Prenestsborg lá í Latlandi á Ítali, í austur, og lítið eitt til suðurs, frá Rómi; borg þessi heitir nú Palestrína.*

[7]) a, *höfundur sá, er* osfrv., *það er eð mikla sagnaskáld Hómer; hann var, að því er sagt var, sonur fljótsguðsins Melesar (við Smyrnu í Lýdafylki) og jarðdísarinnar Kríteisar. Mönnum er eigi kunnugt, nær Hómer var uppi, en þó þykir sönnu næst, að hann hafi verið uppi á tíundu öld fyrir Kristsb. Eigi er mönnum heldur kunnugt, hvar Hómer var fæddur, og er þess getið, að sjö borgir eða staðir hafi í fornöld kept um virðíng þá, að mega heita fæðíngarstaður hans; þessir staðir voru: Smyrna, Ródus, Kólófon, Salamis, Kíos, Argos, Aþene, og ætla menn helzt, að Hómer hafi verið fæddur í Smyrnu, eða þá á Kíey* (Kíos).

b, *Höfuðkvæði Hómers skálds eru tvö, Ilíonskviða eða Ilíonskvæði, og Odyssevsdrápa eða Odyssevskviða. Í Ilíonskvæði er sagt frá ágreiníngi, er kom upp milli Akillesar, er var ágætastur af öllum enum grísku hetjum, og Agamemnons, er var yfirhershöfðíngi Grikkja. Ágreiníngur þessi olli því, að umsát borgarinnar drógst lengur, en ella mundi orðið hafa. Síðar í*

*kvæðinu segir frá, að Patróklus, vinur Akillesar, fjell; feldi Akilles þá Hektor, er var elztur af sonum Príamuss konúngs, og mest og bezt hafði varið borgina; veitti Grikkjum nú hægara að ná borginni, og fengu þeir tekið hana eptir tíu vetra umsát (ár. 1184; samanb. næstu skýr. hjer á eptir).*

c, *Í Odyssevsdrápu segir frá hrakníngum Odyssevs eða Úlixesar, Íþökukonúngs; þar segir frá því, að þá er Trója var unnin, hvarf Odyssevs aptur heim á leið; kom hann þá fyrst til Kíkónabygðar í Þraklandi, og braut borg þeirra Ismarus; síðan hraktist hann til lands Lótetanda (eða Lótófaga) á norðurströnd Áfraálfu (eða Suðurálfunnar); þaðan kom hann til Hríngeyginga (eða Kýklópa) á Sikiley; þaðan kom hann til Eólseyja vindaguðs; þær eyjar liggja fyrir norðan austurhlut Sikileyjar, og eru nú kallaðar Lípareyjar af þeirri eynni, er stærst er, og Líparey heitir. Eólus vindaguð gaf Odyssevs belg af níu vetra gömlu nauti; í belgnum voru allir vindar inni byrgðir, nema vestanvindurinn; sá vindur bar Odyssevs í níu daga og níu nætur austur á leið í átthaga hans, og sá hann ættey sína á tíunda degi; seig þá yfir hann sætur svefnhöfgi, því að hann var að þreyttur; en meðan leystu sveitúngar hans frá belgnum, og ætluðu þeir, að í belgnum væri gull og gersimar; ruddust þá út vindarnir, og nú hraktist Odyssevs aptur til Eólseyja. Eólus var þá styggur í viðmóti, því að hann þóttist sjá, að reiði guðanna lægi þúngt á Odyssevs, og vísaði Eólus honum því þegar á braut. — Nú sigldu þeir Odyssevs í sex daga og sex nætur, og komu á sjöunda degi til lands Lestrýgóna, en það ætla menn verið hafa sunnarlega í Latlandi enu nýja, þar er síðar var Formíaborg; hjá Lestrýgónum ljet Odyssevs marga menn. Nú sigldu þeir Odyssevs lengra fram, og komu til eyjar Kirku, þar nær er skiptist Latland eð forna og Latland eð nýja. Þá er Odyssevs hafði dvalizt einn vetur hjá Kirku, tók hann heim að fýsa, en Kirka segir, að honum byrji áður að fara til Ósýnisheima (eða Adesheima eða undirheima), og leita frjetta hjá enum þebverska spámanni Tíresías Everessyni. Odyssevs, og þeir sveitúngar hans sigldu nú frá ey Kirku, unz þeir komu til endimarka Jarðarstraums; þar bjuggu Kimmeríar; þeir voru huldir þoku og dimmu, og aldri lítur enn bjarti sólguð þá, hvorki þá er hann stígur upp á enn stirnda himin, nje þá er hann hverfir sjer af himni aptur til jarðar niður; svo búa þeir utarlega og neðarlega. Odyssevs fórnaði við Jarðarstraum, þar er Kirka hafði honum til vísað; komu þá andir dáinna manna þar að, og spurðist hann fyrst fyrir hjá Tíresías spámanni; síðan hafði hann tal af mörgum öðrum öndum dáinna manna. — Nú hverfa þeir Odyssevs aptur til Kirku. Þaðan fara þeir brátt aptur, og komast fram hjá Sír-*

hefir um styrjöldina við Tróju[8]; segir hann glöggvara og betur, 4—1.

*enum, er hjer er skömmu síðar um talað (í 23. vísuorði); svo og Reikhömrum, og óvættunum Karybdis og Skyllu, en Skylla þreif þó sex af sveitúngum hans og át þá. Nú lögðu þeir Odyssevs að landi við Þríhöfðu (eða Trínakríu), en svo var Sikiley kölluð af þrem höfðum, er á henni eru; þar tóku menn Odyssevs nokkur af nautum Helíusar sólguðs, og slátruðu þeim sjer til matar. Sólguðinn Helíus varð nú svo reiður, að hann vildi eigi lýsa lengur á himnum; Sevs (eða Júppíter) uppheimaguð bað hann lýsa guðum og mönnum, sem hann hafði áður gjört, en kvaðst sjálfur mundu ljósta eð fljóta skip Odyssevsmanna með björtu reiðarslagi, og mola það í smátt á enu dökkleita hafi. Nú lögðu þeir Odyssevs frá landi, en er þeir voru komnir úr landsýn, kom á ofsaveður með þrumum; skipið fórst, og skipverjar allir týndust, nema Odyssevs, hann rakst á kjölnum og siglutrjenu til þeirra Karybdisar og Skyllu; síðan barst hann þaðan aptur, og hraktist í níu daga, en komst á tíundu nóttu til Ógýgseyjar, en það er ætlan manna, að sú ey hafi verið ein af eyjum þeim, er liggja við Maltey fyrir sunnan Sikiley. Odyssevs dvaldist sjö vetur hjá Kalypsó; síðan fór hann þaðan á trjáflota einum, er hann gjörði sjer, og komst á átjánda degi í landsýn við Feakaland (eða Skerju), er lá fyrir vestan Norðurgrikkland. Nú verður Póseidon sjávarguð varr við siglíng Odyssevs, en hann var reiður Odyssevs, af því að Odyssevs hafði blindað son hans, Pólýfemus hríngeygíng á Sikiley. Neptúnus brýtur flota Odyssevs í spón; Odyssevs kemst þó í land á sundi. Alkínóus Feakakonúngur tók Odyssevs vel, og ljet flytja hann til ætteyjar sinnar Íþöku. Þar sótti Odyssevs svo að, að biðlar, er vildu eiga Penelópu konu hans, gjörðu mikinn usla á heimili hans, og drap Odyssevs þá.*

d, *Báðum þessum kvæðum, Ilíonskviðu og Odyssevsdrápu, hefir þjóðsnillíngur vor, Sveinbjörn Egilsson, snúið á íslenzka túngu í óbundinni ræðu; síðan íslenzkaði hann mestan hlut Odyssevsdrápu (eða Odyssevskviðu) í bundinni ræðu, en sonur hans, Benedikt skáld Gröndal enn ýngri, hefir lokið því, er faðir hans átti eptir af þýðíngu þeirri, þá er dauðinn kvaddi hann hjeðan. Benedikt Gröndal enn ýngri hefir og snúið Ilíonskviðu (eða Ilíonskvæði) á íslenzku í bundinni ræðu, og er helmíngur þeirrar þýðíngar, eða tólf enar fyrri bækurnar, þegar prentaður.*

e, *Að endíngu getum vjer þess, að sumir segja, að Hómer hafi verið blindur, en kvæði hans þykja þó með sjer bera, að hann hafi einhvern tíma verið sjáandi.*

[8]) a, *Trója (eða Trójuborg, eða Tróaborg, eða Trósborg), þ. e. en alkunna borg Trójumanna.*

---

b, *Asíu enni minni (eða Áslandi, eða Áslandsskaga) var skipt í fimtán höfuðfylki, sem síðar er sagt (samanb. þriðja brjef bókar þessar, 10. skýr.), og gekk Mýsafylki lengst í vestur, vestur undir Grikklandshaf og Helluhaf. Takmörk landsins voru efri hlutur Helluhafs og Marmarahaf að norðan, Biþýnafylki og Frýgafylki að austan, Lýdafylki og Adramyttsvík að sunnan, og Grikklandshaf og neðri hlutur Helluhafs að vestan. Mýsafylki var skipt í fimm höfuðhluti, er svo voru kallaðir, — 1) Mýsahjerað eð minna; það lá norðast, norður undir Marmarahafi, og með fram því að sunnanverðu, og gekk alllángt niður með Helluhafi (niður til Abýdusar); — 2) Mýsahjerað eð meira; það náði yfir miðhlut landsins suður á við, og náði til sjávar við Adramyttsvík; — 3) Tróahjerað* (Troas); *það lá vestast með fram Grikklandshafi, og neðsta hlut Helluhafs, milli Lektshöfða og Abýdusar; — 4) Eólahjerað; það lá á suðurhlut vesturstrandarinnar, og var bygð Eóla mest milli Kaiksfljóts og Hermusfljóts; — 5) Tevþrantshjerað; það var landsuðurhlutur landsins, og lá fyrir neðan (eða vestan og sunnan) Temnusfjall.*

c, *Í fornum sögum er getið manns þess, er Tevser hjet; hann var sonur fljótsguðsins Skamanders og jarðdísarinnar Ídeu. Tevser átti löndum að ráða, þar er síðar var Tróahjerað, og er mælt, að hann hafi þar fyrstur manna konúngur verið.*

d, *Í fornum sögum er og getið konúngs þess, er Dardanus hjet; hann var sonur Júppíters uppheimaguðs og Elektru Atlantsdóttur jötuns. Dardanus var fyrst konúngur í Arkadafylki á Pelopsey; síðan fór hann austur um haf, og dvaldist um hríð á Þrakasamey (eða Samóþrasíu), er lá í landnorðurhlut Grikklandshafs. Frá Þrakasamey fór Dardanus síðan austur til Áslands, og fjekk hjá Tevser konúngi landskika nokkurn, er lá við neðra hlut Helluhafs (eða Dardanellasunds). Þar settist Dardanus að, og ljet þar gjöra borg þá, er kend var við sjálfan hann, og kölluð Dardansborg (á gr.* Δαρδανία*); menn hans voru og kallaðir Dardanar (á lat.* Dardani), *og landið Dardansland eða Dardanaland (á lat.* Dardanía).

e, *Enn er þess getið, að Tevser konúngur hafði gefið Dardanusi konúngi dóttur sína, þá er Bateia hjet, og áttu þau Tevser og Bateia tvo sonu, Ílus og Erikþóníus. Ílus dó barnlauss, en Erikþóníus átti dóttur Símóents fljótsguðs, þá er Astýóka hjet. Sonur þeirra Erikþóníuss og Astýóku hjet Trór; hann fekk konu þeirrar, er Kallíhróa hjet, og áttu þau Trór og Kallíhróa fjögur börn, eina dóttur og þrjá sonu; hjet dóttir þeirra Kleópatra, en synir þeirra hjetu Ílus, Assarakus og Ganýmedes. Af nafni Trós konúngs var landið kallað Trósland (á gr.* Τροία*), en landsmenn voru kallaðir Tróar (á gr.* Τρῶες*).*

---

f, *Ílus Tróson varð konúngur eptir föður sinn í Tróslandi, og ljet hann þar gjöra borg eina, er við hann var kend, og kölluð Ílusborg (á gr.* Ἴλιος *og* Ἴλιον*); borg þessi fekk og síðar eð sama nafn, sem landið hafði, og var kölluð* T r o i a *á grísku (og* T r o j a *á latínu), og er þar af komið nafnið Trója (og Trójuborg) hjá oss; en er Grikkir tóku að hafa eð upphaflega landsnafn* T r o i a *um borgina, breyttist mynd landsnafnsins, og kölluðu þeir nú landið Tróas.*

g, *Menn þykjast vita, að en forna Ílusborg (eða Trósborg, eða Trója) hafi gjör verið neðan til í hallandanum vestan í Ídufjalli; borg þessa eyddu Grikkir við lok ennar nafnkendu Trójumannastyrjaldar fyrra hlut tólftu aldar fyr. Kristsb., eða, eptir því sem sumum reiknast, ár. 1184. — Síðar reistu eólskir nýlendumenn borgina við aptur, og ætla sumir, að sú borg, er þeir gjörðu, hafi verið nokkuru neðar (eða vestar), en en forna borg var. Sú borg, er Eólar gjörðu, er vanalega kölluð Ílusborg en forna* (Ilium vetus). *Eptir daga Alexanders mikla, er dó á síðara hlut fjórðu aldar fyr. Kristsb. (ár. 323), hófst ný borg nokkuru neðar, en en forna Ílusborg var, í útnorður frá enni fornu borg; borg þessi stóð nær samfalli Skamanderfljóts og Símóentsfljóts, og var kölluð Ílusborg en nýja* (Ilium novum).

h, *Enn er þess að geta, að borg sú, er Dardanus konúngur hafði gjöra látið í ríki sínu, eyddist eptir hans daga; var síðan gjör önnur borg, nokkuð þar frá, er en fyrri borg var; þessi en nýja borg var og kölluð Dardansborg; hún stóð austan til við neðra hlut Helluhafs, sjau tigu skeiðrúma, eða nokkuru minna en tvær jarðmílur, í suður frá Abýdus. Þar nær, er Dardansborg þessi stóð fyrrum, ljet Múhameð annarr Tyrkjakeisari gjöra kastala tvo, eptir það er hann hafði tekið Mikla Garð (ár. 1453); voru kastalar þessir gjörvir sinn hvorum megin við sundið, annarr norðurálfu megin, en hinn austuralfu megin, og eru 750 faðmar millum þeirra. Á dögum Múhameðs ens fjórða, er sat að völdum á fyrra hlut ennar síðari helftar sjautjándu aldar (frá ár. 1648 til árs. 1687), voru gjörvir tveir aðrir stöplar, tveim mílum sunnar eða neðar en enir fyrri stöplarnir. Þessir enir síðari stöplar voru og gjörvir sinn hvorum megin við hafið, og standa þeir þar, er fyrst er lagt inn til Helluhafs eða Hellusunds, og eru tvær þúsundir faðma millum þeirra. Þessir fjórir stöplar hafa gjörvir verið til að verja sundið fyrir skipum þeim, er Tyrkir hafa eigi viljað láta þar inn fara; hafa stöplar þessir fengið nafn sitt af Dardansborg, og eru kallaðir Dardanellar (á fr.* Les Dardanelles), *og af köstulunum eða stöplunum hefir sundið aptur fengið nýtt nafn, og er nú venjulega kallað Dardanellasund.*

en þeir Krýsippus[9] og Krantor[10], hvað fagurt er og ljótt, og hvað nytsamlegt er og eigi nytsamlegt. Ef þú ert eigi við annað bundinn, þá taktu eptir, hví eg hefi komizt á þessa ætlan.

2, Saga[11] sú, er segir frá því, að Grikkland[12] hafi lent í 4—7.

---

[9]) *Krýsippus var einn af heimspekíngaflokki Stólpgángamanna (eða Stóumanna); hann ritaði margt um kenníng þeirra og þótti góður rithöfundur. Hann var frá Sólum* (Soloi) *í Austkilikafylki á austurhlut suðurstrandar Áslands; hann dó á enni 143. ólympsku áradeild, og hafði þá þrjá um sjautugt, og hefir hann þá verið fæddur nær 280 vetrum fyr. Kristsb.*

[10]) *Krantor var einn af heimspekíngaflokki Akademínga; hann var frá Sólum, sem Krýsippus (samanb. næstu skýr. hjer á undan); hann var uppi á öndverðri enni þriðju öld fyrir Kristsb.*

[11]) *Saga sú, er* osfrv., *það er Ilíonskviða (eða Ilíonskvæði); samanb. 7. skýr. hjer á undan, 5-liðinn.*

[12]) *Grikkland, þ. e. land ennar fornu alkunnu höfuðþjóðar, Grikkja. Grikkir bygðu í fornöld skaga þann, er austastur er af enum þremur skögum, er lengst gánga í suður fram af norðurálfunni; hinir tveir skagarnir eru Ítalaskagi og Spánarskagi. Saga Grikkja er mjög gömul; hún nær, að menn ætla, jafnvel upp að nítjándu öld fyrir Kristsburð. Á tólftu öld var styrjöld sú, er hjer er um talað, og Grikkir áttu við Trójumenn. Á fimtu öld fyr. Kristsb. stóð hagur Grikkja með mestum blóma. Á fjórðu öld urðu þeir háðir Masedónakonúngum (eptir bardagann við Köróneu í Boiótafylki, ár. 338 fyr. Kristsb.). Á annarri öld fyr. Kristsb. komust Masedónar og Grikkir undir Rómverja (eptir orrustur þær, er áttar voru við Pyðnu og Korintuborg, árin 168 og 146). Þá er eð rómverska ríki deildist (ár. 395 ept. Kristsb.), fylgdi Grikkland enni eystri deildinni, og varð svo einn hlutur ens austlæga rómverska ríkis (eða ens gríska keisaradæmis). Síðan komst Grikkland undir Tyrki, þá er þeir unnu MiklaGarð (ár. 1453), og var síðan undir ánauð þeirra, unz en nafnkenda gríska frelsisstyrjöld hófst ár. 1821. Styrjöld þessi stóð átta vetur, og var ár. 1829 friður gjörr í Hadríansborg. Að fornu fari hafði Grikklandi sjálfu verið skipt í þrjá höfuðhluti, Norðurgrikkland (eða Epírus og Þessalafylki), Miðgrikkland (eða Hellafylki), og Suðurgrikkland (eða Pelopsey). Við friðinn í Hadríansborg og síðari samnínga var svo á kveðið, að Artavík (eða Ambrakíuvík) skyldi vera norðurtakmark Grikklands að vestanverðu, en Vólovík (eða Pagasavík) að austanverðu, eða með öðrum orðum, norðurtakmörk Grikklands urðu nú að vestanverðu en sömu, sem þau, er áður höfðu verið vestan megin milli Miðgrikklands ag Norðurgrikklands, en að austanverðu náði Grikkland nú lítið eitt*

lángvinnri styrjöld við útlendínga[13] sakir ástar Parísar[14], hermir 7—8.

---

*lengra norður, en Miðgrikkland hafði áður náð, því að það hafði að eins náð að Seitúnarvík (eða Malíavík), en hún liggur lítið eitt sunnar (og vestar) en Vólovík.*

13) *útlendíngar þeir, er hjer er um talað, eru Trójumenn.*

14) *París var sonur Príamuss Trójumannakonúngs og Hekúbu, drottníngar hans. Skömmu áður, en París fæddist, dreymdi Hekúbu draum; hún þóttist fætt hafa loganda eldibrand, og þótti henni sem eld legði af brandinum um alla borgina, og brendi hana; var draumurinn svo þýddur, að barn það, er Hekúba gekk með, mundi verða tortíming borgarinnar. Nú varð Hekúba ljettari, og ól sveinbarn; það var út borið, og lagt á Ídufjall, er lá í austur og landsuður frá Tróju. Þar nærði birna barnið í fimm daga; síðan fann hjarðmaður einn sveininn, tók hann, fór með hann heim til sín, og ól hann upp, sem hann væri sjalfs hans sonur, og kallaði hann París. Þá er París óx upp, þótti hann bera af flestum úngum mönnum fyrir afls sakir og fegurðar; varði hann hjarðmenn vel fyrir stigamönnum, og var hann fyrir þá sök kallaður Alexandros eða Alexander (en það er mannvörður á vora túngu), og var hann enn fyrsti maður í heimi, er það nafn hafði.*

*En nú er þess getið, að þau Pelevs Eaksson og Þetis Nerevsdóttir áttu brullaup sitt; var þar til boðið öllum gyðjum, nema þrætugyðjunni Eris; kastaði hún þá gullepli inn í brullaupssalinn, og var ritað á eplið: hafi sú, er fegurst er. Öllum kom saman um, að Júnó, Venus og Mínerva væri fegurstar af gyðjunum, en nú var eptir að vita, hver þeirra fegurst væri. Er þá mælt, að Júppíter uppheimaguð hafi látið Merkúríus sendigoð fara með gyðjurnar til Parísar, er þá var á Ídufjalli, og boðið Merkúríusi, að láta París dæma milli gyðjanna. Hjet Júnó París miklu ríki og auðlegð, ef hann dæmdi sjer eplið, en Mínerva hjet honum vizku, ef hann dæmdi sjer það, en Venus hjet honum enni fegurstu konu, er á jörðu væri, ef dómurinn yrði sjer hagfeldur. París dæmdi Venusi eplið.*

*Nú er frá því að segja, að Helena Júppítersdóttir var en fegursta kona, er í þann tíð var í heimi; hún var kona Menelausar Spartverjakonúngs á Pelopsey. Fór París nú til Spörtu, að tilvísun Venusar, en er hann kom þángað, segja sumir, að Menelaus hafi eigi heima verið, en verið farinn austur til Kríteyjar að eyrendum sínum. París fekk góðar viðtökur í Spörtu, og lyktaði svo vera hans þar, að hann hafði Helenu á brott með sjer, og fór með hana til föður síns í Tróju. Af þessu hófst en alkunna styrjöld milli Trójumanna og Grikkja. Hórazíus getur þess þegar hjer á eptir, að Antenor Esýetesson hafi það til lagt, að Helenu skyldi aptur skila, en að París hafi eigi viljað þekkjast það.*

frá ofsa og ákafa óviturra konúnga og þjóða[15]. Antenor[16] leggur það til, að orsök styrjaldarinnar sje brott numin. Hvað gjörir París? Hann segir, að sjer verði eigi þröngvað til að sitja heill að ríkjum, og lifa sælu lífi. Nestor[17] leggur kapp 8—12.

---

[15]) *óvitrir konúngar og þjóðir. Hórazíus talar hjer um óviturleik Grikkja og Tróa, og hefir honum eflaust sýnzt rjettara, að ágreiníngur sá, er var milli þjóða þessa, hefði verið jafnaður með góðu, heldur en að halda honum svo til streitu, sem gjört var.*

[16]) *Antenor var einn af enum fornu Tróum; hann var sonur Esýetesar nokkurs, er Hómer um getur. Móðir Antenors hjet Kleómestra, en kona hans var Þeanó, dóttir Kissevs þess, er sumir segja verið hafa föður Hekúbu Tróadrottningar. Áður en Trójustyrjöld hófst, er þess getið, að þeir Menelaus Spartverjakonúngur, maður Helenu, og Odyssevs, konúngur Íþakseyjarmanna, komu til Tróju, og skyldu þeir fara þess á leit við Trójumenn, að þeir skilaði aptur Helenu, og gistu þeir þá hjá Antenor. Þá er styrjöldin hófst, var Antenor svo gamall, að hann mátti eigi fyrir aldurs sakir í bardaga gánga, en hann átti allmarga sonu, er í styrjöldinni voru. Á þíngum þótti Antenor koma vel fram, og er þess getið, að hann hafi verið vitur maður. Hjer er þess getið, sem víðar, að hann hafi ráðið að skila aptur Helenu, og getur Hómer þess í Ilíonskviðu (7. þætti), að hann hafi þar fyrir sætt átölum af hendi Parísar. Þá er Trója var niður brotin, er sagt, að Grikkir hafi eirt tveim Tróum, Eneasi Ankísessyni og Antenor þessum; er mælt, að Grikkir hafi það gjört, af því að þeir Eneas og Antenor höfðu verið í fornum kunníngskap við Grikki, og jafnan verið þess hvetjandi, að Helenu væri aptur skilað. Báðir þeir, Eneas og Antenor, komust síðan vestur til Ítalalands, Eneas til miðhluts vesturstrandarinnar, og varð hann þar ættfaðir Rómverja; um Antenor er sagt, að hann hafi haldið vestur um haf með ættflokk einn, er Henetar voru kallaðir, og ættaðir voru austan af Paflagóni; Antenor kom að landi ofarlega í Hadríuflóa, að vestanverðu við flóann; þar gjörði hann borg þá, er hann kallaði Patavi (á lat.* Patavium), *en nú er borgin kölluð Padúa. Borg þessi liggur í Venedigarfylki, en það fylki hefir nafn sitt af höfuðborg fylkisins Venedig, en Venedig hefir aptur fengið nafn sitt af Henetar.*

[17]) *Nestor þessi var sonur Nelevs Poseidonssonar hafguðs, og Klóríðar Amfíonsdóttur; hann var að sumra ætlan konúngur í Miðpýlus á Pelopsey.*

*Á ýngri árum sínum var Nestor með Lapítum, þá er þeir áttu við Sentára. Hann er og nefndur með þeim mönnum, er*

á að sefa deilurnar milli þeirra Pelevssonar[18] og Atrevs-
12.

*voru við veiði þá, er veiddur var villigölturinn við Kalýdon. Síðar fór Nestor með Grikkjum til Trójuborgar, og var hann elztur allra enna grísku höfðíngja, er í þeirri för voru; höfðu þá, segir Hómer skáld, liðið yfir hann tveir mannsaldrar máli gæddra manna, þeirra er fyrr meir höfðu fæðzt og upp alizt með honum í enni allhelgu Pýlusborg, en þá ríkti hann með enum þriðju mönnum; hefir Nestor þá, ef mannsaldur er talinn vera þriðjúngur aldar (eða þrír vetur ens fjórða tigar og þriðjúngur vetrar), sem menn ætla að hjer skuli gjöra, verið sjautugur eða því nær. Nestor var einkar vel máli farinn, og er svo að orði komizt í fornum frásögnum, að mál hafi runnið af túngu hans, það er hunángi var sætara. Þá er sundurþykki kom upp milli þeirra Agamemnons og Akillesar, leitaði Nestor við að miðla málum og sætta þá; síðan, er Grikkir höfðu brotið Trójuborg, komst Nestor klaklaust heim aptur til Pýlusborgar, og lifði þar enn nokkura hríð í góðri elli.*

*Enn er þess að geta, að Nestor átti, auk annarra barna, son þann, er Antílokus hjet, og fjell sá sonur Nestors við Tróju.*

[18]) *Pelevsson, þ. e. en nafnkenda gríska hetja Akilles. Hann var sonur Pelevs Eakssonar, konúngs í Þvíu, og Petíðar Nerevsdóttur sægyðju. Þá er Akilles var nýfæddur, leitaði móðir hans við að gjöra hann ódauðlegan, og lagði hann því í eld um nætur, að hún fengi af honum brott numið allt það, er dauðlegt var, en um daga smurði hún hann með ódáinssmyrslum* (ἀμβροσία); *kom þá Pelevs eitt sinn að henni, og sá barnið sprikla í eldinum; varð honum þá hverft við og kallaði upp. En er Petíður sá, að hún mátti eigi fyrirætlan sinni fram koma, fór hún brott til Nerevsdætra, systra sinna; en Pelevs tók sveininn og fekk hann Keironi Kronussyni til uppfósturs. Aðrir segja, að Petíður hafi dýft Akillesi í Stýgá, svo að ekki vopn mætti á hann bíta, og mátti hann því hvergi sárr verða, nema á öðrum hæli, því að hún hjelt um hæl hans, og gat hann því eigi vöknað. Spámaðurinn Kalkas hafði fyrir sagt, að Trójuborg mætti eigi unnin verða án fulltíngs Akillesar; en með því að móðir hans vissi fyrir, að hann mundi falla, ef hann færi til Trójuborgar, klæddi hún hann kvennbúníngi og sendi hann til Lýkómedesar, konúngs á Skýrey, en ey sú lá í Grikklandshafi, austur undan norðurhlut Evboiu; þar var Akilles í kvennbúníngi með dætrum Lýkómedesar, og duldist þar svo, þar til er Úlixes fann hann með brögðum. Úlixes kom til Skýreyjar, og hafði með sjer ýmsan varníng, einkum kvennglíngur, en þó og nokkuð af vopnum. Úlixes kom með varníng sinn til húss þess, er konúngsdætur voru í, og sýndi þeim varnínginn; gáfu þá konúngsdætur sig allar að kvennglíngrinu, en Akilles þreif til vopnanna, og kendi Úlixes hann þar á. Fór Akilles nú til*

*Trójuborgar, og gekk ágætlega fram, en er Grikkir höfðu setið um borgina meira en níu vetur, hófst missætti með þeim Agamemnoni, yfirkonúngi Grikkja, og Akillesi. Grikkir höfðu hernumið konu þá, er Astýnóma hjet; hún var dóttir Krýsesar, hofgoða Apollós, og hafði verið gefin Agamemnoni til virðíngar við hann. Kom þá faðir hennar með mikið lausnargjald og beiddist að mega út leysa dóttur sína, en Agamemnon vildi hana eigi af hendi selja, og vísaði Krýsesi á braut með hörðum orðum; hvarf Krýses þá aptur við svo búið og bað Apolló fulltíngs, en Apolló skaut þá örum sínum í níu daga á lið Grikkja, og fjellu margir fyrir. Þá stefndi Akilles þíng, og leitaði ráðs um, hve skirra skyldi vandræðum þessum, og rjeð þá spámaðurinn Kalkas, að aptur skyldi skila dóttur Krýsesar. Varð nú Agamemnon ákafa reiður Akillesi, og hótaði að taka frá honum fagra konu, er Hippódameia hjet og var Brísevsdóttir; höfðu Grikkir gefið Akillesi hana til virðíngar við hann, og unni hann henni mjög; reis nú af þessu mikil deila milli Agamemnons og Akillesar, og freistaði Nestor að sætta þá með fortölum sínum. Lauk þessu máli svo, að Agamemnon sendi dóttur Krýsesar heim aptur, en tók Hippódameiu ena fögru Brísevsdóttur frá Akillesi. Sat þá Akilles með liðsmönnum sínum reiður hjá skipum Grikkja og vildi eigi í bardaga gánga. Báru þá Grikkir lægra hlut, og gjörðu Trójumenn árásir á herbúðir þeirra og lögðu eld í skip þeirra. Fór þá Patróklus, vinur Akillesar, móti Trójumönnum og rak þá frá skipunum, en fjell því næst fyrir Hektori Príamssyni. Mátti þá Akilles eigi láta vinar síns óhefnt vera; fór hann móti Hektori og feldi hann, og dró lík hans eptir vagni sínum til tjalds síns. Kom þá Príamus konúngur um nótt til herbúða Grikkja og bað um lík sonar síns, og seldi Akilles honum það. Um dauða Akillesar eru ýmsar sagnir, og segja sumir svo frá, að hann hafi felt ástarhug til Polyxenu Príamsdóttur, og hafi ætlað að gjöra sáttmál við Trójumenn, og hafi í því skyni komið til Apollósmusteris, og hafi þá París skotið hann í hælinn; en aðrir segja, að Apolló hafi sjálfur skotið hann.*

*Meðan Akilles var á Skýrey hjá Lýkomedes konúngi, hafði hann átt vingott við dóttur konúngs, Deidamíu, og eignuðust þau son einn, er Pyrrus var kallaður. Pyrrus þessi var og Neoptólemus kallaður, og er það orð myndað af* νέος (neos) *í merkíngunni úngur, og* πτόλεμος (þ. e. ptolemos), *sama sem* πόλεμος (þ. e. polemos): *hernaður, og þykir líklegt, að Pyrrus hafi svo verið kallaður, af því að hann var á úngum aldri, þá er hann fór í hernaðinn við Tróju; þó ætla sumir, að Pyrrus hafi svo verið kallaður, af því að Akilles, faðir hans, var úngur, þá er hann fór í hernaðinn, og svo segir enn gríski fræðimaður Pásanías (í Lýsíngu Grikklands, 10. þætti, 26. kap.), að orðið sje tekið í Kýpreyjarmálum* (τὰ Κύπρια ἔπη).

sonar[19]; brennir ástin annan þeirra[20], en reiðin brennir báða þá 12—13.

---

*Akilles þessi er maður sá, er eð ágæta þjóðskáld vort, Bjarni Thórarensen, nefnir í kvæðum sínum (49. bls.), þar er svo segir: Akilles gráta Grikklandseyjar.*

*Að endíngu getum vjer þess hjer, að allíklegt þykir, að Akilles (á gr.* Ἀχιλλεύς) *sje sama orð (og nafn), sem eð norræna (eða íslenzka) orð Egill, er í fornmáli voru hefir í veitifalli* (dativus) *Agli (en eptir nýjara málinu: Egli).*

19) *Atrevsson, þ. e. enn nafnkendi gríski herkonúngur Agamemnon. Hann var sonur Atrevs Pelopssonar, og var konúngur í Mýsenuborg í Argverjafylki (á Pelopsey). Kona hans hjet Klýtemnestra; hún var dóttir Tyndareuss Spartverjakonúngs; en systkin hennar (eða hálfsystkin) voru þau Kastor, Pollúx og Helena, kona Menelausar, bróður Agamemnons. Þá er París, sonur Príamuss konúngs í Trójuborg, hafði brott numið Helenu ena fögru, konu Menelausar, konúngs í Spörtuborg, þá söfnuðu þeir bræður, Agamemnon og Menelaus, liði um alt Grikkland, að þeir fengi Helenu aptur náð, og voru þessir ágætastir höfðíngjar, er til þeirrar ferðar rjeðust með þeim bræðrum: Díómedes og Stenelus frá Argverjaborg, Nestor frá Miðpýlus, Idómenevs og Meríónes frá Krít, Ajax (eða Ajant) og Tevser frá Salamis, Ajax Oilevsson frá Austlókrafylki, Akilles og Patróklus frá Þvíu í Þessalalandi, og Úlixes frá Íþöku. En er allur herrinn var saman kominn í hafnborginni Ális í Boiótafylki við Evboiusund, fengu Grikkir eigi byr. Var þá spámaðurinn Kalkas spurður, hví það sætti, og svaraði hann, að Agamemnon hefði móðgað veiðigyðjuna Díónu, með því að hann hafði skotið hind nokkura, er hún átti; sagði Kalkas, að Agamemnon yrði að fórna gyðjunni Ífígeníu, dóttur sinni, til að blíðka gyðjuna. Voru þeir þá sendir að sækja Ífígeníu, Úlixes og Díómedes, og er þeir komu með hana og Agamemnon ætlaði að fórna henni, kendi Díana í brjósti um hana, ljet hind í stað hennar, en brá myrkva yfir sjálfa hana, og flutti hana síðan í loptinu til Tárlands, og gjörði hana þar að hofgyðju sinni. Því næst rann á byr, og sigldu Grikkir þá til Trójuborgar og settust um hana, en fengu eigi brotið hana, því að borgarmenn vörðust með enum mesta drengskap, en er Grikkir höfðu setið um borgina meira en níu vetur, hófst missætti með þeim Akillesi og Agamemnoni, svo sem sagt er í næstu skýríngu hjer að framan. Síðan, þá er Akilles hafði felt Hektor Príamusson, er bezt varði borgina, og borgin var unnin, hvarf Agamemnon aptur heim á leið, en meðan hann hafði á braut verið, hafði Egispus frændi hans, Þýestesson, komizt í kunníngskap við konu hans Klýtemnestru, og átti vingott við hana, og nú er Agamemnon kom heim aptur til Mýsenuborgar, drápu þau hann, Klýtemnestra og Egispus, og ferr ýmsum sögum um það, með hverjum atburðum það varð.*

20) *annarr þeirra. Í latínunni stendur hic, og þykjast*

samt. Allar ávirðíngar konúnganna[21] koma niður á Akeum[22], og fyrir innan og utan múra Ílusborgar[23] verður mönnum á, með því að þeir gánga í flokka hverr móti öðrum, beita vjelum, drýgja glæpi, fara eptir girndum sínum, og láta reiðina við sig ráða.

3, Í öðru lagi hefir enn sami höfundur sýnt oss nytsamlegt dæmi, þar er Úlixes[24] er, og bent oss með því á, hvað mann-

13—17.

---

*menn vita, að það eigi við Atrevsson eða Agamemnon; af frásögninni hjá Hómer (í Ilíonskviðu, 1. þætti) er svo að sjá, sem ástin hafi brent báða þá, Agamemnon og Akilles.*

[21]) *konúngar, á gr. βασιλέες, βασιλῆες og βασιλεῖς. Svo kallar Hómer venjulega höfðíngja Grikkja eða fyrirliða, hvort sem þeir hafa konúngdóm á hendi eða eigi, og hefir Hórazíus hjer líklega einkum í huga þá Agamemnon og Akilles, en Agamemnon var konúngur í Mýsenuborg í Argverjafylki, sem áður er sagt (í 19. skýríngu), en Akilles var konúngsson frá Þvíu í Þessalafylki, og hafði eigi konúngdóm á hendi, því að faðir hans var enn á lífi, og hafði eigi niður lagt konúngsstjórn.*

[22]) *Akear er hjer sama sem Grikkir, en upphaflega og eiginlega voru Akear ein af enum grísku þjóðdeildum, og er þeirra einkum getið í Þessalafylki í Norðurgrikklandi, og á Pelopsey (eða í Suðurgrikklandi).*

[23]) *Ílusborg, sama sem Trójuborg eða Trója; samanb. sjettu skýríng hjer að framan.*

[24]) *Úlixes (á gr. Odyssevs) var sonur Laertesar Akrisíussonar. Úlixes var konúngur á Íþöku, er nú er kölluð Þeakí, og er ey sú ein af eyjum Íónahafs. Hann var einn af enum grísku höfðíngjum, er voru með í herferðinni til Tróju, og er hann einkum nafnkendur orðinn fyrir kænsku sína og hyggindi. Þá er Trója var unnin, hvarf Úlixes aptur heim á leið, en lenti þá í miklum og löngum hrakníngum, og komst loks heim eptir tíu vetur; hafði hann þá verið 20 vetur að heiman, því að umsát Trójuborgar stóð og tíu vetur. Um þessa hrakrnínga Úlixesar (eða Odyssevs) og ferðalag er annað af höfuðkvæðum Hómers skálds, Odyssevsdrápa eða Odyssevskviða, er hjer er áður um getið; samanb. sjaundu skýríng, c-liðinn.*

*Úlixes er sama orð, sem eð gríska orð Odyssevs, og hefir þá eð gríska orð breyzt svo í latínunni, að O hefir orðið að U eða Ú, d að l, y að i, ss að x, og evs að es.*

*Kona Úlixesar hjet Penelópa, og hjet son þeirra Telemakus; um bæði þau, Penelópu og Telemakus, er hjer síðar talað, Penelópu í 29. skýríngu við brjef þetta, en Telemakus í skýríngu við 40. vísuorð ens sjaunda brjefs bókar þessar.*

dáð og speki fær að gjört. Úlixes[25] vann Tróju, og kynti sjer síðan með miklum viturleik borgir margra manna og siðu þeirra; hlaut hann að þola margar mannraunir á leið sinni um eð víða haf, er hann leitaði sjer og förunautum sínum heimfarar, en ljet þó eigi drekkjast í andstæðilegum öldum mótlætínga. Þú[26] kennir raddir Sírena[27]; þú kennir og staup Kirku[28]. 17—23.

[25]) *Úlixes vann Tróju* osfrv. *Hjer þykir sjá mega, að Hórazíus hafi fyrir sjer haft orð Hómers skálds, þar er Hómer kemst svo að orði í upphafi Odyssevskviðu:* Τροίης ἱερὸν πτολίεθρον ἔπερσεν, πολλῶν δ' ἀνθρώπων ἴδεν ἄστεα καὶ νόον ἔγνω, osfrv.

[26]) *Þú kennir* osfrv. *Í orðum Hórazíusar hjer liggur, að Lollíusi, er brjef þetta er til, sje kunnug frásögn Hómers skálds um söng Sírena og um töfrablendíng Kirku; samanb. tvær enar næstu skýríngar hjer á eptir.*

[27]) *Sírenurnar voru eins konar söngmeyjar eða söngdísir; þær voru dætur fljótsguðsins Akelóusar í Grikklandi, en móðir þeirra var sönggyðjan Terpsikóra, eða, eptir því sem aðrir segja, sönggyðjan Melpómena. Söngdísir þessar bjuggu á ey einni vestan við neðra hlut Ítalalands, og seiddu þar til sín með fögrum söng sínum sæfarendur þá, er fram hjá fóru, og fyrirfóru þeim síðan. Úlixes komst svo fram hjá Sírenum, að hann drap vaxi í eyru sveitúnga sinna, og máttu þeir fyrir því eigi heyra rödd Sírena, en sjálfan sig ljet hann binda með opnum eyrum við siglu á skipi sínu, og bannaði að leysa sig, hversu sem hann beiddist þess; fekk hann svo heyrt enn fagra söng Sírena, og þó komizt fram hjá þeim; og ætla sumir, að saga þessi eigi að jartegna, að duganda manni sje leyfilegt að njóta þess, er gott er og fagurt í lífinu, en menn eigi þó að varast að láta fallast fyrir óleyfilegum freistíngum. Um tölu Sírena er oss eigi annað kunnugt, en að sumir segja, að þær hafi verið tvær, sumir þrjár, og sumir fjórar.*

[28]) *Kirka var dóttir Helíusar sólguðs og Persu (eða Perseiðar) Ókeansdóttur; hún bjó á ey einni fyrir vestan Ítalaland, og sögðu seinni menn, að ey sú hefði þar verið, er höfði sá var, er við Kirku var kendur, og kallaður Kirkuhöfði, en hann lá þar, er mættist Latland eð forna og Latland eð nýja. Úlixes kom á ferðum sínum til eyjar Kirku; ljet hann þá hálfa skipsókn sína gánga á land upp að kanna eyna; þeir menn komu til híbýla Kirku, og tók hún þeim vel að sjá, en gaf þeim eins konar töfrablendíng með ólyfjani í, og gjörði þá að svínum; síðan kom Úlixes sjálfur til Kirku, og ætlaði hún að fara með hann, sem hún hafði farið með sveitúnga hans, og gaf honum töfrablendíng, en Úlixes hafði á leiðinni til Kirku mætt Merkúríusi uppheimaguði, og fengið hjá honum eins konar hlífðar-*

Ef[29] Úlixes hefði heimsklega og girndarsamlega bergt staupum Kirku með sveitúngum sínum, mundi hann vit sitt látið hafa, og orðið að lifa við smán undir yfirráðum lauslátrar húsmóður, og verið sem óþrifalegur rakki eða saurelskt svín. Vjer erum eigi annað en höfðatalan; vjer erum að eins fæddir til að neita ávaxta jarðarinnar; vjer erum sem biðlar Penelópu[30], dáðlausir og duglausir, og sem æskulýður Alkínóusar[31], er stundaði meira en vera bar, að ræsta húð sína, og þótti vel sama, að sofa fram á miðjan dag, og þagga síðan niður áhyggjur sínar við hörpuglamur.

4, Ræníngjar rísa upp um nætur, að þeir fái menn vegið, en þú[32] vaknar eigi, að þú fáir varðveitt sjálfan þig; og þó munt þú hlaupa[33], ef þú ert vatnsjúkur, þótt þú viljir eigi það gjöra, 24—34.

*gras, og sakaði hann því eigi, þótt hann drykki af blendíngi Kirku, og fekk hann nú leyst sveitúnga sína úr nauðum þeim, er Kirka hafði þá í færða.*

[29]) *Ef Úlixes hefði* osfrv. *Úlixes bergði að vísu töfrablendíngi Kirku, en hann gjörði það með gætni og varhygð; hafði hann áður fengið hlífðargras hjá Merkúríusi, og sakaði hann því eigi drykkurinn; samanb. næstu skýríng hjer á undan.*

[30]) *Penelópa var dóttir Íkaríusar Perieressonar, og kona Úlixesar Íþakseyíngakonúngs, er nefndur er hjer á undan. Penelópa er nafnkend fyrir þolinmæði sína og tryggleik. Meðan Úlixes, maður hennar, var burtu, beiddu hennar margir af eyjarskeggjum, en hún vildi eigi taka þeim, og hafði við ýms undanbrögð, unz maður hennar kom heim, og fyrirfór biðlunum. Hórazíus nefnir hjer biðla Penelópu til dæmis um dáðlausa menn og duglausa.*

[31]) *Alkínóus var konúngur þjóðar þeirrar, er Feakar voru kallaðir; þeir bjuggu á ey einni, er Skerey hjet, og segja seinni menn, að það hafi verið eyin Kerkýra eða Korkýra (eða Korsýra), er síðar var kölluð; nú er eyin kölluð Korfú, og er það nú höfuðey ens íónska þjóðríkis, er svo er kallað. Þess er getið í fornum sögum, til dæmis hjá Hómer í Odyssevskviðu, 9. þætti, að Feakar höfðu mikið af söng og dansleikum og öðrum skemtunum, og voru hóglífir mjög.*

[32]) *þú. Hjer, og víðara í grein þessi, er sem opt í latínumáli, að liður annarrar persónu (eða þúliður) er hafður, þar er óvíst er, hvort orð þau, er töluð eru, eiga beint við þann mann, er til er talað, eða við menn alment.*

[33]) *hlaupa. Hreifíng þykir holl vera vatnsjúkum mönn-*

ef þú ert heill heilsu; en ef þú beiðist eigi bókar og ljóss fyrir dag, og leggur eigi allan hug þinn við sómasamlegar iðnir og iðkanir, þá munt þú þjást þúnglega, og eigi fá sofið fyrir öfund og illum girndum; því að hvað veldur því, að þú hraðar þjer það braut að nema, er gjörir mein auga þínu, en dregur aptur lækníngina árlángt, er eitthvað meiðir hug þinn? Sá[34] hefir hálfnað verk, er hafið hefir; haf þoran vizku að leita; byrja þú. Þeim manni, er frestar því að lifa rjettlega, ferr sem bóndanum; hann bíður þess, að áin renni fram, en hún rennur, og mun renna veltileg um aldur og æfi.

5, Menn leita sjer fjár og fjesællar konu, er þeir megi börn við ala; menn mýkja og með arðurjárni[35] óyrkta skóga. Sá maður, er það hlotnast, er gnógt er, æski sjer einskis framar. Það eru eigi hús og lönd, eða hrúgur af eiri og gulli, er draga sóttir og vanheilindi úr sjúkum líkam þess, er á, eða áhyggjur úr sálu hans; eigandinn hlýtur að vera heilbrigður, ef hann hugsar til að njóta þess vel, er hann aflað hefir. Sá maður, er girnist eitthvað eða óttast, hefir jafnmikið yndi af húseign sinni og fje, sem augnveikur maður af litmyndum, eða fótveikur maður af hlýjum[36] umbúðum, eða eyru þau af hörpuhljómi, er saurr hefir í sezt og særir þau. Ef[37] kerið er eigi hreint, súrnar alt það, er í það er látið.

34—54.

---

*um; svo segir Selsus t. d. í lækníngabók sinni (3. þætti, 21. kap.), að vatnsjúkir menn skuli gánga mikið, og jafnvel stundum hlaupa* (multum ambulandum, currendum aliqvando, osfrv.). *Með orðum sínum hjer vill Hóraz á benda, að menn leiti sjer bóta við meinsemdum líkams, en vanræki meinsemdir andar sinnar.*

[34]) *Sá hefir hálfnað verk, er hafið hefir; á latínu: dimidium facti, qvi coepit, habet; líkt þessu er það, er menn nú segja venjulega á íslenzku: hálfnað er verk, þá hafið er.*

[35]) *arðurjárn, á lat. vomer (og vomis), þ. e. það járn í arði eða plóg, er jörðin er með ristin; samanb.: með einu arðrjárni, þí er ristill heitir, Stjórn 177, 386, 7.*

[36]) *hlýjar umbúðir þykja eigi góðar við fótaveiki, og segir Selsus í lækníngabók sinni (4. þætti, 24. kap.), nær slíkar umbúðir skuli við hafa þess kyns sjúkdóma, en það er, ef bólgulaust er.*

[37]) *Ef kerið er eigi hreint,* osfrv. *Með orðum þessum vill*

6, Sneið hjá munaði; unaðsemd, er harmi er keypt, skaðar meira, en hún bætir. Ágjarn maður er jafnan þurfandi; leita þú ósk þinni viss endimarks. Öfundsjúkur maður megrast af því, er öðrum gengur vel, og hafa eigi harðstjórarnir[38] á Sikil-
55—58.

---

*Hórazíus sýna, að hugarfar manna og háttsemi verði óhreinlátleg, ef hjarta þeirra og brjóst er eigi vel undir búið í æskunni.*

[38]) *harðstjórarnir á Sikiley.*

a) *Harðstjóri, á lat. tyrannus, og gr.* τύραννος, *er, sem kunnugt er, haft um þá menn, er þykja illir og harðir í stjórn sinni, en eð gríska orð* τύραννος *(og eð latínska orð* tyrannus) *er þó upphaflega og eiginlega haft um þá menn, er orðið hafa einvaldar eða einvaldshöfðíngjar, þar er lýðveldisstjórn hefir áður verið; hafa sumir slíkir einvaldshöfðíngjar þótt góðir stjórnendur, svo sem til dæmis að taka Písistratus, er á síðara hlut sjettu aldar fyrir Kristsb. var alllengi einvaldshöfðíngi* (tyrannus) *yfir Aþenuborg, þar til er hann dó ár. 528. En þótt nú sumir slíkir einvaldshöfðíngjar* (τύραννοι) *þætti vel fara með stjórn sinni, var það þó miklu optar, að þeir voru illir og harðir, og þar af kom það, að merking orðsins týrannos (eða týrannus) breyttist svo, að það var optast haft um harðstjóra.*

b) *Margra einvaldshöfðíngja (eða harðstjóra) er getið á Sikiley, einkum í Sýrakúsborg og Agrígentsborg. Af einvaldshöfðíngjum (eða harðstjórum) Sýrakúsborgar eru einna nafnkendastir 1) Gelon, er varð einvaldshöfðíngi í Sýrakúsu ár. 485 fyr. Kristsb., en dó ár. 478. 2) bróðir Gelons, Híeron enn eldri; hann dó ár. 467. 3) Þrasýbúll, bróðir þeirra Gelons og Híerons; hann var illur og grimmur, og var braut rekinn á ellefta mánaði stjórnar sinnar (ár. 466), og hófst þá af nýju þjóðstjórn í Sýrakúsu, svo sem áður hafði verið fyrir daga Gelons. Þjóðstjórn þessi hjelzt, þar til er 4) Díónýsíus enn eldri varð einvaldshöfðíngi (ár. 406); Díónýsíus þessi dó ár. 367; tók þá við stjórn 5) sonur hans, Díónýsíus enn ýngri. Díónýsíus enn eldri hafði verið tvíkvæntur; fyrri kona hans var dóttir Hermókratesar nokkurs, ágæts manns, og átti Díónýsíus enn eldri við þeirri konu Díónýsíus þann, er tók við stjórn eptir hann. Síðari kona Díónýsíusar ens eldra hjet Aristómaka, dóttir Hipparíns nokkurs, er og var ágætur maður, sem faðir ennar fyrri konu Díónýsíusar hafði verið. Aristómaka átti bróður þann, er Díon hjet; var það vitur maður og góðgjarn, og unni mjög almennu frelsi, og óttaðist Díónýsíus mágur hans, að hann mundi sjer hættur verða; kom þá upp missætti milli þeirra, og lyktaði því missætti fyrst svo, að þeir áttust bardaga við, og bar Díon hærra hlut, en Díónýsíus flýði yfir til Ítalalands (ár. 356). Þrem vetrum síðar (ár. 353) var Díon ráðinn af dög-*

*um. Sjau vetrum síðar (ár 346) tókst Díónýsíusi aptur að ná völdum í Sýrakúsu, en sú stjórn hans varð eigi lánggæð; var hann enn af nýju sviptur völdum, og rekinn af landi brott (ár. 343), og hafðist hann nú við, það er eptir var æfi hans, í Korintuborg á Grikklandi, og kendi þar börnum. Eptir þenna brautrektur Díónýsíusar ens ýngra hófst enn þjóðstjórn í Sýrakúsu, og hjelzt hún til ársins 317; þá varð 6) Agaþókles einvaldshöfðíngi þar, og sat hann að völdum til þess, er hann var drepinn á eitri (ár. 289). Loksins getum vjer hjer 7) Híerons ens ýngra, er varð fyrst herforíngi* (pretor) *Sýrakúsmanna (ár.275), og síðan konúngur þeirra (ár. 270), og hjelt hann konúngstjórn, þar til er hann dó, ár. 216.*

c) *Af þessum einvaldshöfðíngjum Sýrakúsborgar eru þeir feðgar, Díónýsíus enn eldri og Díónýsíus enn ýngri, einkum nafnkendir fyrir grimd sína og aðra mannvonzku, en þó er Falaris, er var harðstjóri í Agrígentsborg, jafnvel kunnari orðinn fyrir grimd sína, en nokkurr annarr harðstjóri á Sikiley. Falaris ljet smið þann, er Perílaus (eða Perillus) hjet, gjöra uxa einn af eiri; var uxi sjá svo lagaður, að pípur voru í honum, og er menn voru látnir í uxann, og kveykt var undir, og mennirnir tóku að veina, þá kvað við í pípunum, sem naut bauladi, og þótti Falaris þetta en bezta skemtan. Fyrsti maðurinn, er brendur var í uxanum, var Perílaus, er uxann gjörði, og launaði Falaris honum svo uxasmíðina. Margt annað þótti Falaris illa gjöra, og urðu það æfilok hans, að hann var grýttur til dauðs (ár. 550).*

*Falaris þessi hefir illur þótt, enda hefir hann og þar í átt sammerkt við marga aðra, þá er illir þykja, að því hefir einkum verið haldið á lopti um hann, er ilt er, en hins síður getið, er gott var í fari hans, og setjum vjer hjer sögukorn, er sýnir, að Falaris hefir eigi með öllu fráhverfur verið mannlegum tilfinníngum, og er saga sú í Sagnasafni* (Variae Historiae) *ens gríska sagnfræðings Elíans (í öðrum þætti, en fjórða saga). Maður er nefndur Karíton; hann unni mjög únglíngi einum, er Melanippus hjet. Melanippus komst í málsókn við einn af vildarmönnum Falariss. Falaris bauð Melanippusi að hætta málsókninni. Melanippus vildi það eigi. Hótaði Falaris Melanippusi þá öllu illu, og varð Melanippus frá að hverfa. Þótti Melanippusi þó mikið fyrir þessu, og hugði að gjöra atför að Falaris, og reyna að fyrirkoma honum. Bar Melanippus nú þessa sína ráðgerð undir vin sinn Karíton, og vildi fá hann í fylgi með sjer. Karíton þótti þetta hætturáð, og rjeð Melanippusi að bíðleika við, og ljet Melanippus sjer það segjast. En nú hugsaði Karíton sjer að fyrirfara harðstjóranum sjálfur, og láta Melanippus ekki af vita, svo að Melanippus kæmist eigi í neinn vanda, ef atförin heppnaðist eigi. Tók Karíton nú rýt-*

ey[39] fundið meira píslarfæri, en öfundin er. Sá, er eigi hefir stjórn á reiði sinni, mun óska þess, að það væri ógjört, er harmur hans og hugur hvatti hann til, meðan hann með ofbeldi hraðaði sjer að koma fram hegníngu fyrir hatur það, er hann átti óhegnt. Reiðin er stutt æði. Stýr hug þínum, því að ef hann hlýðir eigi, stjórnar hann; legg beizl við hann og hald honum í festi. Meðan makki hestsins er grannur, og hesturinn auðvaninn, lagar tamníngarmaðurinn hann svo, að hann fari veginn, þar er reiðmaðurinn á bendir; og er veiðihvolpurinn ferr úti[40] í garði að gelta að hjartarbelginum, þá er hann því næst hafður til veiða í skógum úti. Nem þú nú þarfleg fræði, með-

58—68.

---

*íng, og hjelt þángað, er hann vissi, að harðstjórinn var, en varðmenn harstjóra urðu varir við ferð Karítons, og handtóku hann. Var Kariton nú færður í myrkvastofu, píndur þar, og leitað fast á hann, að birta, hverjir væri í vitorði með honum. En Karíton stóðst píslir allar, og gaf ekki uppskátt; en er Melanippus frá, að vinur hans var lengi svo píndur, gekk hann fyrir harðstjóra, og játaði eigi að eins, að hann hefði verið í vitorði með Karíton, heldur og, að hann hefði verið upphafsmaður og hvatamaður atfarar þeirrar, er gjör var við Falaris. Nú spurði Falaris, hví þetta sætti, og hvað hefði knýit Melanipp til slíkra ráða. Sagði Melanippus þá frá málsókn þeirri, er áður er um getið, og kvað sjer svo hermt hafa við orðið málalok þau, er á urðu, að hann hefði viljað ráða Falaris bana. Varð Falaris nú alt annars hugar, en hann hafði áður verið, og þótti honum svo mikið til koma veglyndis þeirra Karítons og Melanippusar, að hann ljet báða þá þegar lausa; þó var svo á kveðið, að þeir skyldi samdægurs fara braut af Agrígentsborg og þegar í braut af Sikiley, en eigna sinna fengu þeir að njóta óskerðra.*

39) *Sikiley, en alkunna ey, er liggur í útsuðurætt frá Ítalstá.*

40) *úti í garði. Fyrir framan hús enna fornu Grikkja og Rómverja var opt eins konar garður eða gerði, og voru umhverfis í garði þessum hesthús þeirra og fjós og önnur útihús. Hjer er svo ráð fyrir gjört, að hvolpi, er ætlaður er til veiða, sje fyrst sýndur einhverr dýrsbelgur úti í garði þessum, og síðan, er hvolpurinn tekur að gelta að belginum, þá er farið með hann út í skóga; svo er og um únga menn, að í æskunni byrjar að kenna þeim það, er gott er, og þeim er síðar ætlað að stunda. Eð sama vill Hórazíus og sýna með því, er hann segir hjer á undan um úngan hest og tamníngarmann.*

an úngur ert, og brjóst þitt óflekkað, og far til þeirra manna, er betur vita en þú. Kerið[41] mun lengi varðveita það bragð, er eitt sinn hefir í það komizt, meðan það var nýtt. Ef[42] þú ferr mjög tómlega, eða heldur mjög ákaft undan, þá er þjer það að segja, að eg bíð eigi eptir þeim, er seinn er, og eltist og eigi við þá, er undan fara.

## Þriðja brjef[1]

til

*Júlíusar Flórusar*[2].

Efni brjefsins.

*Mig fýsir að vita, hvar Kládíus (Tíberíus) er með her sinn, hvort hann og þjer eruð í Þraklandi, eða við Helluhaf, eða í* 68—71.

---

[41]) *Kerið mun lengi* osfrv. *Í enni nýjari íslenzku er sá orðskviður, að sagt er: smekkurinn sá, sem kemst í ker, keiminn lengi eptir ber, og þykir líklegt, að sá orðskviður sje sprottinn af þessum orðum Hórazíusar.*

[42]) *Ef þú* osfrv. *Í enda brjefsins er hjer eins konar hvatníng til úngra manna, að taka vel ráðum góðra manna og þekkjast þau.*

[1]) *Þriðja brjef. Brjef þetta er ritað ár. 20 fyr. Kristsb.; samanb. næstu skýríng hjer á eptir.*

[2]) *Júlíus Flórus. Ár. 20 fyr. Kristsb. sendi Ágústus keisari stjúpson sinn, Kládíus Tiberíus Neró, austur í lönd. Kládíus þessi Tíberíus Neró er sami maðurinn, sem sá, er síðar var keisari (frá ár. 14 til árs. 37), og venjulega er kallaður Tíberíus. Á þessi sinni austurför skyldi Tíberíus laga það, er aflaga þótti fara í skattlöndum Rómverja austur í heimi, og auk annars setja Tígranes Artabazesson ens fyrsta til ríkis í Armenalandi, en síðast hafði þar konúngur verið bróðir Tígranesar, Artabazes enn annarr, er og er kallaður Artaxías, og rjeðu frændur hans hann af dögum. Í för með Tíberíusi voru ýmsir fræðimenn, svo sem höfðíngjum var fyrrum títt með sjer að hafa á slíkum ferðum, og var Júlíus Flórus, sá er brjef þetta er til, einn af þeim mönnum. Til Flórusar þessa er og annað brjef ennar síðari bókar; að öðru leyti er oss eigi neitt kunnugt um Flórus, nema sagt er, að hann hafi kveðið kýmikvæði (eða satýrur). Annarr Flórus, en þessi Flórus, var Lúsíus Anneus Flórus, er var uppi á dögum Hadríans keisara, á öndverðri annarri öld; hefir Flórus sá ritað stutt ágrip af sögu Rómverja frá upphafi borgarinnar (ár. 753), og til ársins 29 fyr. Kristsb.*

*Íslandi. Hvað hefst fræðimannaflokkurinn að? og hverr tekur sjer fyrir hendur að rita um afreksverk Ágústusar? Hvernig líður enum mannvænlega Tizíusi? og hvað yrkir hann? Hvernig líður Selsusi, er hættir við að styðjast um of við forða annarra manna? Og hvernig líður sjálfum þjer? hvað hefst þú að? og hvernig semur þjer við Múnazíus? Þið eruð betri en svo, að yður semji eigi, og hefi eg kvígu á beit, er eg ætla til blóts, þá er þjer komið heim aptur.*

Júlíus Flórus, mig fýsir að vita, hvar á útkjálkum jarðarinnar Kládíus[3], stjúpsonur[4] Ágústusar[5], er í hernaði. Dvelst 1—5.

---

[3]) *Kládíus, þ. e. Kládíus Tiberíus Neró, er vanalega er kallaður Tiberíus; samanb. 2. og 4. skýring.*

[4]) *stjúpsonur Ágústusar. Ágústus keisari var príkvæntur; fyrst átti hann Klódíu (eða Kládíu), dóttur Públíusar Klódíusar, ens alkunna mótstöðumanns Siserós. Önnur kona Ágústusar hjet Skríbónía; hún var systir Skríbóníusar þess, er var tengdafaðir Sextusar Pompeiusar, Pompeiussonar ens mikla, og átti Ágústus með konu þessi ena nafnkendu Júlíu. Þriðja kona Ágústusar var en nafnkenda Livía (Drúsilla); hún hafði áður verið gipt Tiberíusi Kládíusi Neró, er var samtíða Síseró mælskumanni; hafði Livía átt með þessum sínum manni son einn, er og hjet Tiberíus Kládíus Neró, og varð hann síðar keisari, og er vanalega kallaður Tiberíus (samanb. næstu skýríng hjer að framan).*

*Nokkuru eptir það, er Tiberíus fæddist, samdist svo um með þeim Ágústusi og Tiberíusi eldra, að Tiberíus enn eldri skyldi sleppa konu sinni, og Ágústus fá hennar; var Livía þá óljett annað sinn, og eignaðist síðan son þann, er Drúsus var kallaður. Drúsus þessi varð síðar allfrægur fyrir hernað sinn við Reta og Vindelika, og síðan við Germana, en fótbrotnaði ár. 9 fyr. Kristsb., og dó af því. Sonur þessa Drúsusar var Kládíus, er var keisari frá ár. 41 til árs. 54.*

*Um hernað Tiberíusar, þann er Hórazíus á hjer við, er talað í annarri skýríngu hjer að framan.*

[5]) *Ágústus, þ. e. enn nafnkendi rómverski keisari, Ágústus. Hann var fæddur ár. 63 fyr. Kristsb., og var af ætt Oktavía, og var hann, sem þeir ættmenn, fyrst kallaður Oktavíus; var faðir hans Kajus Oktavíus, er var skattlandsstjóri í Masedónalandi ár. 60; móðir hans var Attía, en yngri systurdóttir Júlíusar Sesars ens mikla. Oktavíus þessi enn yngri misti föður síns, þá er hann var á fimta aldursári; fór hann þá til móðurmóður sinnar Júlíu, og var hjá henni um hríð. Síðan tók*

yður í þraklandi[6], og við eð snæfjötraða Hebrusfljót[7]? eða við 3—4.

---

*frændi hans, Júlíus Sesar, hann að sjer, og sá um uppeldi hans og menníng. Nokkuru áður en Sesar var veginn (ár. 44 fyr. Kristsb.), hafði hann sent Oktavíus enn yngra austur til Apollonsborgar í Illýrafylki; skyldi Oktavíus halda þar fram bóknámi sínu, og kynna sjer þar herskipan við her þann, er þar var saman dreginn til herfarar mót Pörtum. Þá er Sesar var veginn, brá Oktavíus skjótt við, og fór þegar til Róms; fekk hann nú að vita, að Sesar frændi hans hafði ættleitt hann; jók hann þá nafn sitt og breytti því, sem títt var við ættleiðslu, og var hann nú kallaður Sesar Oktavíanus, eða einúngis Sesar, eða einúngis Oktavíanus. Í flestum mannkynssögum er getið um styrjaldir þær, er Sesar Oktavíanus átti nú, fyrst við Markus Antóníus þrístjórnarmann; síðan við þá Brútus og Kassíus; því næst við Lúsíus Antóníus, bróður Markuss Antóníusar þrístjórnarmanns; þá við Sextus Pompeius, son Pompeiusar ens mikla, og enn við Markús Antóníus og Kleópötru, Egiptalandsdrottníngu. Eptir enn síðasta bardaga, er stóð við Strandarhöfða* (Actium), *eða norðan til við útnorðurhorn Akarnanafylkis (ár. 31), varð Oktavíanus einvaldur yfir Rómaríki, og er eð næsta ár (árið 30) talið vera hið fyrsta ríkisstjórnarár hans; fekk hann nú nokkuru síðar (ár. 27) það viðurnefni, að hann var Ágústus kallaður, en það orð er ýmist leitt af enu gríska einkunnarorði h a g í o s* (heilagur), *og merkir þá eitthvað það, er heilagt er, eða af enu latínska sagnarorði a u g e r e* (að auka), *og merkir það þá eitthvað það, er mikið er og virðulegt; ágústusarnafn þetta, er upphaflega og eiginlega var að eins viðurnefni, varð síðan eins konar höfuðnafn. Eptir það er Ágústus varð einvaldur yfir öllu Rómaríki, jók hann ríkið og efldi það á margan hátt, og þótti í mörgu allágætur stjórnari. Árið 20, það ár, er brjef þetta er ritað, var Ágústus á ferð um Ásland eð minna og Sýrland; hafði hann þá og sent stjúpson sinn Tiberíus austur í lönd, svo sem sagt er hjer að framan, í annarri skýríngu. Ár. 14 eptir Kristsb. dó Ágústus, og hafði hann þá nær sex um sjautugt, og er haft eptir honum, þá er hann var kominn fram í andlátið, að hann hafi þá spurt vini sína, hvort þeim þætti hann hafa leikið liðlega æfileik sinn* (ecquid iis — þ. e. amicis — videretur mimum vitae commode transegisse), *Æfi Ágústs hjá Sveton, 99. kapítuli.*

[6]) *Þ r a k l a n d (eða Trasía), það er eð alkunna þjóðland í landsuðurhlut Norðurálfunnar; það lá þar, er nú er Rómanía eða Rúmilí* (Rúm-Ilí), *það er: Rómverjaland að voru máli, en það er sá hlutur af löndum Miklagarðskeisara, er höfuðborg hans liggur í.*

[7]) *H e b r u s f l j ó t i ð er nú kallað Maritza eða Maritzafljót; það hefir upptök sín á fjallamótum við útnorðurendimörk Rómaníu (eða ens forna Þraklands), og rennur fyrst í austur og*

sund[8] það, er liggur milli enna nástæðu stöpla[9]? eða dvelja yður enir feitu vellir Áslands[10] og hæðir þess? Hvað hefir enn 4—6.

---

*landsuður yfir nær mitt landið, en síðan í suður og útsuður niður í Grikklandshaf. Hjer er komizt svo að orði, að sagt er, að Hebrusfljót sje snæfjötrað eða ísi lagt, og berr það til þess, að Rómverjum þótti fyrrum kalt mjög austur þar, og liggur mikill hlutur Hebrusfljóts þó svo sunnarlega sem Róm (á milli 41. og 42. jarðstigs norðurættar), en Róm liggur, sem áður er sagt (í fimtu skýríngu við annað brjef bókar þessar), sunnan til við 42. jarðstig norðurættar.*

*Vera má, að sumum þyki undarlegt, að Rómverjar tala um mikinn kulda og frost jafn sunnarlega, sem Þrakland eð forna var, eða Tyrkland nú er, en athuganda er, að Rómverjar tala og um mikinn kulda í Þjóðverjalandi, og á Bretlandi enu mikla, og í Frakklandi, og þykir nú þó allheitt í löndum þessum; en þetta kemur auk annarra orsaka af því, að loptslag hefir töluvert mýkzt og hiti aukizt í löndum þessum, sem hvervetna annars staðar, eptir því sem skógar og merkur hafa rudd verið, og yrkíng jarðar aukizt og eflzt.*

8) *sund það, er* osfrv., *þ. e. Helluhaf eða Dardanellasund; samanb. næstu skýríng hjer á eptir.*

9) *enir nástæðu stöplar; svo eru hjer kallaðar borgirnar Sestus og Abýdus, er stóðu sín hvorum megin við Helluhaf (eða Dardanellasund), Sestus að vestanverðu eða norðurálfu megin, austan á Þrakaskaga, en Abýdus að austanverðu eða austurálfu megin, á vesturströnd Mýsahjeraðs ens minna. Borgir þessar eru einkum orðnar nafnkendar af kunníngskap þeirra Leanders og Heróar; Leander átti heima í Abýdus, en Heró í Sestus, og svam Leander opt yfir sundið til Heróar, en síðast varð það hans bani, að hann vildi eina nótt, sem optar, svima yfir sundið til Heróar, en veður var ilt og druknaði Leander í sundinu. Morguninn eptir fann Heró líkið rekið sínum megin við sundið, og varð henni svo mikið um það, að hún steypti sjer út í sjó, og ljet hún svo líf sitt. Eð nafnkenda enska skáld Bæron (ritað* Byron) *lávarður, er var fæddur ár. 1788, en dó ár. 1824, svam ár. 1810 yfir Helluhaf (eða Dardanellasund) einhvers staðar þar nálægt, er Leander fórst, og er breidd sundsins talin þar vera sjau skeiðrúm, eða nær sjau hundruð faðma, en straumur mikill er í sundinu; þykir þetta að vísu allmikið sund, en þó eigi tiltakanlega mikið, ef straumlítið er.*

10) a, *Ásland, á lat. Asia. Eð latínska orð Asia er að einu leytinu haft um þann hlut heimsins, er vanalega er kallaður Asía (eða Ásheimur), eða Austurálfa, eða Austurheimur.*

b, *Í öðru lagi er Asia haft um skaga þann, er gengur út frá vesturhlut Ásheims, vestur milli Svarta Hafs og Miðjarðar-*

fróðleiksgjarni föruneytisflokkur[11] fyrir stafni? mig fýsir og það að vita. Hverr tekur sjer fyrir hendur að rita um afreksverk Ágústusar? hverr ritar um styrjaldir hans og friðgerðir, að þær 6—8.

---

*hafs. Landi þessu (eða skaga þessum) var skipt í fimtán höfuðfylki, og voru norðast frá vestri til austurs, — 1) Mýsafylki, — 2) Bíþýnafylki, — 3) Paflagónafylki, — 4) Haffylki (á lat.* Pontus); *þá sunnar, frá vestri til austurs, — 5) Lýdafylki, — 6) Frýgafylki, — 7) Gallafylki, — 8) Kappadókafylki, — 9) Karafylki, — 10) Písidafylki, — 11) Ísárafylki, — 12) Lýkaónafylki, og syðst austur með ströndum austurhlutar Miðjarðarhafsins, — 13) Lýkafylki, — 14) Pamfýlafylki, og — 15) Kilikafylki. — Þessi hlutur Austurheims eða Ásheims er opt kallaður Litla Asía eða Asía en minni, á lat. Asia Minor; þó kemur nafnið Asia Minor eigi fyrir í latínskum bókum, fyrr en hjá Ísídór Spánarbiskupi, er dó á fyrra hlut sjaundu aldar (ár. 635 eða 636) ept. Kristsb. Ísídór hefir Asia Minor í riti sínu um Uppruna Orða, 14. þætti, 3. kap., 38. gr., og hefir hann það þar um þann hlut Áslands (eða Áslandsskaga), er liggur fyrir vestan Kappadókafylki og sunnan það.*

c) *Í þriðja lagi er eð latínska orð Asia opt haft um þann hlut Áslands eða Áslandsskaga, er Rómverjar eignuðust ár. 133 fyr. Kristsb., þá er Attalus enn þriðji, Pergamsmannakonúngur, dó, og gaf Rómverjum lönd sín öll eða ríki sitt alt, en lönd þessi voru Frýgafylki, Mýsafylki, Lýdafylki, Karafylki, og meira; þenna hlut landsins kalla Rómverjar opt skattland sitt* (provincia).

d) *Enn er orðið Asia eigi sjaldan haft óákveðið um eitthvað af útsuðurhlut Áslands (eða Áslandsskaga), það er fyrst varð fyrir Grikkjum eða Rómverjum, þá er þeir komu þar austur í lönd, og svo mun orðið vera hjer haft.*

e) *Það má þykja óefanlegt, að enir fornu guðir vorir, Æsirnir, hafi upphaflega menn verið, og komið austan frá Ásheimi; í öðru lagi þykir eigi ólíklegt, að uppruni orðanna* Ἀσία *á grísku, Asia á lat.,* Áss (fornt guðsheiti), *og* áss (haft bæði um hæð á landi, og ýmislegt það, er lángt er og mjótt, t. a. m. trjestöng), *á norrænu, sje allur enn sami, og að orðstofninn as hafi upphaflega haft eins konar hæðarmerking, og Ásheimur hafi fengið nafn sitt af enum mörgu háu fjöllum, er þar eru (og Æsir aptur nafn sitt af því, að þeir voru komnir þaðan að austan).*

*Hórazíus talar hjer um feita völlu Áslands og hæðir þess, og benda þau orðatiltæki á það tvent, að landið sje frjóvsamt og hæðótt (eða fjöllótt).*

[11]) *enn fróðleiksgjarni föruneytisflokkur, það eru bókfræðamenn, er Tíberíus hafði með sjer á austurför sinni; samanb. aðra skýríng.*

verði lengi í minnum hafðar? Hvað segir þú mjer af Tizíusi[12], er bráðum mun komast[13] í manna munna í Rómi, og hefir eigi bliknað[14] við teyga[15] úr lind Pindars[16], og hefir dirfzt að[17] líta smám augum á tjarnir þær og læki, er allir eiga að gengt? hvernig líður honum? og hvernig liggur honum orð til vor? leggur hann stund á að fella þebverska[18] ljóðháttu við lat-
8—12.

---

[12]) *Tizíus. Um Tizíus þenna er oss ekki annað kunnugt, en það, er hjer er sagt, og er svo að sjá, sem Hórazíusi hafi þótt hann líklegur til að verða gott skáld, en þó hefir ekki varðveizt af því, er hann kveðið hefir.*

[13]) *að komast í manna munna í Rómi, þ. e.: að hljóta þar loflegt umtal manna.*

[14]) *blikna eigi við teyga úr lind Pindars, það er að hafa þor til, að hefja sig svo hátt í kveðskap sínum, sem eð alkunna skáld Pindar; samanb. tvær enar næstu skýríngar hjer á eptir.*

[15]) *teygar úr lind Pindars, það er slíkur kveðskapur, sem kveðskapur Pindars var (samanb. næstu skýríng hjer á undan), og er kveðskapur hjer, sem opt í fornum fræðum, grískum, rómverskum og norrænum, kendur við drykk eða einhvern vökva; samanb. frásögnina um Pegasus og Hestlind (Ἱπποκρήνη) í grískum frásögnum, og um Kvási, og dvergana Fjalar og Galar, og um Gyllíng jötun og Suttúng, í goðafræði vorri (Bragaræður, 57. grein), svo og enn fremur skáldskaparheitin Kvásisblóð, dvergadrekka, Suttúngamjöður og fleira því um líkt.*

[16]) *Pindar var eitt af enum helztu höfuðskáldum Grikkja; hann var fæddur í Þebuborg (eða Þebu) í Boiótafylki í Miðgrikklandi, og var í blóma sínum fyrra hlut ennar fimtu aldar fyrir Kristsb. Pindar er einkum orðinn ágætur fyrir kvæði þau, er hann kvað um þá menn, er unnu sigur í enum fjórum höfuðleikum Grikkja, Ólympsvallarleikum, Pýþóarleikum, Nemeuleikum og Eiðsleikum; af þessum hans kvæðum eru enn til meira en fjórir tigir. Mönnum hefir jafnan þótt mikið til Pindars koma; svo er þess t. a. m. getið, að Alexander enn mikli hafi eirt húsi Pindars, þá er hann eyddi Þebuborg (ár. 335 fyr. Kristsb.), og þykir Alexander þar með sýnt hafa, hve mikils hann mat skáldskapargipt Pindars. Pindar er og eitt af þeim skáldum, er Hórazíus jafnan minnist mjög loflega.*

[17]) *að líta smám augum á tjarnir þær og læki, er* osfrv., *þ. e. með öðrum orðum: að hefja sig yfir almennan kveðskap; samanb. 14. skýríng.*

[18]) *þebverskir ljóðhættir, það eru slíkir ljóðhættir, sem eð ágæta þebverska skáld Pindar við hafði í kvæðum sínum; samanb. 16. skýr. hjer að framan.*

nesk[19] strengjatól með leiðbeiníngu og fulltíngi sönggyðjunnar? eða 12—13.

[19]) a, *latneskur, þ. e. sem hafður er í Latlandi, eða með öðrum orðum í Rómi.*

b, *Latland (á lat.* Latium) *var upphaflega lítill hlutur af vesturströnd Miðítals, þar fyrir neðan, er Aníonsá (eða Teveróne) rennur í Tífurá (eða Tíber), og náði bygð Latlendínga öndverðlega vestur undir haf fyrir neðan Tífurá, og suður til Númiksár, er rann til sjávar nær Hegraborg (eða Ardeu). Síðar jókst bygð Latlendínga suður á við og austur á við niður undir Kirkuhöfða og Terrasínu (eða Anxúrsborg).*

c, *Þá er Trójuborg var fallin (ár. 1184 fyr. Kristsb.), og Eneas Ankísesson kom til vesturstrandar Miðítals, þar er síðar var kallað Latland, er þess getið, að hann eignaðist Laviníu, dóttur Latínuss konúngs í Lavínsborg, en sú borg lá í landnorður frá Hegraborg. Askaníus, sonur Eneasar Ankísessonar (og Kreúsu, fyrri konu Eneasar), hóf nýja bygð í Ölbu enni nýju, er hann ljet gjöra nokkuru norðar og vestar, en Lavínsborg var. Þrír tigir borga í Latlandi höfðu stofnað eins konar samband sín í milli, og varð Alba en nýja yfirborg sambands þessa. Síðar var Róm gjör (ár. 753) ofar í landinu, norður og vestur undir Tífurá, og urðu Rómverjar smám saman máttkastir allra þjóðdeilda í Latlandi. Túllus Hostilíus, er var enn þriðji konúngur Rómverja (frá ár. 672 til árs. 640), átti styrjöld við Ölbumenn, vann þá og eyddi borg þeirra. — Tarkvinius enn gamli, fimti konúngur Rómverja (frá ár. 616 til árs. 578) varð höfðíngi eða yfirmaður ens latneska sambands. — Eptir brautrekstur konúnganna (ár. 510) losuðu enar latnesku þjóðir sig að vísu aptur undan yfirráðum Rómverja, en nú hófust óaflátlegar styrjaldir milli Latlendínga og Rómverja, og lyktuðu styrjaldir þessar svo, að Rómverjar fengu fullkomið forræði yfir öllum enum latnesku þjóðum ár. 338 fyr. Kristsb., og hvarf þar við eð latneska samband, er svo var kallað. — Síðan unnu Rómverjar smám saman aðrar þjóðir, er bjuggu fyrir austan Latland eð forna og suður undan því; þjóðir þessar voru Ekvar fyrir austan Róm, Hernar í landsuður frá Rómi, Volskar í útsuður frá Hernum, og Árúnkar í suður og landsuður frá Volskum. Bygðarlag þessa fjögurra þjóðflokka er stundum kallað Latlandsauki (á lat.* Adjectum Latium, *Eðlissaga Plíníusar ens eldra, 3. þátt., 5. kap., 9. gr.), eða Latland eð nýja (á lat.* Novum Latium), *og er þá en fyrri bygð Latlendínga kölluð Latland eð forna (á lat.* Antiqvum Latium, *Eðliss. Plin. eldr., 3. þátt., 5. kap., 9. gr., og:* Vetus Latium, *Árbækur Tasítusar, 4. þátt., 5. kap.); en venjulega er Latland eð forna og bygð enna fjögurra þjóðflokka, Ekva, Herna, Volska og Árúnka, kallað einu nafni Latland (á lat.* Latium), *og náði þessi bygð Latlendínga til niðurhlutar Tífurár (eða Etrúralands) og Sabalands*

ryðst hann um með dýrlegu orðskrúði í enni harmsagnlegu skáldskaparment? Mjer þætti og gaman að vita, hvað Selsus[20] hefst að, hann er á hefir verið mintur, og mikillega þarf á að minna, að hann afli sjer sjálfur forða, og varist að snerta nokkur þau rit, er Apollon[21]

14—17.

---

*að norðanverðu, til Marsafylkis og norðurhlutar Samnafylkis að austan, til Valllands og Niðurhafsins (eða Túskahafs) að sunnan, og til Niðurhafsins (eða Túskahafs) og neðstu (eða syðstu) táar Etrúralands að vestan.*

d) *Uppruni ens latínska orðs* L a t í u m *er ókunnur. Ætluðu fornmenn, að orð þetta væri leitt af enu latínska sagnarorði* l a t e r e (að dyljast), *af því að enn forni guð Latínumanna, Satúrnus, duldist þar, þá er hann flýði fyrir syni sínum Júppíter, og vildi dyljast fyrir honum, en þessi afleiðsla orðsins er varla annað en forn tilbúníngur. Aðrir ætla, að orðið sje leitt af enu latínska viðlagsorði* l a t u s (breiður), *en þeirri afleiðslu er tvent til fyrirstöðu, það annað, að a-ið er skamt í* L a t i u m, *en lángt í* l a t u s, *en hitt, að* L a t i u m *mátti varla breitt þykja, því að breidd ens forna Latlands hefir að eins verið hálft jarðstig eða hálf önnur þíngmannaleið. Oss þykir líklegast, að orðið* L a t i u m *sje* skylt *enu latínska nefniorði* l a t u s (hlið, síða, jaðarr), *og að bygð enna fornu Latlendínga hafi fengið nafn sitt af því, að þeir bjuggu niður við sjó; samanb. bygðarheitið* S í ð a *hjá oss, og eð forna bygðarheiti Norvegsmanna* J a ð a r r (*nú* Jædder).

e, *Hjer í brjefi sínu kemst Hórazíus svo að orði, að hann talar um að fella þebverska ljóðháttu við latnesk strengjatól, en það er með öðrum orðum, að kveða svo á latneska (eða rómverska) túngu, sem eð þebverska höfuðskáld Pindar hafði kveðið á gríska túngu; samanb. 16. skýr. hjer að framan.*

[20]) S e l s u s. *Menn ætla, að Selsus þessi sje sami maðurinn, sem sá, er eð átta brjef bókar þessar er til. Af orðum Hórazíusar hjer þykir sjá mega, að Selsus hafi í kvæðum sínum viljað styðjast um of við annarra manna muni.*

[21]) a, *Apollon var einn af enum tólf höfuðguðum; hann var sonur Sevs (eða Júppíters) og Letóar (eða Latónu); hann var bogguð, spáguð, lækníngaguð, guð skáldskapar og sönglistar, hjarðguð og sólguð. Rómverjar tóku snemma að tigna Apollon, og var hann verndargoð ennar júlsku ættar; Rómverjar áttu leika til virðíngar við hann fimta dag júlímánaðar ár hvert, og voru leikar þeir kallaðir Apollonsleikar* (Ludi Apollinares).

b, *Þá er Ágústus var einvaldur orðinn í öllu Rómaríki (ár. 30 fyr. Kristsb.), ljet hann bæta margt það í ríki sínu, er bæta þurfti; svo ljet hann t. a. m. (ár. 28) reisa við hof þau, er fallin voru í Rómi eða hrörnuð fyrir fyrnsku sakir; það ár*

*ljet hann og vígja Apolloni skáldmannagoði musteri á Palatshæð, og stofnaði þar síðan ágætt bókasafn, er í voru grískar bækur og latínskar, og var Kajus Júlíus Hygínus enn fyrsti bókvörður við bókasafn það.*

c, *Eð fyrsta bókasafn í heimi er eignað fornkonúngi Egiptalandsmanna, Ósýmandýasi í Memfisborg. Í Grikklandi stofnaði Písístratus (samanb. 38. skýr. við annað brjef bókar þessar, b-liðinn) eð fyrsta bókasafn þar. Í fornöld var þó ágætast bókasafn það, er Ptólemeus Lagusson enn fyrsti (konúngur frá ár. 306 til árs. 283) stofnaði í Alexandersborg á Egiptalandi; efldu þeir niðjar hans, einkum Ptólemeus annarr, bókasafn það ágætlega, og er mælt, að í því hafi verið fjögur hundruð þúsunda bóka (eða binda). Meiri hlutur bókasafns þessa var í norðausturhlut borgarinnar, þeim er Brúk (á lat.* Bruchion, *Saga Ammíans, 23. þátt., 16. kap., 15. gr.) hjet, og brann sá hlutur bókasafnsins, þá er Júlíus Sesar átti þar ófrið ár. 48 fyrir Kristsburð. Hinn hlutur bókasafnsins var í Serapishofi í suðvesturhlut borgarinnar, og varðveittist þar til stjórnarára Þeódósíusar ens mikla, er fyrst varð keisari ár. 379 ept. Kristsb. í austurhlut ens rómverska ríkis, en varð síðan einkeisari árið 394, en dó vetri síðar (ár. 395). Þeódósíus þessi var mjög vandlætíngasamur um kristna trú; svo ljet hann t. a. m. eyða öll hof heiðíngja í ríki Rómverja; var þá og eytt hof Serapiss goðs á Egiptalandi, og var oddviti þeirra manna, er það gjörðu, yfirbiskup sá, er Þeófílus (þ. e. á vora túngu* guðsvin) *hjet; voru þá bækur allar, er í hofinu voru, brendar eða skemdar, og er þess getið, að þá er fræðimaðurinn Órósíus, er uppi var á fyrra hlut ennar fimtu aldar (ept. Kristsb.), var í Alexandersborg, sá hann þar ekki bóka, en að eins auðar bókahyllur. Í sumum sögum er sagt, að Amrú, hershöfðíngi Ómars ens fyrsta Arabahöfðíngja, hafi (ár. 640 ept. Kristsb.) að boði Ómars látið heita baðstufur sínar með bókum ens mikla bókasafns Alexandersborgar, en eptir því sem hjer er áður sagt, hafa kristnir menn fyrir þá tíð eigi látið sitt til vanta að mýgja bókum þessum.*

d, *Í Pergamsborg í Tevþranshjeraði í Mýsafylki var og til forna ágætt bókasafn, og var höfundur þess Evmenes annarr Pergamsmannakonúngur (frá ár. 197 til árs. 159).*

e, *Í Rómi er fyrst getið um bókasöfn á dögum þeirra Lúsíusar Emilíusar Páls, er vann Persevs Masedónakonúng við Pyðnu (ár. 168 fyr. Kristsb.), og Lúsíusar Lisiníusar Lúkúls, er um sjau ár (frá ár. 74 til árs. 67) hafði herstjórn á hendi gegn Mitrídates Haflendíngakonúngi; þeir Páll þessi og Lúkúll höfðu heim með sjer allmargar bækur, er þeir komu úr herferðum sínum. Síðar er þess getið, að þá er Kajus Asiníus Pollíó hafði unnið Parþína í Illýralandi (ár. 39 fyr. Kristsb.),*

á Palatshæð[22] hefir[23] tekið í vernd sína, að eigi fari svo, ef

17—18.

---

*og hjelt sigurhelgi sína yfir þeim, varði hann nokkuru af herfángi því, er hann hafði hlotið í hernaðinum, til stofnunar bókasafns í Rómi, og var það eð fyrsta almenna bókasafn þar. Því næst stofnaði Ágústus bókasafn það, er um er talað hjer að framan (í b-liðnum), og voru síðar mörg önnur bókasöfn stofnuð í Rómi, en mestur hlutur þeirra týndist, fyrst í borgarbrennu Nerons (ár. 64 ept. Kristsb.), og síðar, er ósiðaðar villiþjóðir eyddu ýmsa hluti borgarinnar og brendu þá, svo sem t. a. m. Alarik Gautakonúngur (ár. 410), og enn síðar, er kristnir menn tóku í eins konar trúarofsa að má af alt það og eyða, er heiðínglegt þótti.*

f, *Eð stærsta bókasafn, er nú er í heimi og kunnugt er, er bókasafn það, er í Parísarborg er á Frakklandi; voru í safni því, eptir því sem segir í Viðurtalsbók* (Conversationslexiconl) *Brokkháss, 9. útg., 2. bind. (við orðið:* Bibliotheken) *ár. 1843 meira en átta hundruð þúsunda prentaðra bóka, og að auk hundrað þúsunda handrita, og þúsund þúsunda ýmissra skjala. Í bókasafni konúngs í Kaupmannahöfn eru nú talin fjögur hundruð og fimm tigir þúsunda bóka. Stiptsbókasafnið, er hjer er í Reykjavík, hefir stofnað verið fyrir fjórum vetrum ens fimta tigar (ár. 1818), og munu nú í því vera nær átta þúsundir binda; samanb. Íslendíng, 3. ár, 4. blað, 27. blaðs., fyrra dálk, og Þjóðólf, 14 ár, 23.—24. blað, 89. blaðs., síðara dálk.*

22) a, *Palatshæð (á lat.* Palatinus Mons, *Saga Livíusar, 1. þátt., 5. kap., og* Palatium, *og* Pallantium, *og* Pallanteum) *var ein af enum sjau (eða tíu) hæðum ennar fornu Rómaborgar; á hæð þessi var Róm fyrst sett (samanb. 2. brjef bókar þessar, 5. skýr., 29. blaðs.). Eptir því, sem leg borgarinnar síðar varð, lá Palatshæð sunnan til í miðri borginni, vestur undir Tífur; hinar sex hæðir ennar fornu borgar voru Kapítólshæð í útnorður frá Palatshæð, Kvírinshæð og Víminshæð í landnorður frá Kapítólshæð, en í norður og landnorður frá Palatshæð, Eskvílshæð í landsuður frá Víminshæð, en austur frá Kapítólshæð, Selíushæð í landsuður frá Palatshæð, en suður frá Eskvílshæð, og enn Aventshæð, er lá í útsuðurhlut borgarinnar, í útsuður frá Palatshæð. Þetta eru enar sjau höfuðhæðir borgarinnar, er svo eru kallaðar, og lágu þær allar austan elfar, en hjer við bættist enn ein hæð austan elfar, er kölluð var Garðahæð* (Collis Hor-

23) *hefir tekið í vernd sína* osfrv. *Hjer kemst Hórazíus svo að orði, að hann segir, að Apollon á Palatshæð taki rit í vernd sína, en með þeim orðum vill Hórazíus á benda, að þá er einhverjar bækur eru komnar frá hendi höfundar síns, og komnar í alment bókasafn, þá sje öðrum mönnum eigi heimilt, að taka það, er í þeim bókum er, og eigna sjer það.*

fuglaflokkur kemur einhverju sinni að sækja aptur fjaðrar sínar, að Selsus þá, sem krákukindin[24], verði sviptur enni stolnu lit-
19—20.

---

torum); *hún lá í útnorðurhlut borgarinnar, í útnorður frá Kvírinshæð. Fyrir vestan fljótið lágu enn tvær hæðir, Janíkúlshæð og Vatíkanshæð; lá Janíkúlshæð vestur undan Palatshæð, en Vatíkanshæð vestur undan norðurhlut Kvírinshæðar og bili því, er var milli Kvírinshæðar og Garðahæðar.*

b, *Um uppruna ens latínska nafns Palatium (og* Palantium) *hafa verið margar getur, og þykir sumum líklegast, að það orð sje komið af enu gríska borgarnafni Pallantion, en borg sjá lá í suðausturhlut Arkaðafylkis á Pelopsey; eru fornar frásagnir um Evander nokkurn, er komið hafði austan af Arkaðafylki, löngu áður en Róm væri gjör, og búið þar, er borg þessi var reist, og ætla sumir því, að Palatsnafnið (eða Pallantsnafnið) hafi með honum flutzt; samanb. Liv., fyrsta þátt, 5. kap.*

c, *Ágústus keisari (samanb. 5. skýríng brjefs þessa) bjó á Palatshæð* (Palatium), *og þar af kom það, að hallir keisara og konúnga voru síðar kallaðar palatia, og af þessu palatsorði eru síðan komin ýmiss hallarorð í enum nýrri málum, t. a. m. palais (eptir framburði* pale) *á frakknesku, palace (eptir framburði* pales) *á ensku, Palast á þjóðversku, og Palads á danska túngu.*

[24]) *krákukindin. Eð gríska dæmisagnaskáld Esópus (samanb. 40. skýríng við 1. brjef bókar þessar, 19. blaðs.) segir svo frá í enni 78. sögu sinni, að Júppíter uppheimakonúngur hafi einhverju sinni viljað setja konúng yfir fuglaríkið; kvað Júppíter þá á dag, er fuglar skyldi saman koma, og ætlaði hann að setja þann af fuglunum til konúngs, er fegurstur væri. Krákubróðir (á gr. κολοιός, á lat.* graculus, *á. d.* Allike) *vissi, að hann var ófjelegur mjög; fór hann því, og safnaði fjöðrum þeim, er duttu af öðrum fuglum, og ljet á sig fjaðrarnar og festi þær; varð krákubróðir þar við fegurstur allra fugla. Nú kom að stefnudegi, og komu þá allir fuglar til Júppíters; þar kom og krákubróðir, og var næsta glæsilegur. Júppíter þótti hann fegurstur allra fugla, og var þegar að því komið, að Júppíter mundi á kveða, að krákubróðir skyldi konúngur vera. Varð hinum fuglunum þá hermt við, gengu að krákubróður, og tók hverr fuglinn sína fjöður af honum; stóð krákubróðir þá berr eptir, og var engu fegurri, en hann hafði áður verið. Með sögu þessi vildi Esópus sýna, að þeir menn, er í skuldum eru, þykja eitthvað vera, meðan þeir hafa annarra manna fje í höndum, en sú dýrð hverfur, er þeir hafa því aptur skilað, er aðrir eiga. Hórazíus hefir hjer kráku eða krákukind (á lat.*

fegurð, og verði svo að athlægi. Hvað ræðst þú sjálfur í? hvað blóðbergi[25] er það, er þú flögrar kviklega um? Þú ert eigi litlu viti gæddur, og það hefir eigi vanrækt verið, svo að það sje óþýðlegt og ljótlega rúfið. Hvort[26] sem þú liðkar túngutak þitt, svo að þú megir mál flytja, eða þú býr þig undir að leiðbeina[27]
20—24.

---

cornicula), *þar er Esópus hefir krákubróður, og notar Hórazíus sögu þessa nokkuð á annan veg, en Esópus hefir gjört; Hórazíus vill sýna, að það ágæti sje stopalt, er skáld eða rithöfundar fá með því, að taka frá öðrum skáldum eða öðrum rithöfundum.*

[25]) *hvað blóðbergi er það, er* osfrv.? *Hórazíus berr hjer, sem optar, skáld saman við býflugu, er flögrar um blómgrös, og sýgur safa úr þeim til hunángsgjörðar.*

[26]) *Hvort sem þú liðkar túngutak þitt, svo að* osfrv. *Með orðum þessum bendir Hórazíus á, að vera kunni, að Július Flórus, er brjef þetta er til, búi sig undir málaflutníng. — Höfuðsýslanir Rómverja voru fyrst framan af hernaður og akuryrkja; það var og eitt einkennilegt við ena fornu Rómverja, að þeir voru siðsemdarmenn miklir og stjórnsamir; þar af kom það, að þeir gáðu þess vandlega, að alt færi skipulega fram hjá sjer; því var og það, að þeir lögðu mikla stund á, að vanda vel lög sín og dóma og dómgjörðir, og þar af kom það enn, að margir úngir menn leituðu sjer frama með málaflutníngi, og er þess opt getið, en þó þótti miklu betur sama, að halda vörnum uppi fyrir menn, en sækja þá.*

[27]) *að leiðbeina mönnum í lögum. Enir fornu Rómverjar höfðu enga embættaskóla, eða með öðrum orðum, engar þær stofnanir, þar er úngir menn næmi, það er nú þykir nema þurfa, svo að menn fái gegnt ýmissum alþjóðlegum sýslunum. Úngir menn fengu eins konar almenna mentun, á þann hátt er verða mátti eptir vilja og viðleitni þeirra manna, er að þeim stóðu, eða eptir vilja og viðleitni sjálfra þeirra, svo og eptir ýmissum öðrum atvikum; síðan, er menn höfðu fengið fullan aldur, og eigi var neitt sjerstaklegt til fyrirstöðu, fengu menn embætti. Af þessu fyrirkomulagi leiddi, að marga vantaði þá þekkíng, er þurfti í stöðu þeirra, og gætti þess einkum hjá þeim mönnum, er fóru með lög og dóma; komu þá upp eins konar menn, er kyntu sjer öðrum fremur lög og landsrjett, og leituðu menn ráða hjá þeim í því, er efasamt þótti; voru þessir menn kallaðir lögskýrendur (á lat.* juris consulti, *og* juris prudentes, *og tómt:* prudentes), *og þótti jafnvel engi vansæmd, þótt embættismenn spyrðist fyrir hjá slíkum mönnum. — Hórazíus gjörir hjer ráð fyrir að vera kunni, að kunníngi sinn búi sig undir að veita slíkar lagaskýríngar.*

mönnum í lögum[28] borgmanna, eða þú semur þýðleg ljóðmæli, þá mant þú manna fyrstur hljóta[29] að launum vafníngsviðinn[30], 24—25.

[28]) *lög borgmanna (í latínunni hjá Hórazi:* civica jura), *það eru þau lög, er gánga alment meðal borgmanna (eða borgara), eða með öðrum orðum: þau lög, er gánga alment manna á milli.*

[29]) *hljóta að launum vafníngsviðinn, er* osfrv. *Það var ein af siðvenjum Grikkja og Rómverja, að þeir gáfu þeim mönnum, er þeir vildu sýna einhvern einkannlegan sóma, höfuðsveiga eða höfuðhríngi af ýmissum laufblaðategundum, eða blómum, eða mjóviði, eða og af gulli; svo fengu t. a. m. þeir menn, er höfðu hlotið ágætan sigur, og áttu sigurhelgi sína, höfuðsveiga af lárviðarblöðum, eða höfuðhríngi af gulli; þess er og getið hjer áður (í 26. skýr. við fyrsta brjefið, á 13. blaðs.), að þeir menn fengu sigursveig á höfuð, er hlutu sigur í enum ólympsku leikum; skáld fengu og opt höfuðsveiga af viðarlaufum, eða blómum, eða mjóviði; það var og opt, að menn höfðu sveiga af viðarlaufum, eða blómum, eða mjóviði á höfði sjer, þá er þeir sátu að mat eða við drykk. Hjer er gjört ráð fyrir, að sá maður, er vel þykir kveða, fái höfuðsveig af vafníngsviði (á lat.* hedera), *en sá viður var helgaður víngoðinu Bakkusi.*

[30]) a, *vafníngsviður. Svo er hjer kölluð mjóviðartegund sú, er fornir Latínumenn kalla hedera, en Grikkir* κισσός *(og* κιττός*), Þjóðverjar Epheu, og danskir menn Vedbend (eða* Vedbende), *en í bókum síðari grasfræðínga er viður þessi venjulega kallaður hedera helix. — Það er eðli viðar þessa, að hann vefur sig um það, er nær honum er, og því er hann hjer kallaður vafníngsviður, og fyrir því var hann og hafður í hársveiga eða höfuðsveiga slíka sem þá, er Hórazíus talar hjer um; samanb. næstu skýríng hjer á undan.*

b, *Sumir Íslendíngar hafa kallað við þenna umfeðmíngsgras, en svo heitir gras það, er fornir Latínumenn kalla vicia, Þjóðverjar Wieke, danskir menn Vikke, en þó einkum sú tegund grass þessa, er síðari grasfræðíngar kalla í latínumáli sínu: vicia craeea; samanb. Hornemanns Plantelære, 3. útg., 1. Deel, blaðs. 768, 4. tölulið, og Fèlagsritin eldri, 1. bindini, 9. og 3. blaðs.* (orðin umfeðmíngsgras og flækja).

c, *Í norrænum bókum (Snorraeddu, öðru bindi, blaðs. 483, fyrra dálki, efst, og blaðs. 566, fyrra dálki miðjum; í þætti af kóngssyni og kóngsdóttur —* í Sýnisbók Konráðs Gíslasonar — *blaðs. 431, 25. lín., og Strengleikum, 13. strengleik, Geitarlaufi, blaðs. 66) kemur fyrir fornt orð: viðvindill, og lætur Sveinbjörn Egilsson í Skáldamálsbók sinni* (Lexicon poëticum), *við orðið* viðvindill, *það orð vera sama sem hedera helix í latínumáli enna síðari grasfræðínga, og Vedbende að dönsku máli, en það er*

er þeim manni er veittur, er sigur hlotnast. Ef þú mættir skiljast við kaldar[31] umbúðir áhyggnanna, þá mundir þú leita þángað, er himnesk speki leiddi þig. Vjer skulum, hvort sem vjer eigum mikið undir oss eða lítið, stunda þetta og leggja kapp á það, ef vjer viljum kærir vera ættborgu[32] vorri og sjálfum oss. Þú
25—30.

---

*vangát, því að viðvindill er smáviðartegund sú, er Danir kalla Vibende, og Norðmenn Vivendel, en að latínumáli síðari grasfræðínga er viðartegund sjá kölluð periclymenum; samanb. Hornem. Plantel., 1. Deel, blaðs. 267, 1. tölulið.*

[31]) *kaldar umbúðir áhyggnanna. Áhyggjur þær, er Hórazíus talar hjer um, eru líklega ýmsar laklegar girndir eða tilhneigíngar, er Hórazíusi hefir þótt á brydda hjá kunníngja sínum, og ætla flestir, að hjer sje einkum talað um metorðagirnd eða fjegirnd, eða um hvorttveggja; þó verður eigi glögglega sjeð á brjefi þessu sjálfu, að Hórazíus beri kunníngja sínum annað á brýn, en að honum hefir þótt Flórus heldur örr eða keppinn í skapi; samanb. 34. skýr. hjer á eptir. Lækníngar þær, er við þykja eiga áhyggjum þessum eða girndum, hverjar sem þær eru, eða með öðrum orðum, tilraunir þær, er gjörvar eru til að fullnægja slíkum girndum, kallar Hórazíus hjer umbúðir slíkra áhyggna eða girnda; svo mega t. a. m. embætti eða metorð þykja meinabót við metorðagirnd, og auðlegð eða auðsafn við fjegirnd, en Hórazíus kallar slíkar umbúðir eða lækníngar eða fullnægíngar kaldar, af því að honum þykja þær hlýja lítið sálunni, eða með öðrum orðum, bæta lítið andarmein mannsins.*

[32]) *ættborg. Í latínunni stendur patria, og er það orð ýmist haft í latínumáli, þar er vjer höfum að voru máli ættland eða ættborg. Hjer þykir líklegt, að orðið sje heldur haft í enni síðari merkíngunni, því að þá er Grikkir og Rómverjar tala um einhver almenn málefni, eru þeir miklu optar vanir að hafa orð og orðatiltæki, er eiga við þá borg, er í er talað eða um er talað, heldur en slík orð, er eiga við landið alt; svo hafa Aþenumenn t. a. m. orðið πατρίς, er á þeirra túngu er sama sem patria á túngu Latínumanna, miklu optar um Aþenuborg (á gr. Ἀθῆναι), en um Aþenuborgarland (á gr. Ἀττική); veldur það þessu, að þjóðfjelög fornra manna voru venjulega sem inni lukt í borg þeirri, er höfuðbygðin var í, en miklu síður gætti þeirra manna, er utan borgar voru. Nú á dögum er venjulega öðru vís orðum hagað, og hafa menn optast, er menn tala um almenn málefni, þau orð eða orðatiltæki, er eiga við landið alt, er í er talað eða um er talað, og miða menn nú orð sín síður eða sjaldnar við einhvern einstakan stað eða einhverja einstaka borg, og kemur það af því, að þjóðfjelag hvers*

átt og að rita mjer, hvort þjer er svo ant um Múnazíus[33], sem vera byrjar, eða hvort illa grær um vinfengið ykkar í milli, og það rennur til einskis saman og rýfst aptur; en hvort sem er, að heitt blóð[34], eða reynsluleysi, verður yður að meini, með því að svíri yðvarr er óbeygður og þjer því ótillátsamir, þá er yður það að segja, að hvar sem þjer alið aldur yðvarn, þjer er betri eruð en svo, að yður sami að rjúfa bróðursáttmál yðvart, þá er heitkvíga[35] á beit hjá mjer, og hefi eg hana til blóts ætlað, þá er þjer komið heim aptur.

30—36.

---

*ríkis er nú eigi sem inni lukt í neinni einni borg, heldur sem dreift um ríkið alt eða landið alt.*

[33]) *Múnazíus. Sumir ætla, að Múnazíus þessi sje sami maðurinn, sem sá, er sjaunda kvæði ennar fyrstu bókar af Harpkvæðum Hórazíusar er til, og er þar kallaður Plankus, og ætla menn þá, að Múnazíus þessi Plankus hafi verið sonur Lúsíusar Múnazíusar Plankusar, er var ræðismaður ár. 42 fyr. Kristsb., það ár, er bardaginn stóð við Filipsborg; aðrir ætla, að Plankus sá, er sjaunda brjef ennar fyrstu bókar Harpkvæðanna er til, hafi verið faðir Múnazíusar þessa, er hjer er um talað. — Af orðum Hórazíusar þykir ráða mega, að einhverr rígur hafi verið milli þeirra Júlíusar Flórusar og Múnazíusar.*

[34]) *heitt blóð, eða reynsluleysi,* osfrv. *Af orðum þessum er að sjá, að Hórazi hafi þótt þeir Flórus og Múnazíus heldur örlyndir og keppnir, og lítt reyndir í heiminum; samanb. 31. skýr. hjer að framan.*

[35]) *heitkvíga.* a, *Það var siður í fornöld, að menn hjetu guðunum einhverri líkamlegri fórn eða gjöf, er menn báðu þá greiða úr einhverjum vanda, er menn sjálfir, eða aðrir, voru í staddir, eða að láta einhvern hlut fá góðan enda. Svo er t. a. m. í fimta kvæði Harpkvæðanna, fjórum síðustu vísuorðunum, bent á, að maður, er í sjávarháska er staddur, heitur skriptspjaldi fyrir frelsi sitt, og hengir vot sjóklæði sín upp í helgu hofi, til þakklætis við Neptún sæguð. Hjer að framan er þess og getið (í 19. skýríngu við annað brjef bókar þessar, á 39. blaðs.), að þá er Grikkir fóru til Tróju, urðu þeir veðurteptir í Ális hafnborg, af því að Agamemnon, yfirkonúngur Grikkjahers, hafði skotið hind, er Díana veiðigyðja átti; hjet þá Agamemnon, að fórna gyðjunni því er fegurst fæddist það ár í ríki sínu, og sagði Kalkas spámaður, að það væri dóttir Agamemnons, Ífígenía, og rjeð Kalkas Agamemnoni, að fórna Ífígeníu, og þótti sem þá mundi byrr batna (samanb. Rit Síserós um skyldur*

## Fjórða brjef[1]

til

*Albíusar Tíbúlls*[2].

Efni brjefsins.

*Hórazíus bendir fyrst á, að Albíus Tíbúll dæmi vel eða hreinskilnislega um kvæði sín. Því næst spyrr Hórazíus, hvað*

---

*manna, 3. þátt, 25. kap., 95. gr., og harmsagnakvæðið Ífígeníu í Tárlandi, eptir Evripídes skáld, 17. vísuorð, og þar í kríng).*

b, *Í fornsögum vorum er þess og t. a. m. getið, að þá er Hákon Hlaðajarl barðist við Jómsvíkínga á Hjörúngavogi á Sunnmæri í Norvegi (ár. 995), og sá sitt óvænna, skoraði hann á fulltrúa sinn, Þorgerði Hörðatröll, og bauð henni að þiggja af sjer ýmsa hluti í blótskap, en hún vill fyrst ekki þiggja af því, er jarl býðr henni; of síðir þá Þorgerður þó boð jarls, og kaus son hans Erlíng, er var sjau vetra gamall, og var honum síðan blótið, og fengu þeir Hákon jarl nú sigrazt á Jómsvíkíngum; samanb. Jómsvíkíngasögu* (í Fornmannasögum, 11. bindi), *44. kap., blaðs. 133,* osfrv. *Svo er og í Biskupasögum vorum, að menn heita opt til bjargar eða fulltíngs á byskupa, t. a. m. Jón byskup Ögmundarson, Þorlák byskup Þórhallsson, og Guðmund byskup Arason; og eru einhvers konar eptirstöðvar af þessum áheitasið enn hjá oss, er menn, til dæmis að taka, heita kirkjum einhverri gjöf, ef menn losist úr einhverjum vanda, eða eitthvað það verður, er menn vilja eða óska.*

c, *Hjer getur Hórazíus þess, að hann hafi kvígu á beit (eða fóðri), og ætli hana til blóts (eða fórnar), þá er þeir vinir hans koma heim aptur.*

[1]) *Brjef þetta er að ætlun sumra manna ritað ár. 20 fyr. Kristsb.*

[2]) *Albíus Tíbúll, er brjef þetta er til kveðið, er eð alkunna rómverska tvíhenduskáld, er vanalega er kallaður Tíbúll. Oss er eigi kunnugt, nær Tíbúll var fæddur, nje nær hann dó, en þó þykir líklegt, að hann hafi fæðzt nær árinu 54 fyr. Kristsb., og dáið ár. 19 eða því nær, um sama leyti sem Virgill dó, eða skömmu síðar; ráða menn það af tveim tvíhendum, er til eru eptir Dómizíus skáld Marsus, er menn ætla að uppi hafi verið á ríkisstjórnarárum Ágústs keisara; í tvíhendum þessum segir svo: þig hefir og, Tíbúll, enn ómjúki dauði á úngum aldri fylgjast látið með Virgli til Elýsvalla, svo að eigi væri sá, er annaðtveggja mætti með harmhendum gráta þýðlegar ástir, eða með hraustmannlegum bragliðum kveða um konúnglegan herskap (á lat.:* Te qvoqve Virgilio comitem non aeqva, Tibulle, mors juvenem campos misit in Elysios, ne foret, aut elegis molles qvi fleret amores, aut caneret forti regia bella pede); *samanb. Brot Latínskra Skálda eptir Veichert, 264. blaðs. neðst.*

*Tíbúll hafist að, og lofar andalega hæfilegleika Tíbúlls og líkamleg kjör hans. Þá kemur upphvatníng til Tíbúlls, að hugsa um það, að hverr dagurinn, er yfir oss upp rennur, megi vera vorr enn síðasti; og að lokum segir Hórazíus, að Tíbúll geti komið til sín, þá er hann fýsir að sjá priflegan pilt, en Hóraz var sjálfur feitlaginn.*

Albíus, þú enn hreinskilni dómari[3] enna hversdagslegu ljóðmæla[4] minna, hvað skal eg segja að þú gjörir nú í Peðsbygð[5]? skal eg segja, að þú semjir eitthvað það, er beri af ljóðmælum 1—3.

---

*Tíbúll var í miklum kærleikum við enn nafnkenda ágætismann, Markus Valeríus Messalla Korvínus, er var mælskumaður og sagnfræðingur, og ræðismaður ár. 31. Tíbúll og Hórazíus voru og vinir, sem af brjefi þessu má ráða, og hefir Hórazíus auk þessa brjefs ort til hans 33. kvæði ennar fyrstu bókar Harpkvæðanna. Kvæði þau, er menn hafa eignað Tíbúlli, eru tvíhendur í fjórum bókum.* Fyrsta *kvæði ennar fjórðu bókar er lofkvæði um Messalla með sexliðuðum hætti, en eigi tvíhendum. Öllum berr saman um, að Tíbúll muni ort hafa fyrstu tvær bækurnar; sumum þykir óvíst, hvort hann hafi ort fjórðu bókina, og flestir munu ætla, að hann hafi eigi ort þriðju bókina.*

[3]) *þú enn hreinskilni dómari* osfrv. *Hórazíus bendir eigi sjaldan á, að honum þóttu kvæði sín verða fyrir allhörðum dómum hjá mönnum, og einkum þóttu honum illgjarnir öfundarmenn sínir rýra þau meir, en þau áttu skilið; hjer liggur í orðum Hórazíusar, að Tíbúll hafi dæmt hreinskilnislega um kvæði Hórazíusar, en það er með öðrum orðum, að Tíbúll hafi sagt um þau það, er segja bar, en eigi rýrt þau af öfundsamlegri illkvittni.*

[4]) *hversdagleg ljóðmæli (á lat.* sermones). *Svo kallar Hórazíus hjer kýmikvæði sín (eða satýrur), og ætla sumir, að þau kvæði hafi eigi algjörlega birzt mönnum í heilu lagi, fyrr en um þessar mundir. Ljóðmæli þessi eru kölluð hversdagleg, af því að málið í þeim var hversdagslegt, eða svo sem þá er maður talar við mann, en eigi svo vandað eða svo tigulegt, sem í sumum öðrum kveðskap.*

[5]) *Peðsbygð. Peð (á lat.* Pedum) *var borg ein í Latlandi enu forna; hún lá við Laviksveg* (Via Lavicana), *nær tveim jarðmílum í austsuður frá Rómi. Borg þessi var eydd eða horfin á dögum Hórazíuss, en þó mátti tala um bygðarlagið, þar er borgin hafði áður staðið, og kallar Hórazíus það hjer Peðsbygð* (regio Pedana). *Tíbúll átti búgarð þar nær, er Peð hafði staðið, og því hagar Hórazíus hjer svo orðum sínum, sem hann gjörir.*

Kassíusar[6] af Pörmu[7], eða að þú reikir[8] þegjandi um heilnæma skóga, og íhugir sjerhvað það, er vitrum manni og góðum er samboðið? Þú vart[9] eigi líkamur án skynsamlegs vits; guðirnir hafa gætt þig fegurð, og veitt þjer auðlegð, og kunnáttu hennar að njóta. Hvers skyli umhyggjusöm fóstra framar óska þeim sínum ástúðlegum fóstursyni, er vel er viti borinn, og getur komið orðum að því, er honum býr í brjósti, og getur að hljóta gnóglega mannhylli, gott mannorð, gott heilsufar og þokkalegan atbúnað, og skortir eigi fje í pússi? Hvort sem þú lifir við von og áhyggjur, eða við ótta og reiði, þá skalt þú ætla, að hverr dagurinn, er upp rennur yfir þjer, sje þinn enn síðasti; hver sú

3—13.

---

6) *Kassíus sá, er hjer er um talað, var einn af þeim mönnum, er voru í atförinni við Sesar. Ágústus ljet síðan vega hann, ár. 30 fyr. Kristsb., og er þess getið, að Kassíus þessi hafi verið síðast veginn af þeim samsærismönnum. Kassíus þessi þótti allgott skáld, en ekki er til af kvæðum hans. — Annarr maður, en Kassíus þessi, var Kajus Kassíus Lóngínus, sá er var annarr af höfuðoddvitunum í samsærinu móti Sesar, og ljet leysíngja einn höggva höfuð af sjer, þá er hann ætlaði, að mótstöðumenn þeirra Brútusar hefði unnið sigur í bardaganum við Filipsborg (ár. 42).*

7) *Parma, borg á Ítalalandi; hún hefir enn haldið nafni sínu, og liggur í þeim hlut landsins, er fornmenn kölluðu Gallaland fyrir sunnan Padusfljót* (Cispadana Gallia), *en nú er borg þessi höfuðborg hertogadæmis þess, er kent er við borgina, og kallað hertogadæmið Parma; það liggur nær í miðjum suðurhlut Uppítalíu, eða Norðuritalíu, eptir því sem nú er kallað.*

8) *að reika þegjandi um heilnæma skóga, það er með öðrum orðum, að vera á gángi í skógum úti, og hugsa þar um heimspekileg efni, svo sem t. a. m. Akademíngum var títt, að gánga eða reika um skóg (eða lund) Akademuss; samanb. skýríng við annað brjef annarrar bókar, 45. vísuorð.*

9) *þú vart eigi* (*á lat.:* non eras) osfrv. *Hórazíus miðar hjer orð sín við þann tíma, er þeir Tíbúll höfðu áður saman verið, og hefir Hóraz hjer því þálegan tíma, þar er vjer mundum heldur hafa núlegan tíma að voru máli* (þú ert osfrv.); *þó komumst vjer eigi sjaldan líkt því að orði, sem hjer er gjört, er vjer t. a. m. ritum einhverjum manni, er annars staðar er en vjer, en hefir áður verið, þar er vjer höfum verið; þá getum vjer t. a. m. sagt: þú vart fullvel viti borinn, eða: þjer fór flest höndulega, og fleira því um líkt.*

stund, er menn gjöra sjer eigi von um, man þægileg verða, er hún kemur yfir oss. Þá er þú vilt hlæja að grís af hjörð Epíkúrs[10], getur þú komið til mín, og mant þú þá sjá, að eg em vel við hold, og að húð mín hefir vel hirð verið, svo að á mig stirnir.

## Fimta brjef[1]
til
*Torkvatusar.*

Efni brjefsins.

*Hórazíus býður Torkvatusi til aptanverðar* (coena), *og segir, að alt sje við búið; síðan bendir Hórazíus á, að fje sje til*

---

[10]) *Epíkúr var einn af enum fornu grísku heimspekíngum; hann var fæddur í Aþenuborg, og lifði þar mestan hlut æfi sinnar, og dó þar; hann var uppi á síðara hlut fjórðu aldar og fyrra hlut þriðju aldar fyr. Kristsb. (frá ár. 341 til árs. 270). Epíkúr hjelt fram smáagnafræðinni, eða, með öðrum orðum, kenníngu þeirri, að alt væri orðið til við hreifíng eins konar smáagna* (atomi), *er færðust um ena tómu loptauðn; samfara kenníngu þessi var, að guðirnir lifði í algjörri kyrð og næði, og ekki skerði ró þeirra* (ἀταραξία). *Enn kendi Epíkúr, að sæla mannsins væri í því fólgin, að hann nyti stöðugrar unaðsemdar* (ἡδονή), *og áttu menn jafnvel stundum eptir kenníngu Epíkúrs, að hafna skammvinnum stundarfögnuði, að þeir fengi því betur notið sanns unaðar óhaggaðs. Kenníng Epíkúrs skildu margir svo, að menn ætti að eins að leita munaðar í lífinu, og að æðsta sæla mannsins væri, að lifa í hóglífi og sællífi. Hjer talar Hórazíus um lítinn grís af hjörð Epíkúrs, og kallar Hórazíus svo sjálfan sig, af því að hann var lítill vexti, en feitur mjög.*

[1]) *Fimta brjef. Brjef þetta er að ætlan manna ritað ár. 20 fyr. Kristsb.; samanb. 5. skýríng hjer á eptir.*

[2]) a, *Torkvatus þessi hjet tveim nöfnum Mallíus Torkvatus, og ætla menn, að það sje sami maðurinn sem sá, er sjaunda kvæði ennar fjórðu bókar Harpkvæðanna er til. Torkvatus þessi þótti heldur góður mælskumaður; samanb. 15. skýríng hjer á eptir.*

b, *Torkvatus er upphaflega einkunnarorð, og merkir eiginlega þann mann, er hefir men um háls, og hlaut það viðurnefni fyrstur manna Títus Manlíus Lúsíusson Álssonar. Lúsíus Manlíus Álsson, faðir Títusar þessa, var alvaldsstjóri gjörr til naglfestíngar* (clavi figendi causa) *ár. 363 fyr. Kristsb., en er*

*þess manninum gefið, að hann njóti þess; kveðst Hórazíus nú munu völrva sig óslækilega, og lofar mjög áhrif þau, er vínið hefir; því næst segir Hórazíus, að sjer byrji að sjá svo um, að öllu sje vel til hagað í samkvæminu, og nefnir nú fáeina gesti, er hann muni við hafa auk Torkvatusar, en getur þess þó, að fnyksamt verði í samkvæmum, ef þröngt er setið. Að endíngu er ný hvatníng til Torkvatusar að koma.*

---

*Lúsíus hafði lokið naglfestíngu, vildi hann lengja einvaldsdæmi sitt, og ná í herstjórn mót Hernum, og gekk hann þá fast mjög að úngum mönnum að gánga í herþjónustu, og var hann fyrir því kallaður Lúsíus Manlíus enn harðráði* (imperiosus), *en nú risu alþýðustjórar upp í mót Lúsíusi, og varð hann þá að leggja niður alvaldsdæmi sitt (samanb. Liv. 7, 3). Næsta ár sótti alþýðustjórinn, Markus Pompóníus, Lúsíus Manlíus um það, að hann hefði haldið of lengi alvaldsdæmi sínu, svo og um það, að hann hefði sýnt of mikla harðneskju í liðsafnaði, og enn um það eð þriðja, að hann ljeti son sinn, er Títus hjet, og Lúsíusi þótti vera heldur orðstirður* (infacundior et lingva impromptus), *ala aldur sinn við sveitaatbúnað utan borgar, en reyndi eigi að manna hann og menta (samanb. Sís. um skyld. 3, 31, 112, og Liv. 7, 4). Allir voru nú afar reiðir Lúsíusi í borginni, en nú er að segja frá Títusi syni hans; hann kom einhvern morgun til húsa Pompóníuss alþýðustjóra, og kvaðst vilja tala við hann einslega, og ætluðu menn, að Títus hefði einhverjar sakir að bera á föður sinn, en er þeir Pompóníus og Títus voru einir orðnir, brá Títus sverði (eða kníf), er hann var gyrður, og hótaði Pompóníusi dauða, ef hann slepti eigi málsókn við föður sinn. Við þetta datt niður málið, og varð þetta Títusi Manlíusi fyrst til ágætis (samanb. Sís. um skyld., á sama stað, sem fyrr, og Liv., sömu bók, sem fyrr, 5. kap.). Ári enn síðar (361) áttu Rómverjar í hernaði við Tíbúrsmenn, og feldi Títus Manlíus þá gallneskan mann einn í einvígi, og tók men* (torqvis) *af hálsi honum, og setti um háls sjálfum sjer, og fekk hann þar af viðurnefni það, að hann var menberi* (torqvatus) *kallaður (samanb. Liv. 7. þátt, 9. og 10. kap.). Síðar varð Títus þessi Manlíus menberi mjög ágætur fyrir sigur sinn yfir Latlendíngum og Vallendíngum ár. 340 (við rætur eldfjallsins Vesúvs á Valllandi), og þótti Títus Manlíus þá sýna af sjer harðlyndi mikið, en þar með og rómverska siðvendi, með því að hann ljet þá drepa son sinn, úngan mann efnilegan, og hafði son hans sá það til saka, að hann hafði fyrlátið stöðu sína, og gengið mót einum af fjandmönnum Rómverja, er ljet mjög stærilega, en ræðismenn höfðu áður bannað, að nokkurr mætti hverfa af þeim stað, er hann var á settur (samanb. Liv. 8. þátt., 6. og 7. kap.).*

Ef þu getur af þjer fengið, að koma í samkvæmi, og halla[3] þjer niður á borðbekki[4] eptir Arkías[5], og þjer þykir ekki að, þótt þú snæðir hvers konar kálmeti, sem er, og þótt skál sú sje lítil, er þú af matast, þá gjöri eg ráð fyrir, að þú komir, Torkvatus, um sólarfall[6]. Þú mant fá vín að drekka, er 1—4.

---

[3]) *halla þjer niður á borðbekki* osfrv. *Rómverjar voru eigi vanir að matast sitjandi sem vjer, heldur hölluðu þeir sjer venjulega á vinstri hlið á borðbekki sína, og snæddu svo; samanb. 49. skýríng við fyrsta brjef bókar þessar, á 23. blaðs.*

[4]) *borðbekkur, á lat.* lectus. *Þess er áður getið (samanb. næstu skýríng hjer á undan), að Rómverjar mötuðust venjulega hálfliggjandi, og eru til myndir frá fornöld, þar er á sjest matborð, og einn bekkur við borðið, og þrír menn hálfliggjandi á bekknum. En er menn höfðu gesti, og fleiri menn mötuðust senn en svo, að einn bekkur væri gnógur, er venjulega talað um borð með þrem bekkjum, og þrjá menn, eða þrjú leg, á hverjum bekk. Stóðu þá tveir bekkir tveim megin við borðið, hvorr bekkurinn gegnt öðrum, en þriðji bekkurinn stóð við annan enda borðsins, en autt var fyrir öðrum borðsenda, og gekk þar að sveinn sá, er um beina gekk; samanb. enn fremur skýríng við 10. og 11. vísuorð áttjánda brjefs bókar þessar, þar er talað er um enn neðsta bekk* (imus lectus).

[5]) *Arkías sá, er hjer er um talað, er að eins kunnur af þessum stað; hann hefir líklega verið trjesmiður, og er svo að sjá af sambandinu hjer, sem hann hafi þótt heldur einfaldlegur eða laklegur smiður.*

[6]) *um sólarfall. Rómverjar höfðu venjulega þrjár höfuðmáltíðir, — 1) árbít eða morgunverð (á lat.* jentaculum); *— 2) dagverð eða hádegismat* (prandium); *og — 3) nónverð eða aptansverð eða náttverð* (coena). *Árbít tóku Rómverjar, þá er þeir risu úr rekkju (nær miðjum morgni), eða litlu síðar; dagverð eða hádegismat tóku þeir nær miðjum degi, eða þó heldur fyrir miðjan dag en eptir; til nónverðar eða aptanverðar gengu þeir nær þriðju stundu dags, eða nokkuru síðar. Hjer gjörir Hórazíus ráð fyrir, að Torkvatus komi um sólarlag eða undir sólarlag* (supremo sole), *og ef brjef þetta er ritið í einhverjum sumarmánaðanna, júnímánaði, eða júlímánaði, eða ágústmánaði (samanb. 15. skýr. hjer á eptir), þá þykir heldur seint til matar tekið, því að sólarlag er í Rómi í júlímánaði á fyrra hlut áttu stundar eptir miðjan dag, en í ágústmánaði á síðara hlut sjaundu stundar, og ætla menn því, að Hóraz hafi fyrir þá sök haft matartíma svo seint, að Torkvatus tefðist sem minst frá sýslunum sínum.*

*Nær sól gengur til viðar í Reykjavík á hverjum tíma árs,*

helt[7] hefir verið á geymiker[8] milli ennar mýrlendu Mintúrns-

4—5.

*má sjá í almanökum vorum; svo er til að mynda, ef hjer væri talað um fæðíngardag Júlíusar Sesars, 12. dag júlímánaðar, þá er sólsetur þann dag í Rómi (eptir reikníngum, er vjer höfum í höndum) 29 mínútum eptir sjaundu stund, en í almanaki voru (ár. 1862) má sjá, að sólsetur er 9. dag júlímánaðar í Reykjavík 10 mínútum eptir 10. stund, og þá lítið eitt fyrr 12. dag júlímánaðar.*

[7]) *að hella á geymiker (í latínunni* diffundere). *Það var títt við víngjörð hjá Rómverjum, að þá er þeir höfðu troðið vínberin* (uvas calcare), *og fergt af þeim vínsafann og síað hann* (percolare), *þá var enn nýi vínlögur látinn á tunnur eða lagarföt* (dolia, cupae *og* seriae), *og látinn þar vera, til þess er hann tók gerð; því næst var eð nýja vín* (mustum) *afdreggjað* (defaecare), *og helt á geymiker* (amphorae, cadi *og* testae). *Á geymikerin voru sett nöfn manna þeirra, er voru ræðismenn það ár, er vínið var kerað, og mátti síðar þar af sjá, hve vínið var gamalt. Geymikerin stóðu í vínklefum* (apothecae), *og voru vínklefar þeir á loptum uppi, en eigi í jarðhúsum (eða kjöllurum), sem nú er títt. Eptir því sem ný geymiker bættust við í vínhús eða vínklefa, eptir því urðu en eldri kerin innar, og með því að vín þykja venjulega því betri, sem þau eru eldri, þá er það stundum, að talað er um vín, er innarlega er, og er það eð sama, sem talað sje um gott vín (samanb. Harpkvæði Hórazíuss, aðra bók, þriðja kvæði, 8. vísuorð:* interiore nota Falerni osfrv.). *Einna bezt vín hjá Rómverjum þóttu þau vín vera, er þeir fengu — 1) af Sekúbsakri* (ager Caecubus, *Eðliss. Plin. eldr. 2, 95, 96, 209), en vínekra sú lá í Árúnkafylki í Latlandsauka, niður undir Sekúbsflóa, fyrir austan Terrasínu, og í suður frá Fúndsborg. — 2) af Falernsakri* (Falernus ager, *Eðliss. Plin. eldr. 14, 6, 8, 62), en sú vínekra lá í norðvesturhlut Valllands, í landnorður undan Massiksfjalli. Hjer næst nefnum vjer — 3) Kalborgarvín, eða vín það, er fekst af bygðinni nær Kalborg* (Cales) *í norðvesturhlut Valllands. Þá nefnum vjer — 4) Formborgarvín, er fekst af hálsum og hæðum við Formborg* (Formiae), *inst við Kajetuflóa, í norður frá Kajetuborg. Því næst nefnum vjer — 5) Massiksvín; það fekst af Massiksfjalli* (Massicus mons, *Liv. 22. þátt., 14. kap., og tómt:* Massicus); *og enn höfðu Rómverjar margar aðrar góðar víntegundir, t. a. m. Hvítafellsvín (eða Hvítborgarvín:* Albanum vinum), *Fúndsborgarvín, Setborgarvín og Súrrentsvín. Hjer er talað um vín, er fengizt hefir af vínekru milli Mintúrnsborgar og Petríns, eða með öðrum orðum, á landamærum Latlandsauka og*

[8]) *geymiker. Svo eru hjer kölluð ker þau* (amphorae, cadi *og* testae), *er vín var á geymt; samanb. næstu skýríng hjer á undan.*

borgar[9] og Petríns[10] við Sínúessu[11], og var það gjört það ár, er Tárus[12] var ræðismaður annað sinn. Ef þú hefir eitthvað

5—6.

---

*Valllands, og man það vín hafa þótt eptir eðli sínu heldur gott, en þó eigi af enum beztu víntegundum; svo er og, ef litið er á aldur víns þessa, er hjer er um talað, og brjef þetta er ritið ár. 20 fyr. Kristsb., en Tárus sá, er hjer er nefndur, var ræðismaður annað sinn ár. 26 fyr. Kristsb., þá hefir vín þetta eigi verið örúngt, en þó og eigi gamalt, og hefir Hórazíus hjer, sem optar, boðið kunníngja sínum til víns, er eigi hefir dýrlegt verið, en þó þótt vel drekkanda. Elztu vín, er Rómverjar tala um, voru nær tveggja hundraða ára; samanb. Eðlissögu Plíníusar ens eldra, 14, 4, 6, 55; í Norðurálfunni er nú sumstaðar talað um vín, er eru tveggja hundraða ára og meira.*

[9]) *Mintúrnsborg lá niður við sjó í Árúnkafylki (eða Latlandsauka), báðum megin við Lírármynni; nær borg þessi var allmýrlent, og duldist enn nafnkendi Maríus í mýrlendi því (ár. 88 fyr. Kristsb.), þá er hann vildi forða sjer fyrir mönnum þeim, er Súlla hafði sent til höfuðs honum.*

[10]) *Petrín. Í latínunni stendur hjer Petrinum í andlagsfalli, og ætla sumir, að nefnifall orðs þessa sje Petrinus, og að Petrínus hafi verið vínfjall eða vínekra, er lá nær Sínúessu; svo segir t. a. m. Jakob af Krúski í skýríngu sinni við stað þenna:* Petrinus mons est Sinuessanae civitati imminens, vel ager Sinuessae vicinus. *Í Brjefasafni Síserós og vina hans (sjetta flokki, nítjánda brjefi, fyrstu grein) stendur og Petrinum í andlagsfalli, í brjefi einu, er Sísero ritar vin sínum einum eða kunníngja, þeim er Lepta hjet, og ætla menn, að nefnifall þess orðs sje og Petrinum, sem andlagsfall (en eigi* Petrinus), *og þykir orðasambandið í brjefi Síserós til Leptu sýna, að Síseró tali þar um búgarð, er Lepta átti, en orð Síserós, er einkum eiga hjer við, eru þessi:* nec ea re Petrinum tuum deseram, nam et villa, et amoenitas illa commorationis est, non deversorii. *Enn ætla aðrir, að nefnifall beggja orðanna sje um, og að Petrín þetta hafi verið eins konar fjalllendi eða bygðarlag nær Sínúessu (eða upp undan henni norður á við eða norðvestur á við); en hvort sem nú nefnifall orðs þessa er us eða um, og hvað sem orð þetta merkir, þá þykir auðsætt, að það sje myndað af gríska orðinu petros* (klettur), *af því að grýtt hefir verið, þar er staður þessi var.*

[11]) *Sínúessa, borg ein, er lá syðst og austast í Latlandsauka (eða Latlandi enu nýja), milli Lírár og Voltúrnsár; við borg þessa voru landamæri Latlands alls og Valllands. Nafnið Sínúessa er líklega myndað af enu latínska nefniorði sinus (í merkíngunni: vik eða vík), og hefir borgin þá líklega fengið nafn sitt af því, að hún hefir legið nær vík einni (eða í vík einni).*

[12]) *Tárus þessi hjet öllum nöfnum Títus Statilíus Tárus;*

betra að bjóða, þá getur þú látið sækja það[13], eða lát mig að öðrum kosti ráða. Arinn minn hefir þegar lengi ljómað, svo og húsgögn mín, er fægð hafa verið og fáguð fyrir þína sök. Verp frá þjer hjegómlegum vonum og kappi um auðlegð, og hætt við mál Moskusar[14]. Á morgin er hátíðardagur í minníng þess, að Sesar[15] er fæddur, og þá getum vjer sofið, og því man oss
6—10.

---

*hann var einn af fulltíngsmönnum Ágústs keisara, og voru þeir báðir, Ágústus og Tárus, ræðismenn ár. 26 fyr. Kristsb., Ágústus eð átta sinn, en Tárus annað sinn (samanb. sjaundu skýríng hjer að framan). Eð fyrra sinn var Tárus ræðismaður ár. 37, og var hann þá kjörinn í stað Lúsíusar Kaniníusar Gallusar; hafði Kaniníus áður kjörinn verið til ræðismanns með Markusi Vipsaníusi Agrippu, en Kaniníus sagði af sjer embætti því, og varð Tárus þá ræðismaður í hans stað.*

[13]) *þá getur þú látið sækja það (í latínunni:* arcesse). *Hórazi farast hjer svo orð, sem svo megi vera, að gestur hans hafi eitthvað betra að bjóða, en Hóraz hefir, og gjörir Hóraz þá ráð fyrir, að Torkvatus geti látið sækja það heim til sjálfs síns; að öðrum kosti segir Hóraz, að Torkvatus verði að láta sjer það lynda, er honum boðið verður.*

[14]) *Moskus þessi hefir verið uppi á dögum Hórazíusar, og er sagt, að hann hafi verið frá Pergamsborg í Tevþrantshjeraði (í Mýsafylki); hann þótti góður mælskukennari* (rhetor), *en þess er getið, að hann var einhverju sinni sóttur um eiturbyrlan, og hjeldu þá vörn uppi fyrir hann tveir góðir mælskumenn, er þá voru uppi í Rómi, en það voru þeir Torkvatus sá, er brjef þetta er til, og enn nafnkendi Asiníus Pollíó.*

[15]) *Sesar. Sumir hafa ætlað, að hjer sje talað um fæðíng Júlíusar Sesars alvaldsstjóra, er fæddur var tólfta dag júlímánaðar, en menn vita eigi til, að afmælisdagur Sesars hafi verið helgur haldinn, eptir það er hann var veginn (ár. 44), og einkum þykir ólíklegt, að það hafi verið gjört nú (ár. 20), meira en tuttugu vetrum eptir andlát hans, og þess þó hvergi getið hjá skilríkum rithöfundum, að siður hafi verið það að gjöra. Aðrir hafa því ætlað, að hjer sje talað um fæðíng Sesars Oktavíans Ágústusar keisara, en hann var fæddur 23. dag septemberm., og þykir þá, sem eigi sje alls kostar eðlilegt, að tala hjer um sumarnótt; og því ætla enn aðrir, að hjer sje talað um fæðíng Kajusar Sesars, sonar þeirra Markusar Vipsaníusar Agrippu, og Júlíu Ágústsdóttur. Agrippa gekk að eiga Júlíu þessa sumarið 21, og er þess getið, að elzti sonur þeirra, Kajus (Sesar), hafi fæðzt árið eptir, og þykir eigi ólíklegt, að það hafi verið einhvern tíma um sumarið; þess er og getið, að á hafi verið kveðið,*

að ósekju leyfast að stytta sumarnóttina með vingjarnlegu hjali. Hvað skal mjer auðsæld, ef mjer leyfist eigi hennar að neyta? Sá maður, er sparr er af forsjá fyrir erfíngja sínum og of stríður, situr á bekk með vitskerðum manni; eg ætla að hefja drykkju, og taka að strá blómum[16], og hirða eigi, þótt eg verði þar fyrir jafnvel ráðlauss kallaður. Hvað ráðs tekur eigi víndrykkjan? hún lýkur það upp, er hulið er; hún lætur vonir manna rætast, og hrindur dáðlausum manni í bardaga út, og nemur braut byrði af hugsjúkri sálu, og kennir mönnum fleiri listir, en þeir áður kunnu. Hvern hafa eigi fleytifullir bikarar gjört vel orðfarinn? og hvern hafa þeir eigi gjört lausan og liðugan, þótt hann ætti við krappa fátækt að búa? Eg hefi mína sýslan, er eg em vel til fallinn, og eigi ófúss á, en það er að sjá svo um, að óþrifalegur randdúkur[17], 10—22.

---

*að nautablót skyldi jafnan hafa í minníng fæðíngar hans; samanb. Rómverjasögur eptir Díon Kassíus, 54. þátt, 8. kap. — Kajus þessi Sesar var síðar sendur til austurheims, á öðru ári ept. Kristsb., og setti hann þar Aríóbarsanes til ríkis í Armenalandi; síðan hvarf hann heim á leið aptur, en dó þá í Lýkafylki á Ásheimsskaga, á fjórða ári ept. Kristsb., og ætla sumir, að Livía, síðasta kona Ágústs, hafi valdið dauða hans. Tveim árum áður (eða á öðru ári ept. Kristsb.) hafði Lúsíus Sesar, annarr sonur þeirra Agrippu og Júlíu, sendur verið vestur til Spánar, og dó hann þá í Massilsborg á Galllandi, og varð brátt um hann; ljek þá og grunur á, að Livía hefði og valdið dauða hans, og þóttust menn vita, að Livía vildi ryðja á braut ættmönnum Ágústs, að hún fengi komið til stjórnar syni sjálfrar hennar, Tíberíusi.*

[16]) *að strá blómum. Með blómstráníngu þessi ætlar Hórazíus sjer að skreyta samkvæmið, og þar með vill hann og sýna, að hann ætlar að láta liggja vel á sjer og lifa glaðlega.*

[17]) *randdúkur. Um borðbekki Rómverja er hjer áður talað (samanb. 4. skýr. að framan). Á borðbekkjunum höfðu menn eins konar sængurdýnur* (tori), *er menn lágu á, og á dýnum þessum höfðu menn aptur ábreizl* (stragula *og* peristromata), *en niður af bekkjunum hjengu enn aðrir dúkar niður á gólf, og eru þeir dúkar kallaðir hjer randdúkar (á lat.* toralia); *samanb. Leiðarvísi í grískum fræðum og rómverskum* (Illustrated Companion to the Latin Dictionary and Greek Lexicon), *eptir Anthony Rich,* (orðið *toral*).

eða óhreinn brjóstdúkur[18] hleypi eigi hrukkum á nef þjer, og að þú fáir sjeð þig í borðkönnu og borðfati, og að engi sje meðal enna dyggu vina, sá er beri það út, er talað er, og að eigi sje mannamunur á þeim, er hjer koma saman og hjer eigast við. Eg ætla að taka Butru[19] með þjer og Septis, svo og Sabin, nema ef svo er, að honum hafi áður boðið verið og hann verði hjá kjörlegri mey. Hjer geta og fleiri fyrir komizt, en ríkur geitaþefur[20] gjörist óþægilegur í samkvæmum, þar er þröngt er. Rita þú mjer aptur, hve mannmargur þú vilt vera, og slepp öllum störfum, og skjózt út um bakdyrr þín frá skjólstæðíngi[21] þínum, er skygnist um eptir þjer í önd[22] húss þíns.

22—31.

---

[18]) *brjóstdúkur. Svo er hjer kallaður dúkur einn* (mappa), *er Rómverjar höfðu fyrir brjósti sjer, þá er þeir mötuðust, og vöruðst svo að þenta sig eða óhreinka.*

[19]) *Butra, Septis og Sabin eru einhverjir menn, er oss er eigi neitt um kunnugt, en þeir hafa eflaust verið í einhverjum kunníngskap við þá Torkvatus og Hóraz.*

[20]) *geitaþefur, það er slíkur þefur, sem af geitum (eða geitfje) er, en það er með öðrum orðum óþefur, og er hjer einkum talað um sveitadaun, er leggur undan höndum manna (í latínunni:* olidae caprae).

[21]) *skjólstæðíngur. Svo er sá maður kallaður, er stendur í skjóli einhvers annars manns, eða með öðrum orðum, sá maður, er nýtur verndar einhvers annars manns. Hjer kallar Hórazíus Moskus svo, af því að Torkvatus hjelt vörn uppi fyrir hann; samanb. 14. skýr. hjer að framan.*

[22]) *önd (eða anddyri, á lat.* atrium) *er fremsti hlutur húss innan dyra, þar er venjulega er inn gengið og út. Við mörg hús Rómverja, einkum hof og stórhýsi, er talað um eins konar fordyri* (vestibulum, *af* vestire: að klæða, þekja, hylja); *var fordyri þetta (eða* vestibulum) *svo lagað, að tveir kampar eða veggstúfar gengu fram af durum hússins, og var þaklaust yfir. Í fordyri þessu stóðu menn opt, er menn biðu þess, að höfðíngjar, er í húsinu bjuggu, kæmi ut, svo sem þá er alþýðumenn eða minni háttar menn vildu fylgja höfðíngjum til torgs. Hjer ræður Hóraz Torkvati, að fara út um bakdyrr húss síns, en gjörir ráð fyrir, að Moskus skygnist um eptir honum í öndinni eða anddyrinu.*

*Í orðabók sinni þýðir Sveinbjörn Egilsson önd svo, að hann lætur það vera* vestibulum *að máli Latínumanna, en rjettara mundi vera, að hafa* atrium.

# Sjetta brjef[1]

til

*Númisíuss*[2].

Efni brjefsins.

*Fyrst bendir Hórazíus á, að mönnum byrji eigi að láta sjer neitt miklast í heiminum, hvortki það, er mikilfenglegt er, nje það, er girnilegt þykir og ginnilegt er* (1). — *Menn eiga og eigi að óttast það, er óþægilegt þykir, en leita heldur jafnaðarhófs í gleði sinni og hrygð, og girndum og ótta, og jafnvel eigi stunda það, er gott er, fram yfir það, er gnóglegt er* (2). — *Menn geta látið sjer þykja mikið til koma dýrlegs listasmíðis, og gimsteina og glitlegs klæðnaðar; menn geta verið vel máli farnir og ötulir þíngmenn, en öll manndýrð er fallvölt og stopul, og dauðinn leiðir dýrlega menn að lokum til náheima* (3). — *Ef menn eru sjúkir, leita menn sjer lækarnínga við sjúkdómi sínum; ef menn vilja lifa rjettlega, og siðvendi leiðir menn til rjettlegs lífs, þá er bezt að stunda siðvendi* (4). — *Ef siðvendi og guðrækni eru einskis verðar, þá er bezt að draga sig eptir skildíngnum og reyna að næla, og fá fjáðrar konu, og man þá alt annað gott þar við bætast* (5). *Það stoðar lítið, þótt menn hafi konúngdóm, ef þeir eiga eigi auð fjár; menn verða að eiga svo mikið, að þeir viti eigi sjálfir, hvað þeir eiga* (6). — *Fátæklegt er það hús, þar er eigi er margt afgángs, það er húsbóndinn eigi af veit, og verður þjófum að notum, og ef þá er svo, að auðlegð ein fær manninn sælan gjörvan og varðveitta sælu hans, þá er bezt að stunda auðlegð fyrst og síðast; en ef mannvirðíngar gjöra menn sæla, þá er bezt að leita mannvirðínga* (7); *eða ef sæla mannsins er fólgin í góðum mat og góðum drykk, þá er bezt að eta og drekka, og hirða eigi, hvað vel samir* (8); *eða enn, ef ekki vætta er þægilegt án ástar og gamans, þá er bezt að lifa við ást og gaman* (9). — *Tvær línurnar síðustu eru kveðja, og viðskilnaðarorð við Númisíus* (10).

---

[1]) *Sjetta brjef. Oss er eigi kunnugt, nær brjef þetta er ritið, en líklegt þykir, að það sje ritið um sama leyti, sem hin brjefin flest, eða með öðrum orðum einhvern tíma nær árinu 20 fyr. Kristsb., og þykir helzt leika á árunum 21 til 18.*

[2]) *Númisíus þessi er oss að eins kunnur af þessum stað.*

1, Að láta sjer ekki miklast, er nálega eitt, Númisíus, og ekki annað, það er fái manninn sælan gjörvan, og varðveitta sælu hans. Sumir horfa án alls ótta á sól og stjörnur, og tímana, er líða með staðbundinni rás. Hvað ætlar þú þá um gjafir jarðarinnar[3]? eða gjafir hafsins[4], er auðgar Araba[5] og Inda[6] yzt í heimi úti? eða um ýmislegt leikgaman[7], lófaklapp[8] og gjafir[9] enna 1—7.

---

[3]) *gjafir jarðarinnar, það er að sumra ætlun: alls kyns jarðargróði og dýr, og málmar, gimsteinar og marmari, og það annað, er jörðin af sjer gefur, en að annarra manna ætlun einkum: málmar, gimsteinar og marmari, og fleira því um líkt.*

[4]) *gjafir hafsins, er* osfrv., *það eru: perlur og skelfiskablóð (eða purpurasafi), er fæst af hafinu við Arabaland, og annars staðar austur þar.*

[5]) *Arabar, en alkunna þjóð í Austurálfu heims. Land þeirra liggur í þeim hlut Austurálfunnar, er gengur lengst í útsuður, fyrir austan norðurhlut Suðurálfunnar; það liggur nær þrem tigum jarðstiga sunnar en Ísland, og nær fimm tigum jarðstiga austar. Arabar þóttu vera auðmenn miklir í fornöld, og er opt talað um auðlegð þeirra í fornum bókum; samanb. sjaunda brjef bókar þessar, 36. vísuorð.*

[6]) *Indar, það eru þeir menn, er Indland byggja; samanb. 25. skýr. við 1. brjef bókar þessar, á 12. blaðs.*

[7]) *ýmislegt leikgaman. Hjá Grikkjum og Rómverjum voru leikar framan af einkum áttir til að tigna einhvern guð; svo voru t. a. m. Ólympsvallarleikarnir settir til virðíngar við Sevs Ólympsguð, Pýþóarleikarnir til virðíngar við Apollon Pýþóarguð, Nemeuleikarnir til virðíngar við Herkúles ljónsbana, og Eiðsleikarnir til virðíngar við Póseidon sævald; svo voru og hjá Rómverjum enir miklu leikar* (Ludi magni) *áttir til virðíngar við Júppíter yfirguð, og Apollonsleikar til virðíngar við Apollon skáldaguð. Síðar var það, að ýmissir leikar voru heldur áttir til skemtunar mönnum, og er siðvendi Rómverja tók að hnigna, var það títt mjög, að þeir menn, er vildu reyna að koma sjer fram eða komast til metorða, stunduðu að ná hylli lýðsins með ýmissum leiktegundum og gamansginníngum* (ludi, fabulae, munera).

[8]) *lófaklapp. Hjá Rómverjum er opt talað um lófaklapp* (plausus), *og er svo að sjá, sem þeir hafi látið sjer vel að því getast. Hjer er líklega einkum talað um þess kyns lófaklapp, er þeir menn fengu, er ljeku sjónleika eða töluðu á þíngum.*

[9]) *gjafir enna vinveittu Kvírínga. Gjafir þær, er hjer er um talað, eru líklega einkum embætti; samanb. næstu skýríng hjer á eptir, einkum e-liðinn.*

vinveittu Kvíríngа[10]? á hvern hátt ætlar þú að menn eigi að horfa á það, og með hverri tilfinníngu og yfirbragði? 7—8.

---

[10]) a, *enir vinveittu Kvíríngar, það er með öðrum orðum, Kvíríngar eða Rómverjar, er þeir vilja einhverjum vel.*

b) *Orðið Kvíríngar (á lat.* Qvirites, *í eintölu* Qviris) *er venjulega haft um Rómverja, þá er talað er um þá á friðartímum, eða sem borgmannafjelag; að kalla Rómverja Kvíringa í hernaði er sama sem að kalla þá kveifar eða mannleysur; svo var t. a. m., þá er Sesar hafði ár. 47 (fyr. Kristsb.) unnið Farnases Miprídatesson ens mikla, og Sesar var kominn heim til Róms, en ætlaði nú aptur að fara suður til Afraálfu í móti andstöðumönnum sínum þar, þá gjörðu sumir af hermönnum Sesars uppreist í Ítalíu, og vildu eigi fara, og kröfðu launa, er þeim hefði verið áður heitið; er þá mælt, að Sesar hafi sagt, að þeir mætti vera lausir við hernaðinn, og kvaðst hann mundu greiða þeim, það er hann ætti ógreitt, þá er hann kæmi aptur með sigurveg frá Afraálfu, og að lokum kallaði hann þá Kvíringa, og er þá mælt, að þetta alt hafi algjörlega breytt hug hermannanna, er áður voru enir áköfustu í mót Sesar, og beiddust þeir nú að mega fylgja honum; samanb. Díon Kassíus, 42. þátt, 53. og 54. kap.; Sveton, Æfi Sesars, 70. kap.; Árbæk. Tasít., 1. þ., 42. kap.; og enn fremur Farsalsstyrjöld eptir Lúkan skáld, 5. þátt, vísuorð 319* osfrv.; *lætur Lúkan Sesar tala þar lángt erendi til enna fyrri hermanna sinna, og segir Sesar þá auk annars (í 357. til 358. vísuorði): Jam certe mihi bella geram; discedite castris; tradite nostra viris, ignavi, signa, Qvirites, (þ. e. að voru máli:* nú man eg sjálfur hernað heyja; farið braut af herbúðunum; seljið, löskvir Kvíríngar, hermerki vor dugmönnum í hendur).

c, *Um uppruna ens latínska orðs Qvirites (eða* Qviris) *eru ýmsar getur; ætla sumir, að orðið sje komið af Kúrborg* (Cures) *í Sabafylki, og er mælt, að það sje svo undir komið, að þá er Sabar gengu í samband við Rómverja á dögum þeirra Rómúls Rómverjakonúngs, og Títs Tazíusar Sabakonúngs, og ríkisstjórn öll fluttist til Róms, þá var Söbum veitt það tillæti, að Rómverjar voru kendir við höfuðborg þeirra, og kallaðir Kvíríngar; samanb. Sög. Liv., 1. þátt, 13. kap.* (civitatem unam ex duabus faciunt; regnum consociant; imperium omne conferunt Romam. Ita geminata urbe, ut Sabinis tamen daretur aliquid, Qvirites a Curibus appellati).

d, *Aðrir ætla, að orðið Qviris (eða Kvíríngur) sje komið af sabnesku orði curis (eða* qviris: *spjót), og ætti orðið Kvíríngar þá upphaflega og eiginlega að vera sama sem spjótmenn eða herskaparmenn.*

e, *Hjer talar Hóraz um gjafir Kvíringa (eða Rómverja), og hefir Hóraz líklega einkum embætti í hug, en embætti voru opt kölluð gjafir lýðsins* (munera populi), *fyrir því að það var sið-*

2, Þeim manni, er óttast það, er þessu er gagnstætt, miklast það, er fyrir hann berr, nálega sem þeim, er eitthvað girnist; ákafleg hugarhræríng er óþægileg hjá hvorumtveggja, jafnskjótt sem[11] óvænt mynd skelfir báða þá. Hverju skiptir, hvort þeir eru glaðir eða hryggvir, hvort þeir girnast eitthvað eða óttast, ef þeir drepa niður augum sínum, og eru sem agndofa á sálu og líkam, hvað sem þeir sjá, það er betra er eða verra, en þeir áttu von á? Vitur maður mætti óvitur heita, og sanngjarn maður ósanngjarn, ef þeir leitaði jafnvel þess, er gott er, fram yfir það, er gnóglegt er.

3, Far nú, og lát þjer mikið til finnast forns[12] silfursmíðis[13], 9—17.

---

*ur hjá Rómverjum, að lýðurinn* (populus) *kaus menn til embætta á þjóðþíngum, og mátti því svo að orði komast, að lýðurinn veitti embættin eða gæfi þau.*

[11]) *jafnskjótt sem* osfrv. *Í orðum Hóraziusar hjer liggur, að kvíði þess, að menn fái eigi eitthvað það, er girnilegt þykir, sje jafnóþægilegur sem eptirlángan þess, ef hræríngar sálarinnar eru svo ákaflegar, að menn verða sem frá sjer numnir, hvað sem að höndum berr, það er menn eigi áttu von á.*

[12]) *forn. Það þykir kostur við ágæta smíðisgripi, að þeir sje gamlir. Orðið forn (á lat.* vetus) *stendur í latínunni á eptir marmor* (marmari), *og þykir óvíst, hvort það á við bæði orðin: argentum* (silfur) *og marmor* (marmari), *eða að eins við orðið marmari.*

[13]) *silfursmíði, það eru ýmissir smíðisgripir af silfri, t. a. m. drykkjarker, og voru slíkir gripir venjulega með upphleyptum myndum eða hafníngarmyndum* (caelatura); *samanb. Kvæði Júvenals, 1. kvæði, 74. til 76. vísuorð: probitas laudatur et alget; criminibus debent hortos, praetoria, mensas, argentum vetus et stantem extra pocula caprum (þ. e. að voru máli:* ráðvendi er lofuð og lítils virð, en glæpum eiga menn að þakka garða, höfðíngleg húsakynni, matborð, gamalt silfursmíði og bukk, er stendur á staupum utan).

*Rómverjar kostuðu fyrrum afar miklu fje til vínkera eða drykkjarkera; svo er þess t. a. m. getið (í Eðliss. Plin. eldr., 37, 2, 7, 20), að Neron keisari hafi keypt vínkrukku* (capis) *af murrsteini, og gefið við þrjú hundruð voga (eða talenta), en það er að voru penníngatali, ef vog er talin vera 1817 ríkisdalir, yfir fimm tigir þúsunda ríkisdala, eða, ef gjörr skal á kveða, 545100 dalir.*

marmarasmíðis[14] og eirsmíðis[15], og ens iðróttlega[16] hagleiks, er það er með gjört; dást að týrverskum[17] litum og gimsteinum[18], og lát þjer vænt um þykja, að þúshundrað augna horfir á þig, er þú talar. Ver ötull, og far árla til torgs[19] um morgna, og 17—20.

---

[14]) *marmarasmíði, það eru ýmsir smíðisgripir af marmara með hafníngarmyndum* (anaglypta), *eða og standmyndir* (statuae).

[15]) *eirsmíði, það eru einkum ker af eiri, og voru slík ker einkum nafnkend frá Korinþ á Grikklandseiði* (Corinthia vasa *og* vasa Corinthia), *og frá Deley og Söm í Grikklandshafi* (Deliaca vasa *eða* vasa Deliaca, *og* vasa Samia).

*Hjá Grikkjum og Rómverjum er opt talað um eirker og aðra smíðisgripi, er þeir höfðu á gripaborðum* (abaci) *í húsum sínum, og þóttu slíkir gripir vel fegra húsbúnað manna.*

[16]) *iðróttlegur hagleikur, er* osfrv. *Í latínunni stendur artes* (listir), *og er það orð tekið hjer svo, að það sje haft um hagleik þann, er smíðisgripir þeir, er hjer eru áður nefndir, eru með gjörvir. Aðrir taka orðið artes svo, að það sje haft um einhverja aðra smíðisgripi en þá, er hjer eru áður nefndir, t. a. m. um skriptspjöld eða litmyndir* (tabulae pictae).

[17]) *týrverskur, þ. e. frá enni nafnkendu borg Týr (eða Týrborg eða Týrus, eða eptir ebresku máli: Sór). Týrborg var upphaflega nýlenduborg frá Sídon, höfuðborg Foinika, og var hún gjör á austurströnd Miðjarðarhafs, fimm jarðmílum sunnar en Sídon (samanb. skýr. við 10. brjef bókar þessar, 26. vísuorð). Konúngur Assýra, Salmanassar (eða Skalmanesser), er að völdum sat á síðara hlut áttu aldar fyr. Kristsb. (eða, eptir sumra reikníngi, frá ár. 734 til árs. 716), sat um Týrborg í fimm ár, en fekk eigi tekið hana. Síðan sat Nebúkaðnezar þrettán ár um borgina (frá ár. 595 til árs. 582), og þykir óvíst, hvort hann hefir fengið tekið borgina eða eigi. Síðan er þess getið, að borgin var flutt frá meginlandi og út á ey eina, er lá þrjú skeiðrúm undan landi, og ætla sumir, að sá flutníngur hafi orðið skömmu eptir umsát Nebúkaðnezars. Ár 332 fyr. Kristsb. sat Alexander enn mikli sjau mánaði um ena nýju eyborg* (Nýju Týr), *og ljet hann þá gjöra eins konar grjótgarð til borgarinnar frá landi, og fekk svo tekið borgina.*

*Hjer er talað um týrverska litu, og er það eð sama sem purpuralitur, því að mikill skelfiskur fekst í hafinu austur þar, og voru ágætar litgjörðarsmiðjur í Týrborg.*

[18]) *gimsteinar. Hjá Rómverjum voru gimsteinar hafðir í hríngum og á kerum.*

[19]) *torg voru að fornu eigi að eins höfð til kaupskapar, sem nú er títt, heldur var þar og rætt um ýms málefni almenn og einstakleg. Hjer er talað um höfuðtorg Rómborgar, þar er*

síð heim um kveld, svo að Dumbur[20] skeri eigi meira korn af ökrum sínum, er hann hefir fengið í heimanmund með konu sinni, heldur en þú, og svo að þjer þurfi eigi fremur að þykja mikið til hans koma, en honum til þín, því að það væri óviðurkvæmilegt, með því að hann er af lakari ættum en þú. Sjerhvað það, er í jörðu er niðri, man tíminn í ljós leiða, en grafa það aptur niður og byrgja, er mikið berr á. Þótt þú verðir þjóðkunnur, og menn sjái þig opt í súlnagöngum[21] Agrippu[22], og á vegi Appíus-
20—26.

*þíng voru einkum átt, en torg það lá norður undan vesturhlut Palatshæðar, og vestur og norður undir austurhlið Kapítólshæðar.*

[20]) *Dumbur. Eð latínska orð mutus* (dumbur) *er í fornu máli haft að viðurnefni, og kemur t. a. m. fyrir í fornri áritan* (inscription): P. Alburius, P. F. mutus, *þ. e. Públíus Albúríus Públíusson, dumbur; þá er eigi að sjá, að Hóraz hafi haft hjer neinn tiltekinn mann íhug sjer, heldur þykir líklegra, að hann hafi hjer orð þetta að eiginnafni, af því að það á vel við í andstæði við orðsnild þá, er Hórazíus talar hjer um áður.*

[21]) *súlnagöng, samanb. 39. skýr. við 1. brjef bókar þessar, svo og næstu skýríng hjer á eptir, c-liðinn.*

[22]) a, *Agrippa sá, er hjer er um talað, hjet öllum nöfnum Markus Vipsaníus Agrippa. Hann var æskuvinur Ágústusar keisara, og einn af enum ágætustu höfðíngjum, er uppi voru á dögum Ágústusar í Rómaborg.*

b, *Í styrjöld þeirri, er kend er við borgina Perúsíu í Etrúralandi, fekk Agrippa, ár. 41 fyr. Kristsb., hnept ræðismanninn Lúsíus Antóníus, bróður ens alkunna Markusar Antóníusar, inn í borgina Perúsíu, og gafst Antóníus skömmu síðar upp fyrir Agrippu, öndvert næsta ár (ár. 40). Fjórum árum síðar, eða ár 36, vann Agrippa mikinn sigur yfir Sextusi, bróðursyni Pompeiusar ens mikla; sú orrusta stóð við Messönu á norðurhlut austurstrandar Sikileyjar. Fimm árum síðar, en þetta gjörðist, eða ár. 31, var Agrippa fyrir flota Ágústusar í enni nafnkendu orrustu við Strandarhöfða* (Actium), *og átti Agrippa þar mikinn og góðan þátt í sigri Ágústusar. Árið 19 vann Agrippa Kantabra, er bjuggu að austanverðu á norðurströnd Spánar við Kantabrahaf, er nú er kallað Biskæjahaf eða Biskæjabotn; höfðu Rómverjar áður farið í móti þeim ýmsar ferðir, síðan árið 25, er ófriður fyrst hófst við þá.*

c, *Agrippa prýddi Róm með ýmislegri húsagjörð; hann ljet gjöra Allragoðahof* (*eða* Panþeon); *það lá á Marsvelli vestur undan Kvírínshæð, og var vígt ár. 27. Agrippa ljet og gjöra þínggerði það, er stóð á Marsvelli, fyrir vestan suðurhlut Kvírínshæðar, og enn ljet hann gjöra súlnagöng Neptúns sæguðs norðar*

ar[23], þá átt þú þó eptir að fara niður þángað, er þeir Núma[24] og Ankus[25] eru áður farnir.

26—27.

---

*á austurhlut Marsvallar; eru það súlnagöng þau, er Hórazíus talar hjer um, og voru þau göng prýdd ýmsum skriptmyndum af Argóarför, og skyldi það vera til endurminníngar um sigurvegníngar þær, er Agrippa hafði hlotið í sjóorrustum sínum. Í göngum þessum gengu Rómverjar opt sjer til skemtunar.*

d, *Agrippa var príkvæntur; fyrst átti hann Pompóníu, dóttur Attíkusar þess, er einkum er orðinn nafnkendur af vináttu sinni við Síseró enn mælska. Önnur kona Agrippu var Marsella, systurdóttir Ágústs keisara, og en priðja var en alkunna Júlía, dóttir Ágústusar og miðkonu hans Skríbóníu. Með Júlíu átti Agrippa fimm börn, þrjá sonu og tvær dætur, og er tveggja sona hans getið hjer að framan; samanb. 15. skýr. við 5. brjef bókar þessar, á 70. og 71. blaðs. Önnur af dætrum Agrippu og Júlíu hjet Agrippína, og var hún móðir Kalígúlu, er síðar var keisari (frá ár. 37 til árs. 41).*

e) *Agrippa dó í Valllandi ár. 12 fyr. Kristsb., og var hann þá á heimleið frá herferð einni í Pannóníu.*

[23]) *Vegur Appíusar. Appíus þessi er enn nafnkendi Appíus Kládíus enn blindi; hann var siðgæzlumaður í Rómi árið 312 fyr. Kristsb., og ljet hann það ár, eða um það leyti, gjöra veg einn, er lá frá Rómi og til Kapúu í Valllandi, en það er nær eitt jarðstig suður á við, og nokkuru minna en tvau jarðstig austur á við, og var vegur sá mjög fjölfarinn. Síðan var vegi þessum fram haldið í suður og austur til Brúndisborgar í Kalabrafylki, og hefir hann þá náð yfir nokkuru meira, en eitt jarðstig, suður á við, og yfir nær hálft sjetta stig austur á við. Af vegi þessum eru enn brot eptir, og þykir af brotum þeim sjá mega, hve lángt Rómverjar voru komnir í vegagjörð fyrir meira en tveim þúsundum ára fyrir vora daga.*

[24]) a, *Núma, þ. e. Núma Pompilíus, er var annarr konúngur Rómverja, frá ár. 715 til árs. 672 fyr. Kristsb. Núma var ætzkaður frá Kúrborg* (Cures) *í Sabafylki, og var sonur ágæts manns þar, er hjet Pompilíus Pompón, eptir því sem Díónýsíus af Halíkarnassi segir í sögu sinni (2. þætt., 58. kap.), eða Pompóníus, eptir sögn Plútarks af Keróneiu (í Æfisögu Númu,*

[25]) *Ankus þessi er Ankus Marsíus, dótturson Númu konúngs. Hann var konúngur Rómverja fjóra vetur ens þriðja tigar, frá ár. 640 til árs. 616 fyr. Kristsb.; hann var nýtur konúngur og stjórnsamur, og jók Rómaborg með Aventshæð og Janíkúlshæð. Að fara þángað, er þeir Núma og Ankus hafa áður farið, er sama sem að fara þángað, er fornir ágætismenn hafa farið, en það er að deyja.*

*3. kapit.). Plútark getur þess og (í 3. kap.), að Núma hafi átt Tazíu, dóttur Tazíusar, samkonúngs Rómúls; þó segir Plútark, að Núma hafi eigi flutt sig búferlum til Róms til tengdaföður síns, heldur setið um kyrt í Sabafylki, og annazt þar aldraðan föður sinn. Þau Núma og Tazía lifðu saman á þrettánda ár, en þá dó Tazía.*

b, *Þá er Rómúlus, fyrsti konúngur Rómverja, var dáinn (ár. 716), og verið hafði eins árs millistjórn í Rómi, komu menn sjer saman um að kjósa Númu til konúngs. Voru þá sendir menn til Númu til Sabafylkis, að birta honum kosníng hans, en Núma færðist fyrst undan að taka kosníngu, og mælti hann þá auk annars (samanb. Plútark, 5. kap.), að öll breytíng á lífi mannsins væri viðsjáverð, en þó væri einkum óráðlegt fyrir þann mann, er nógt hefði fyrir sig að leggja og liði bærilega, að breyta um kjör sín; þó ljet Núma til leiðast um síðir, að taka konúngdómi, og segir Plútark (í upphafi 5. kapít.), að Núma hafi þá verið á fertuganda aldursári.*

c, *Núma þótti góður konúngur; hann var vitur maður og trúrækinn, og fyrir því vildi hann gjöra þegna sína friðsama, siðvanda og trúrækna; hann kom og góðu skipulagi á helgisiðu Rómverja og goðaþjónustu, og var trúa manna, að jarðdís ein, Egería, fulltíngdi Númu í þessum hans atgjörðum.*

d, *Á síðari tímum hefir enn nafnkendi frakkneski rithöfundur, Jóhann Pjetur Klaris af Flórían* (Jean Pierre Claris de Florian) *samið um Númu skáldsögu eina í tólf þáttum. Jóhann þessi Pjetur var fæddur ár. 1755 í höll einni í bygðarlaginu Langdok* (Languedoc) *í suðurhlut Frakklands; heitir höll sú Flórían, og er Jóhann Pjetur venjulega kendur við höllina, og kallaður Flórían; hann dó ár. 1794.*

e, *Í frásögn sinni hverfur Flórían víða frá enum fornu rithöfundum, Díónýsíusi, Plútarki og Livíusi af Patavi. Segir Flórían (í 1. þætti sögu sinnar), að faðir Númu hafi heitið Pompilíus, og móðir hans Pompilía, og að þau hjón, Pompilíus og Pompilía, hafi farið til leikanna í Rómi, þá er Rómúll bauð til leika þar nábjóðum sínum, og ljet síðan þegna sína ræna konum þeim, er til leikanna komu. Rómverjar tóku og Pompilíu, eptir því sem Flórían segir, en Pompilíus fekk þó náð henni aptur úr höndum þeirra, og komst með hana heim til Sablands, en dó þá þegar af sárum, er hann hafði fengið í viðureign sinni við Rómverja. Pompilíu varð mikið um lát manns síns; hún var með barni, og flýtti harmur hennar fæðíngu barnsins, en Pompilía dó þegar eptir. Prestur einn, er Túllus hjet, og var yfirprestur við hof Seresar korngyðju, tók sveininn að sjer, nefndi hann Númu, og fæddist Núma upp hjá Túlli; en er Núma óx upp, og var þó enn á úngmennisaldri, var það einhverju sinni, að Túllus birti honum, að það*

4, Ef harður verkur legst undir síðu þjer, eða í nýru þín, þá skalt þú leita læknínga við sjúkdómi þínum. Vilt þú rjett-

28—29.

---

*væri vilji Seresar gyðju, að Núma færi til Róms, og skyldi hann þar konúngur vera.*

f, *Eptir sögu Flóríans (eða danskri þýðíngu sögu þeirrar) hefir landi vorr, Sigurður Breiðfjörð (eða Breiðfirðíngur) kveðið Rímur af Núma Pompilssyni, prentaðar í Viðey ár. 1835, og tökum vjer hjer nokkur erendi úr annarri rímu (á 24. til 27. blaðs.); segir þar frá því, er Túllus fylgir Númu á leið til Róms, og skilur við hann, og mælir þá á þessa leið:*

76. erendi:

*Hjer þó okkar skilji skeið,*
*skal mig sorg ei buga,*
*en fram á þína lengri leið*
*ljettum fleyti eg huga.*

77. erendi:

*Því eg hræðist þinn úngdóm,*
*þörf er fyrirhyggja;*
*þegar þú kemur þar i Róm,*
*þúsund snörur liggja.*

78. erendi:

*Á þínum aldri engan vin*
*áttu, er treysta megir;*
*þeirra ást er yfirskin,*
*sem aldur og reynslan fleygir.*

79. erendi:

*Vellyst holds er voðalig;*
*við hvert tækifæri*
*vill hún faðmi vefja þig,*
*en varastu hana, kæri!*

80. erendi:

*Þann, sig hennar vjelum ver,*
*virði eg kempu fríða;*
*viðkvæmt hjarta veikast er,*
*en verður þó að stríða.*

81. erendi:

*Ljáirðu henni lausan taum,*
*þó lítið virðast megi,*
*freistínganna fyrir straum,*
*færðu staðizt þeygi.*

82. erendi:

*Sofnar þú í göldum glaum,*
*en glatar dygða vegi,*
*þó er tíðin náða naum*
*á næsta máske degi.*

83. erendi:

*Viður sálar veinin aum*
*vaknar beiskur tregi;*
*værðarlauss í vöku og draum,*
*verður svæfður eigi.*

84. erendi:

*Því við sjerhvert fet, þú fer*
*fram á lífsins skeiði,*
*hygðu að, hvort það hæfir þjer,*
*en hata dramb og reiði.*

85. erendi:

*Heiðraðu þeirra háu stjett,*
*fyrst heimsins það er siður,*
*en láttu hinna lægri rjett*
*líða þar ei viður.*

86. erendi:

*Vizku og dygð að vinum þjer*
*veldu systur báðar;*
*leitaðu, hvað sem forma fer,*
*fyrst til þeirra ráða.*

87. erendi:

*Hamíngjan býr í hjarta manns,*
*höpp eru ytri gæði;*
*dygðin ein má huga hans*
*hvíla og gefa næði.*

88. erendi:

*Viðkvæmnin er vandakind,*
*veik og kvik sem skarið;*
*veldur bæði sælu og synd,*
*svo sem með er farið.*

89. erendi:

*Lán og tjón, já líf og morð,*
*liðug fæðir túnga;*
*því er vert að vanda orð*
*og venja hana únga.*

lega lifa? Hverr vill eigi það? Ef siðvendi ein fær þetta veitt, þá gakk vel fram, og slepp gamni og glíngri, og stunda það, er gott er.

5, Ef þú ætlar, að[26] siðvendi sje orðin ein, svo sem þú ætlar, að lundur[27] sje viður einn, þá gjald þú varhuga við, að[28] aðrir menn komist eigi fyr til hafna en þú, svo að þú missir eigi fjesýslana[29] í Sibýru[30] eða í Biþýnafylki[31]. Legg þú þús-

29—34.

90. erendi:

*Heiðraðu þann, sem hærum á*
*hrósar dögum sínum;*
*vertu einkum vífum hjá*
*vandur að orðum þínum.*

91. erendi:

*Vondum solli flýðu frá,*
*og forðast þá, sem reiðast;*
*elskaðu góða, en aumkva þá,*
*afvega sem leiðast.*

92. erendi:

*Heyrðu snauðra harma raust,*
*hamlaðu sjúkra pínum;*
*vertu öllum aumum traust*
*eptir kröptum þínum.*

93. erendi:

*Ræktu þessi ráðin fá,*
*ræktu dygðir æfa,*
*svo þó eg þjer fari frá,*
*fylgi þjer heilög gæfa.*

94. erendi:

*Hjer er loksins lítið brjef,*
*lesa máttu skjalið;*
*Tasa kóngi á hendur hef*
*hjer með eg þig falið.*

95. erendi:

*Veri á þínum vegum náð,*
*vermi brjóstið friður.*
*Túllur eptir orð svo tjáð*
*ástvin skilur viður.*

[26]) *Ef þú ætlar, að* osfrv. *Hjer bendir Hóraz með orðum sínum á þá menn, er lítt eru siðvandir, og hyggja fremur á líkamlega hagsmuni sína, en andlega sálarbót.*

[27]) *lundur. Grikkir og Rómverjar tignuðu guði opt í lundum úti, og töldu trúræknir menn slíka lunda helga. Hjer gjörir Hóraz ráð fyrir annars kyns mönnum, er hirða lítt um helgi slíkra lunda, og telja þá vera við einn og ekki annað.*

[28]) *þá gjald þú varhuga við, að* osfrv. *Hóraz talar hjer til þess konar manna, er hugsa helzt um jarðneskan gróða, og fara því í kaupferðir til annarra landa, þar er helzt þykir kaupvænlegt, svo sem t. a. m. austur á Ásheimsskaga, en þar áttu Rómverjar töluverða kaupverzlun og önnur viðskipti við menn.*

[29]) *fjesýslanir. Í latínunni stendur orðið negotia* (sýslanir, störf), *og ætla sumir, að það orð sje haft hjer um kaupverzlan, en aðrir ætla, að orð þetta sje hjer haft bæði um kaupverzlan, og um ýmsar aðrar sýslanir, t. a. m. um ýms tolltekjustörf, er Rómverjar áttu í löndum austur þar.*

[30]) *Sibýra (á lat.* Cibyra) *var borg ein, er lá sunnarlega í Frýgafylki, suður undir Karafylki, nær í austur frá Míletsborg í Íónabygð (nokkuru sunnar en mitt á milli 37. og 38. jarðstigs norðurættar, en lítið eitt fyrir vestan 47. jarðstig austurættar).*

[31]) *Biþýnafylki var eitt af fimtán höfuðfylkjum Ásheims-*

hundrað voga[32] í krínglótta hrúgu, og annað þúshundrað, og lát enn eð þriðja þúshundrað við bætast, og enn eitt, er ferskeytir hrúguna[33]. Þetta er vel gjöranda, því að Auðlegðin[34],

34—37.

*skaga (samanb. 10. skýr. við 3. brjef bókar þessar, b-liðinn, á 51. blaðs.); lá fylki þetta í útnorðurhlut landsins, og voru takmörk þess Góðgistishaf* (Evxinus Pontus, *og* Pontus Evxinus) *eða Svarta Haf að norðan, Paflagónafylki að austan, Gallafylki og Frýgafylki að sunnan, og norðurhlutur Mýsafylkis, Framhafið* (Propontis) *eða Marmarahafið, og Þrakaskagi* (Thracius Bosporus, *og* Bosporus Thracius) *að vestan.*

32) a, *vog. Svo er hjer það kallað, er Latínumenn kalla talentum, og Grikkir τάλαντον (af orðstofninum ταλ, er hefir í sjer lyptimerking eða hafníngarmerkíng eða reiðíngarmerkíng).*

b, *Talanta, fleirtala ens gríska orðs talanton, er upphaflega haft um metaskálar eða vog, t. a. m. hjá Hómer í Ilíonskviðu (22. þætt., 209. vísuorð: καὶ τότε δὴ χρύσεια πατὴρ ἐτίταινε τάλαντα, ἐν δ' ἐτίθει δύο κῆρε* osfrv.); *því næst er talanton (eða talentum) haft um ákveðinn vogarþúnga, og var þúngi sá hjá Aþenuborgarmönnum talinn jafn vera sex tigum mna (eða mína), eða sex þúsundum drakma, eða 36 þúsundum obola, eða 288 þúsundum eirúnga (eða kalka), en það er eptir voru penníngatali liðugir fimm fjórðúngar (eða, ef gjörr skal á kveða, eptir reikníngi sumra manna, 52 pund og tveir fimtúngar punds).*

c, *Í þriðja lagi er þess að gæta, að fje var lengi framan af reitt eða vegið (en eigi talið), og þaðan af kom sá siður, að talanton (og talentum) var haft um ákveðna penníngaupphæð, og var penníngaupphæð sú hjá Aþenuborgarmönnum talin jöfn sex tigum mna (eða mína), eða sex þúsundum drakma, eða 36 þúsundum obola, eða 288 þúsundum eirúnga (eða kalka), en það er eptir voru penníngatali liðug áttján hundruð ríkisdala (eða, ef gjörr skal á kveða, eptir reikníngi sumra manna, 1816 ríkisdalir, 92 skildíngar, og fjórir sjaundu hlutir skildíngs).*

33) *er ferskeytir hrúguna,* osfrv. *Hjer er eins konar orðaleikur hjá höfundinum; fyrst hugsar höfundurinn sjer, að auðsafnsmaður leggi vog fjár í krínglótta hrúgu* (rotundare), *og bæti síðan við annarri voginni og enni þriðju, og því næst gjörir auðmaðurinn hrúguna ferskeytta eða ferskeytir hana (á lat.* qvadrare), *en það er með öðrum orðum, hann bætir fjórðu þúsundinni við.*

34) *Auðlegð. Hjer eru orðin Auðlegð, Fortölugipt og Fegurð höfð með stórum upphafstöfum, og er svo til ætlazt, að með því sje sýnt, að hugmyndir þær, er orð þessi hafa í sjer fólgnar, sje hugsaðar sem eins konar andalegar verur (eða ólíkamlegar persónur), er hafa ýmiss áhrif á hag mannsins, og er það títt í trú marggyðismanna, að ýmsir almennir eiginleik-*

er öllu ræður, veitir manni konu með heimanmund, og trúleik[35] og vini, og ættgöfgi og fagra ásýnd, og Fortölugipt[36] og Fegurð prýðir þann mann, er vel er fjáður.

6, Konúngur Kappadóka[37] hefir gnóglegt man, en skortir fje; ver eigi sem hann. Í mæli er, að Lúkúll[38] hafi einhverju

37–41.

---

*ar eru hugsaðir í einhverri goðmynd, t. a. m. hreysti, góðsemd, vonzka; samanb. orðið (eða gyðjuheitið) Skaðsemd, í 11. skýríngu við 1. brjef bókar þessar, á 5. blaðs., svo og frásögnina um konur þær tvær, er komu til Herkúlesar, þá er hann færðist af bernskuskeiði (í sömu skýríngu, á 6. blaðs., ofarlega); svo er og stundum í bókum hjá oss, að ýmiss eiginleikaorð eru höfð til að jartegna einhvers konar menn eða ólíkamlegar verur, er menn hugsa sjer að eitthvað gjöri; samanb. t. a. m. Tímarímu (prentaða í Kaupmannahöfn ár. 1832); þar er talað um Ágirnd, Kærleik, Ofstopa, Óblessan, Ósamlyndi, Trygð og Öfund, svo sem væri þetta menn eða goð, og er slíkt kallað personification á túngur flestra Norðurálfuþjóða.*

*Með orðum þeim, er hjer koma á eptir, er á bent, að auðlegð veitir manni margt það, er þurfa þykir í heimi þessum.*

*35) trúleikur. Í latínunni stendur fides, og er það orð haft hjer annaðhvort um trúleik (eða trúmensku) alment, eða einkum um skilríki í penníngaefnum, eða og í þriðja lagi um traust manna á einhverjum í þeim greinum.*

*36) Fortölugipt. Hjer er það svo kallað, er Hóraz kallar Svadela (og Grikkir kalla* Πειθώ*), og bendir Hóraz á með orðum sínum, að tölur fjáðs manns eða orð hans hafi meiri áhrif, en tölur snauðra manna og orð þeirra. Um orsökina til þess, að orðin Fortölugipt og Fegurð eru hjer höfð með stórum upphafstöfum, er talað í 34. skýr. hjer á undan.*

*37) Kappadókar. Kappadókafylki (eða Kappadók, á persneskum penníngum: Kappatuk eða Kappatúk) var eitt af fimtán höfuðfylkjum Ásheimsskaga; fylki þetta lá að norðanverðu að austurhlut Gallafylkis og vesturhlut Haffylkis, að austan til Armenalands ens Minna, að sunnan til Kataónafylkis, Kilikafylkis og austurhlutar Lýkaónafylkis, og að vestan til norðurhlutar Lýkaónafylkis, Frýgafylkis og suðurhlutar Gallafylkis. Hjer er á bent, að auðlegð Kappadókakonúngs hefir þótt lítil, og verið mest fólgin í ánauðgum mansmönnum, er undir honum stóðu; samanb. Efni brjefsins, sjetta lið.*

*38) Lúkúll þessi er enn nafnkendi Lúsíus Lísiníus Lúkúll, er um er talað í 21. skýr. við 3. brjef bókar þessar, e-liðnum, (á 55. blaðs.); er Lúkúll þessi einkum orðinn nafnkendur fyrir hernað sinn við Miþrídates enn mikla (sb. bls. 55), og í öðru lagi fyrir afar mikla auðlegð sína, stórkostlega húsagjörð og*

*skrautlífi. Um mataræði Lúkúlls er þess t. a. m. getið hjá Plútarki (í Æfi Lúkúlls, 41. kap.), að menn nokkurir hafi komið til Róms frá Grikklandi, og matazt hjá Lúkúlli marga daga, en loksins tóku Grikkir þessir að fyrirvirða sig fyrir, að koma svo opt til Lúkúlls, og vildu hafna matboði hans, af því að þeir ætluðu, að svo miklu væri til kostað fyrir þeirra sök; er þá mælt, að Lúkúll hafi brosað, og sagt: sumt af þessu er að vísu gjört fyrir yðra sök, grikskir menn, en þó flest af því sakir Lúkúlls. — Plútark getur þess og í enum sama kapítula, að Lúkúll hafi einhverju sinni matazt einn heima, og hafi að eins verið haft eitt matborð, og hóflega mikill viðbúnaður; kallaði Lúkúll þá til sín svein þann, er sá um borðbúnað, og taldi á hann. Sveinninn mælti, að hann hefði eigi ætlað, að Lúkúll hirði um mikið við að hafa, með því að engum var annars staðar að til matar boðið. Vissir þú þá eigi, mælti húsbóndinn: að Lúkúllus matast í dag hjá Lúkúllusi?* (οὐκ ἤδεις, ὅτι σήμερον παρὰ Λουκούλλῳ δειπνεῖ Λουκοῦλλος;). — *Enn getur Plútark þess í enum sama kapítula, að þeir Síseró enn mælski og Pompeius enn mikli hafi einhverju sinni gengið til Lúkúlls á torgi, og spurði Síseró þá Lúkúll, hve á stæði fyrir honum, og sagði Síseró, að þá Pompeius fýsti að hitta Lúkúll heima. Lúkúll sagði, að vel stæði á fyrir sjer. Þá sagði Síseró, að þeir Pompeius vildi fá sjer mat hjá Lúkúlli um daginn, en hann skyldi þó eigi breyta neitt til. Lúkúll bað þá Síseró þá heldur koma annað sinn. Það vildu þeir Síseró eigi, og lofuðu Lúkúlli jafnvel eigi að tala við þjónustusveina sína, svo að hann fengi eigi fyrir skipað neitt meira, en venjulegt var; það eitt leyfðu þeir Síseró honum, að segja einum af þjónustumönnum hans í áheyrn þeirra Síserós, að hann vildi matast þann dag í Apolloni, en svo hjet eitt af enum skrautlegri herbergjum Lúkúlls. Þetta var kænskubragð Lúkúlls, því að matarverð og annarr tilkostnaður og viðurbúnaður fór eptir því, í hverri matstufu matazt var, og er mansmenn Lúkúlls því heyrðu, hvar hann vildi matast, þá vissu þeir og, hve miklu skyldi til kosta til matarins, og hvern viðurbúnað hafa skyldi, en til matar var vant að hafa í Apolloni fimm tigu þúsunda náma (eða drakma, á grísku hjá Plútarki:* πέντε μυριάδες), *en það er að voru penníngatali nær fimtán þúsundir ríkisdala, eða, ef gjörr skal á kveða, og nám er talið vera 29 skildíngar, 15104 ríkisdalir, og sex skildíngar.*

*Að lokum getum vjer þess um Lúkúll, að mælt er, að hann hafi fyrstur manna flutt kerasvið eða kirsvið (á lat.* cerasus, *og á gr.* κέρασος) *til Norðurálfunnar, og hefir viður sá fengið nafn sitt af Kerasborg (á lat.* Cerasus, *og á gr.* Κερασοῦς), *en sú borg lá á norðurströnd Haffylkis* (Pontus), *nokkuru vestar en Trapezund (á gr.* Τραπεζοῦς).

sinni verið að spurður, ef hann mætti ljá tíu tiga herskikkna[39] sjónleiksmönnum til handa[40], og er þá mælt, að hann hafi svarað: hve má eg svo margra ljá? þó skal eg láta leita, og senda svo margar, sem eg hefi. Skömmu síðar ritar Lúkúll, og kveðst hafa fimm þúsundir herskikkna heima hjá sjer, og sagði hann, að menn gæti fengið nokkurar þeirra, eða og allar þær.

7, Fátæklegt er það hús, þar er eigi er margt afgángs, það er húsbóndinn eigi af veit, og verður þjófum að notum, og ef þá er svo, að fje eitt fær manninn sælan gjörvan og varðveitta sælu hans, þá er bezt, að þú hverfir fyrst aptur að þessi iðn, og sleppir henni síðast; en ef mannvirðíngar og vinsæld gjöra manninn sælan, þá skulu vjer kaupa þræl til að[41] segja oss nöfn manna, og hnippa í vinstri hlið vora[42], og þrýsta oss til að rjetta

41—52.

[39]) *tíu tigir herskikkna. Plútark segir svo frá í Æfi Lúkúlls (39. kapít., aptarlega), að hershöfðíngi einn* (στρατηγός), *er efndi til sjónleika, og vildi leita sjer frama með þeim* (φιλοτιμούμενος περὶ θέας), *hafi beðið Lúkúll um nokkurar purpuraskikkjur* (πορφυραῖ χλαμύδες), *til að skreyta söngflokk með; svaraði Lúkúll þá, að hann skyldi gá að, ef hann hefði nokkurar skikkjur, og kvaðst hann þá mundu ljá, ef hann hefði. Daginn eptir spurði Lúkúll hershöfðíngjann, hve margra skikkna hann þyrfti. Sagði hershöfðínginn, að sjer nægði hundrað, en Lúkúll bað hann taka tvöfalt fleiri. — Hóraz talar hjer um fimm þúsundir skikkna, og þykir mönnum sem það sje leyfilegar skáldaýkjur.*

[40]) *sjónleiksmönnum til handa. Í latínunni stendur scenae, þágufall af* scena: *leiksvið; samanb. næstu skýríng hjer á undan.*

[41]) *þá skulu vjer kaupa oss þræl til að* osfrv. *Það var siður Rómverja, einkum enna heldri manna, að hafa með sjer þræl einn eða mansmann, þá er þeir gengu út; skyldi mansmaður sá segja húsbónda sínum nöfn þeirra manna, er urðu á vegi hans, einkum þeirra manna, er einhverju þótti skipta, að vita deili á; var mansmaður þessi af sýslu sinni kallaður nafnsögumaður (eða nafnkallsmaður, á lat.* nomenclator, *af* nomen: *nafn, og* calare: *að kalla).*

[42]) *að hnippa í vinstri hlið vora,* osfrv. *Hóraz hugsar sjer hjer, að þræll sá eða mansmaður, er einhverr heldri maður hefir með sjer, gángi til vinstri handar ens heldra manns, og hnippi í hlið hans, þá er sjá má einhvern þann mann, er hjálpsamlegur má verða við veitíngar embætta; er þá svo til ætlazt, að*

svo fram hægri hönd vora, að oss liggi við falli[43]. Þessi maður má mikið, segir nafnsögumaður[44], í Fabíasveit[45], en þessi í Vel-

51—52.

---

*enn heldri maður heilsi manni þeim, er á vegi hans verður, og víki kurteislega að honum, og velji honum ávarpsorð, eptir því sem við þykir eiga. Á stað þessum er og bent á, að þá er tveir menn gánga saman, og eru mishátt settir, þá gengur sá til vinstri handar, er minna háttar er; þykir og nú á dögum rjettur kurteisissiður, að svo sje gjört.*

[43]) *svo..., að oss liggi við falli. Í latínunni stendur* trans pondera, *og ef sú þýðíng, er hjer er höfð, er rjett, er* pondera *(fleirtalan af* pondus, *í merkíngunni: púngi) haft hjer um jafnvægi eða jafnaðarpúnga líkams vors. Líkt þessu er orðið* pondera *eigi sjaldan haft hjá skáldum í fornum kveðskap, t. a. m. hjá Óvið í Myndbreytíngum hans, fyrsta þætti, þar er Óvið talar um, að jörðin hafi enn eigi stöðvazt í loptinu eptir púngaeðli sínu; þá kemst hann svo að orði (í 11. og 12. vísuorði):* nec circumfuso pendebat in aëre tellus, ponderibus librata suis. *Aðrir ætla, að* pondera *sje haft hjer um byrðar og flutníngsvagna, er verða á vegi manns, og bendir Hóraz þá á með orðum sínum, að maður, er vill koma sjer í mjúkinn hjá öðrum mönnum, er verða á vegi hans, vinni svo mikið til, að hann seilist yfir byrðar og vagna, svo að hann fái tekið í hendur manna. Enn ætla aðrir, að* pondera *sje haft hjer um* met, *eða* met *og* vogir, *og er þá enn hugsun skáldsins en sama, sem áður, að menn seilist yfir met og vogir, til þess að ná í hendur manna og heilsa þeim.*

[44]) *nafnsögumaður, samanb. 41. skýr. hjer að framan.*

[45]) *Fabíasveit.* a, *Rómborgarlýð eða Rómalýð var snemma (á dögum Rómúls) skipt í þrjár höfuðdeildir (á lat.* tribūs, *og á gr.* τριττῦς*); voru þjóðdeildir þessar kallaðar Ramnar (á lat.* Ramnes *og* Ramnenses*), Tizíar og Tazíar (á lat.* Tities *og* Titienses *og* Tatienses*), og Lúserar (á lat.* Luceres*). Síðar er þess getið, að Servíus Túllíus, er var sjetti konúngur Rómverja (frá ár. 578 til 534) skipti landeign Rómverja utan borgar í 26 sveitir* (tribus)*, og borgarbúum í fjórar sveitir. Eptir brautrekstur konúnga (ár. 510), og viðureign Rómverja við Porsennu Klúsverjakonúng, er að eins talað um 20 sveitir, en síðan jókst talan aptur, og varð sveitatalan að lokum fimm sveitir ens fjórða tigar, 31 sveit utan borgar, en fjórar sveitir innan borgar, og þótti miklu meira kveða að utanborgarsveitum. Þá er menn komu saman og áttu þíng, voru atkvæði greidd eptir sveitaskipan þessi, og því er hjer á bent, að nokkuð hefir þótt undir að vita, í hverri sveit hvergi var.*

b, *Sveitir þær tvær, er hjer eru nefndar, Fabíasveit og Velvatnssveit, voru tvær utanborgarsveita; þykir líklegt, að Fab-*

vatnssveit[46]; þessi[47] man gefa vandbundinin[48] hverjum er vill, og geta orðið svo ónotalegur, að taka fílbeinsstólinn[49] frá hverjum þeim, er honum lízt. Bæt því og við kveðju þína, að kalla hvern þeirra bróður eða föður, og kom svo haglega orðum fyrir þig, að þú takir hvern einn upp í ætt þína, eptir því sem hann hefir aldur til[50].

52—55.

---

*íasveit hafi haft nafn sitt af ætt Fabía, en eigi er kunnugt, hvar hún lá. Velvatnssveit* (Velina tribus, *og tómt* Velina) *lá umhverfis Velvatn* (Velinus Lacus *og* Lacus Velinus) *í Sabafylki, og hafði sveitin nafn sitt af vatninu.*

[46]) *Velvatnssveit, sjá næstu skýríng hjer á undan, einkum b-liðinn.*

[47]) *þessi. Í latínunni stendur hic* (þessi), *og er það orð tekið hjer svo, að það sje haft um enn einn mann, enn þriðja, auk þeirra tveggja, er áður eru nefndir úr Fabíasveit og Velvatnssveit.*

[48]) *vandbundin. Konúngar Rómverja, og síðan ýmsir enna æðri embættismanna þeirra, einkum þeir, er höfðu hervald* (imperium), *t. a. m. ræðismenn, alvaldsmenn og dómstjórar, höfðu eins konar þjónustusveina* (lictores), *er gengu fyrir þeim; liktorar þessir höfðu í höndum sjer bundin* (fasces) *af vöndum eða hrísgreinum* (virgae); *voru vendir þeir eða greinar lagðar saman, og bundið síðan um utan, og öx ein* (securis) *fest utan í hvert bundin (samanb. Leiðarvísi eptir Rich,* við orðið fasces). — *Af vandbundinum þessum köllum vjer liktora bundinsveina eða vandsveina, og höfðu bundinsveinar eða vandsveinar vönduna til að húðstrýkja menn með* (caedere), *og öxarnar til að höggva menn með* (ferire). *Að gefa einhverjum vandbundinin er sama sem að veita einhverjum eitthvert af þeim embættum, er vandbundin eða vandsveinar fylgdu.*

[49]) *fílbeinsstóll. Það var eitt af forrjettindum og ein af einkenníngum enna æðri embættismanna Rómverja (ræðismanna, dómstjóra, enna æðri húsgæzlumanna* — curules aediles *og* aediles curules —, *siðgæzlumanna, alvaldsstjóra og riddaraforíngja), að þeir höfðu eins konar tignarstól, er þeir á sátu* (sella curulis *og* curulis sella); *var stóll sjá búinn fílsbeini, og kalla rómversk skáld hann því stundum ebur (eða fílsbein), svo sem Hóraz gjörir hjer. Að taka fílbeinsstól frá einhverjum er sama sem að taka frá honum eitt af þeim embættum, er fílbeinsstóllinn fylgir, eða með öðrum orðum, eitt af enum æðri embættum.*

[50]) *að þú takir hvern einn upp í ætt þína, eptir því sem hann hefir aldur til,* osfrv. *Í orðum Hórazar liggur, að maður,*

8, Ef sá lifir vel og farsællega, er hefir góðan mat sjer til munns að leggja, þá er yður það að segja, að nú er orðið bjart; vjer skulum fara þángað, er maginn leiðir oss; vjer skulum fiskja og fara á dýraveiðar, svo sem Gargill[51] forðum gjörði; hann ljet þræla sína árdegis taka veiðinet og veiðispjót, og fara með þau yfir torgið fult af fólki[52], og ætlaði sjer þó eigi annað, en að láta lýðinn sjá einn af enum mörgu múlum koma aptur með keyptan villigölt. Laugum oss, er vjer[53] höfum nýtekið snæðíng og áður en í vömbinni sjatnar, og gleymum, hvað samir og eigi samir; högum oss svo, að vjer eigim skilið að vera á vaxspjaldi Serverja[54], og vera sem eð lastauðga róðrarhýski 56—63.

---

*er vill koma sjer í mjúkinn hjá þeim mönnum, er verða á vegi hans, skuli kalla þann mann föður, er eldri er en sjálfur hann, þann bróður, er á líkum aldri er, og þann son, er ýngri er.*

[51]) *Gargill þessi er oss að eins kunnur af þessum stað, en af orðum Hórazíusar hjer þykir ráða mega, að Gargill hafi verið, eða þótt vera, mikill ofneyzlumaður og yfirlætismaður.*

[52]) *fara yfir torgið fult af fólki,* osfrv. *Til forna þótti, sem enn á sumum stöðum, mikill frami að veiðiskap, og þykir líklegt, að Gargill hafi hagað svo ferð sinni, sem Hóraz segir hann gjört hafa, af því að hann hefir viljað, að menn skyldu ætla, að hann væri mikill veiðimaður, en veiðimenskan var þó eigi annað, en að Gargill keypti, eða ljet kaupa, gölt einn.*

[53]) *laugum oss, er vjer* osfrv. *Átfrekir ofneyzlumenn höfðu þann sið, að fara í vatn eða lauga sig, þá er þeir höfðu nýmatazt, svo að matur mætti því skjótara meltast, og sjálfir þeir því fyrr aptur til matar taka; samanb. t. a. m. Æfi Nerons hjá Svetoni sagnamanni, 27. kap.:* Epulas a medio die ad mediam noctem protrahebat, refotus saepius calidis piscinis, ac tempore aestivo nivatis, *þ. e. að voru máli: hann (þ. e. Neron) hafði svo lángan matmálstíma, að hann mataðist frá miðjum degi til miðnættis, og fór hann þá opt, sjer til endurhressíngar, í volg vatnsböð, er hann ljet kæla með snæ um sumrum.*

[54]) a, *vaxspjald Serverja (í latínunni hjá Horazi:* Caeres cera). *Þá er Gallar höfðu unnið Rómverja við Allíufljót (ár. 390 fyr. Kristsb.), og voru komnir til borgarinnar, getur Livíus þess í fimta þætti, 39. kapítula, að menn hafi tekið það ráðs í Rómi* (placuit), *að goðþjónn og meyprestar Arindísar* (flamen sacerdotesqve Vestales) *skyldu forða helgum dómum þjóðarinnar* (sacra publica) *frá báli og brandi, og fara með þá lángt braut frá borginni. Á næsta kapítula (enum fertuganda) má sjá, að goð-*

---

*þjónn sá, er Livíus um talar, hefir verið prestur Kvíríngagoðs* (flamen Qvirinalis); *á sama kapítula má og sjá, að þau prestur Kvíríngagoðs og hofmeyjar Arindísar hafa haldið til Serborgar í Sabafylki* (Caere). *Enn getur Livíus þess í enum sama þætti, fimmtuganda kapítula, að þá er Gallar voru braut farnir frá borginni, fekk Kamill alvaldsstjóri, auk annars, þeirri ráðskipan á leið komið* (senatus consultum facit), *að ríkið skyldi gjöra vináttusamband við Serverja* (cum Caeretibus hospitium publice fieret), *af því að þeir höfðu veitt viðtöku helgum dómum Rómverja og Prestum þeirra* (cum sacra populi Romani ac sacerdotes recepissent). *Enn síðar getur Livíus þess (í sjaunda þætti, 19. kap.), að Serverjar hafi fyrir frændsemis sakir við Tarkvínsborgarmenn (í Etrúrafylki) gengið í lið með þeim mót Rómverjum (ár. 353), og sögðu Rómverjar þá Serverjum hernað á hendur. Í næsta kapítula (enum 20.) getur Livíus þess, að Serverjar hafi beðizt undan hernaði; báru þeir þá það fyrir sig auk annars, að þeir hefði með skírlæti og guðhræðsluanda gistíng veitta goðaþjónum og Arindísarmeyjum Rómverja* (hospitium flaminum Vestaliumqve ab se caste ac religiose cultum invocabant). *Síðan segir Livíus (í sama kapítula), að Serverjum hafi friður veittur verið; á þeim enum sama stað segir Livíus og svo frá, að vopnahlje hafi gjört verið við Serverja umb hundrað vetra, og að svo hafi verið á kveðið, að geta skyldi vopnahjesgjörðarinnar í skipun öldungaráðsins* (pax populo Caeriti data, induciasqve in centum annos factas, in senatus consultum referri placuit). *Strabon af Kappadóki segir og svo frá í landafræði sinni (5. þætt., 2. kap.), að þá er Gallar hurfu aptur braut frá Rómi, hafi Serverjar ráðið á þá í Sabafylki, sigrað þá, og tekið frá þeim herfáng það, er þeir höfðu fengið hjá Rómverjum; svo segir Strabon og, að Serverjar hafi frjálsað menn þá, er flýið höfðu frá Rómi, og þar með enn eilífa eld og meyjar Arindísar. Því næst segir Strabon, að það sje ætlan sín, að tómlæti þeirra manna, er þá voru í stjórnarbroddi í Rómi, hafi svo mikið verið, að Serverjum hafi eigi verið betur þakkað en svo, að þeir hafi að vísu fengið borgmannarjett, en þó eigi verið teknir á skrá borgmanna, og segir Strabon enn, að Rómverjar hafi jafnvel sett nöfn þeirra manna, er eigi höfðu jafnrjetti við sjálfa þá, á spjald Serverja. Líkt þessu segist Álusi Gellíusi frá í Nóttum hans í Apenuborg* (Atticae Noctes, *16. þátt., 14. kap., 7. gr.*); *segir Gellíus þar, að hann hafi heyrt* (accepimus), *að Serverjar hafi fyrstir manna orðið lýðrjettismenn án borgmannarjetti* (municipes sine suffragii jure esse factos), *og að þeim hafi sá sómi sýndur verið, að þeir hlutu rómverskan borgmannarjett, en skyldu þó lausir vera við allar sýslur og*

---

*byrðar* (nt civitatis Romanae honorem qvidem caperent, sed nogotiis tamen atqve oneribus vacarent), *og segir Gellíus, að Serverjum hafi verið veitt þetta fyrir það, er þeir höfðu veitt viðtöku helgum dómum* (sacra) *í styrjöld Galla, og gætt þeirra. Síðan segir Gellíus, að svo hafi verið við vikið* (versa vice), *að spjöld þau, er siðgæzlumenn ljetu á rita nöfn þeirra manna, er þeir hegndu með sviptíngu atkvæðarjettar* (qvos notae causa suffragiis privabant), *hafi kölluð verið Serverjaspjöld* (tabulae Caerites). *En nú er þess að gæta, að Rómverjar veittu varla svo snemma, sem hjer er sagt, borgmannarjett án atkvæðarjetti* (civitatem sine suffragio), *en slík veitíng kom upp síðar, og er þess eigi glögglega getið, að Rómverjar hafi veitt borgmannarjett án atkvæðarjetti fyrr en árið 338 fyr. Kristsb., þá er Rómverjar höfðu unnið Latland alt, og vildu sýna sumum þjóðdeildum þar eins konar linkind, en þó eigi veita þeim mikil rjettindi; þykir því líklegt, að það, er þeir Strabon og Gellíus segja um rjettindahag Serverja á öndverðri enni fjórðu öld (ár. 390) fyrir Kristsburð, sje eins konar sambland mála, og margt af því sprottið af nokkurs konar misskilníngi manna á dögum þeirra Strabons og Gellíusar; og virðist líklegra, að greiníng borgmannarjettar og atkvæðarjettar hjá Serverjum hafi fyrst upp komið einhvern tíma eptir uppreist þá, er Serverjar gjörðu ár. 353, og eptir vopnahlje það, er gjört var það eð sama ár, og Livíus getur um (í sjaunda þætti, 20. kap.), svo sem hjer er áður sagt. Þetta þykja og styrkja orð skýríngamanns Jakobs af Krúski* (commentator — *eða* scholiastes — Cruqvianus) *við þenna stað Hórazar, er vjer hjer eigum við; segir skýríngamaður sá að vísu fyrst, líkt sem þeir Gellíus og Strabon, að Serverjum hafi veittur verið borgmannarjettur fyrir bjargir þeirra við helga dóma Rómverja* (sacra Romana) *og hofmeyjar Arindísar* (virgines); *skýríngamaður þessi segir og, að Serverjar hafi þá orðið lýðrjettismenn* (municipes), *en síðan, er þeir hafi dirft sig að gjöra uppreist mót Rómverjum, þá hafi þeir sigraðir verið, og fengið að vísu aptur borgmannarjett, en verið sviptir atkvæðarjetti, og að talníng þeirra hafi verið sett á önnur spjöld, en talníng annarra manna* (Caere oppidum in Italia fuit, qvo, capta a Gallis urbe, sacra Romana cum virginibus translata sunt, qvae cum servassent integra, pro eo beneficio Caerites civitate donati sunt municipesqve facti, at postea qvam sunt Romanis ausi rebellare, eis devictis, iterumqve civitate donatis, jus suffragiorum ademptum est, censusqve eorum in tabulas relati, a ceterorum censibus remoti sunt); *þessu næst segir skýríngamaður enn sami, að þaðan af sje kominn sá siður, að sagt var, að sá væri fluttur á spjöld Serverja, er einhverja klæki framdi* (hinc factum est, ut qvi aliqvid flagitii admitteret, in Caeritum tabulas relatus diceretur).

---

b, *Af því, er hjer að framan er mælt, virðist ráða mega, — 1, að Serverjar hafi árið 390 borgið helgum dómum Rómverja, presti Kvíríngagoðs og meyjum Arindísar; — 2, að Rómverjar hafi eð sama ár (ár. 390) gjört eins konar vináttusamband* (hospitium) *við Serverja, svo sem Livíus segir, en þó eigi veitt þeim borgmannarjett án atkvæðarjetti* (civitatem sine suffragio), *svo sem Gellíus segir og fleiri; — 3, að Serverjar hafi rofið vináttusamband sitt við Rómverja (ár 353), og gjört þá uppreist í móti þeim, en að Serverjum hafi þó það eð sama ár friður veittur verið, svo og vopnahlje umb hundrað vetra; — 4, að Rómverjar hafi einhvern tíma eptir þessa uppreist, er gjör var ár. 353, veitt Serverjum borgmannarjett án atkvæðarjetti, en eigi svo fljótt, sem Gellíus og sumir aðrir segja; og — 5, að orðtak það, er dregið er af spjaldi Serverja, hafi eigi komið af vináttusambandi því, er Rómverjar gjörðu við Serverja ár. 390, heldur af síðari veitíngu, er Rómverjar veittu Serverjum borgmannarjett án atkvæðarjetti, einhvern tíma eptir uppreist þá, er Serverjar gjörðu árið 353.*

c, *Auk þess, er hjer að framan er sagt um Serverja, getur Díon Kassíus þess (í 33. broti sögu sinnar), að Agyllíngar (en það er sama sem Serverjar, því að Serborg hjet fyrrum Agylla) hafi (eptir uppreist þeirra ár. 353) fengið frið með þeim kostum, að þeir ljetu helmíng lands síns* (εἰρήνης ἐπὶ τῷ ἡμίσει τῆς χώρας ἔτυχον), *og þykir það enn benda á, að Serverjar hafa orðið að sæta þúngum friðarkostum; og að lokum getum vjer þess, að hjá ritskýranda Festusi er þess getið við orðið praefecturae, að Serborg* (Caere) *hafi verið forstjóraborg* (praefectura), *og þá eigi lýðrjettisborg* (municipium), *svo sem Gellíus og fleiri segja, og segir Madvíg í Háskólaritum sínum* (Opuscula Academica, *en rjettara væri eptir fornri orðsetníngu:* Academica Opuscula), *fyrri deild, á 240. blaðs., neðst í neðanmálsgrein, að Gellíus, er var uppi um miðbik annarrar aldar ept. Kristsb., hafi valdið þeirri samanblandan* (Confusionis Gellius auctor), *en ef menn bera saman frásögn Gellíusar við frásögn Strabons, þá er hjer er áður um getið, en Strabon var fæddur nær miðri enni fyrstu öld fyrir Kristsburð, þá má sjá, að mikið af sagnablendíngi þeim, er á er orðinn hjá Gellíusi, þar er hann talar um Serverja, er eldra en Gellíus sjálfur, og að minsta kosti svo gamalt, sem Strabon, er fæddur var nær tveim öldum fyrir þann tíma, er Gellíus reit bók sína, þá er hjer er til vísað.*

d, *Að eiga skilið að vera á spjaldi Serverja, er sama sem að hafa eitthvað það að hafzt, er því veldur, að menn eru greindir frá siðvöndum mönnum og þykja ófrægismenn.*

Úlixess[55] Íþakseyíngs[56], en það mat meira bannaðan munað[57], en ættland sitt.

63—64.

---

[55]) a, *eð lastauðga róðrarhýski Úlixess* (remigium vitiosum . . . Ulixi).

b, *Um Úlixes (eða Odyssevs) er hjer áður talað, í 24. skýríngu við annað brjef bókar þessar, á fertugundu blaðsíðu. — Hjer er og áður, í sjaundu skýríngu við sama brjef, c-liðnum, nokkuð sagt af hrakníngum Odyssevs, þá er hann hvarf heim aptur frá Tróju.*

c, *Hóraz kallar hjer róðrarmenn Odyssevs eða sveitúnga lastauðga, og tekur þá til dæmis, er hann vill nefna ósiðvanda menn; kemur það af því, að ýmsar tiltektir þeirra sveitúnga Odyssevs þóttu illar vera og óviturlegar; það var eitt t. a. m., að þá er Odyssevs hraktist vestur til Afraálfu, og stje þar á land í bygð Lótetanda, sendi hann þrjá af sveitúngum sínum á land upp til njósna; bergðu menn þeir þá ávexti viðar þess, er þar var, og lót hjet eða júðaþorn, en það var eðli þess viðar, að þeir, er af neyttu, vildu engar fregnir aptur flytja, nje aptur heim hverfa, heldur fýsti þá að dveljast með Lótetöndum, neyta þar júðaþorns og hyggja af heimför; samanb. þrítugundu blaðsíðu hjer að framan, og Odyssevsdr., 9. þátt, 82. til 104. vísuorð. — Það er annað að segja af illum tiltektum Odyssevsmanna, að þá er Eóll vindaguð við Sikiley hafði gefið Odyssevi nautsbelginn, og þar í inni byrgða alla vinda nema vestanvindinn, og Odyssevs var kominn austur á leið í augsýn við ættey sína, Íþöku, þá leystu sveitúngar Odyssevs frá belgnum, og varð það Odyssevi að miklu ógagni; samanb. 30. blaðs. hjer að framan, og Odyssevsdr., 10. þátt, upphafið, til 79. vísuorðs. — Það er enn eð þriðja, að þá er Odyssevs kom til Æeyj-*

[56]) *Íþakseyíngur, það er frá Íþaksey (eða Íþöku, eða Íþök). Eyjar þessar er hjer áður stuttlega getið, í 24. skýr. við annað brjef bókar þessar (á 40. blaðs.); hún er ein af eyjum Iónahafs; hún liggur í landnorður upp undan Kefalsey (eða Kefallóníu), og í vestur undan suðurhlut Akarnanafylkis. Ey þessi er einkum orðin nafnkend af því, að Úlixes (eða Odyssevs) átti ríki þar. Hóraz getur hjer eyjar þessar skömmu síðar, í næsta brjefi (41. vísuorði), og er þar á bent, að á eynni var hvorki mikið flatlendi nje gnóglegt gras. Nú á dögum er ey þessi venjulega kölluð Teakí (eða Þeakí).*

[57]) *bannaður munaður. Hjer þykir líklegt, að Hóraz hafi einkum haft í hug sjer tiltektir manna Úlixesar, þá er þeir afræktust orð lávarðar síns, og lögðu hendur á naut Sólguðs á Sikiley; samanb. 55. skýríng brjefs þessa, á næstu blaðsíðu hjer á eptir, d-liðinn.*

9, Ef ekki er þægilegt án ástar og gamans, svo sem Mímnermus[58] ætlar, þá lif við ást og gaman.

65—66.

---

*ar, þar er Kirka bygði, glæptust menn hans á töfrablendíngi þeim, er Kirka bjó þeim, og gjörði þá svo að svínum; samanb. (30. og) 41. blaðs. hjer að framan, 28. skýríng, og Odyssevsdr., 10. þátt, 133. til 260. vísuorðs. — Það er enn eitt, eð fjórða, að þá er Odyssevs var sloppinn frá óvættunum Skyllu og Karybdis, og bar í nándir Sikileyju, þar er naut og sauðir Sólguðs Himinfarasonar voru, vildi Odyssevs eigi leggja þar að landi, af því að Teiresías spámaður af Þebu, og Kirka á Æey, höfðu lagt ríkt á við hann, að sneiða hjá ey Sólguðs mannakætis, en einn af förunautum Odyssevs, Evrýlokus, taldi svo um fyrir skipsögn Odyssevs, að Odyssevs varð undan að láta, og leggja að landi. Þó ljet Odyssevs sveitúnga sína áður eið vinna, að þeir skyldu eigi granda nautum eða sauðum á eynni, en nú fór svo, að þeim Odyssevi legaðist þar á eynni, og tóku sveitúngar Odyssevs það ráð að lokum, að þeir lögðu hendur á naut Sólguðs, og varð það að mikilli ógiptu; Sólguð vildi nú eigi lýsa á himnum, og heitaðist að fara til Ósýnisheima og lýsa þar nám* (νεκύεσσι), *en Sevs hjet Sólguði þá, að hann mundi brjóta skip Odyssevsmanna; varð það og síðar, þá er þeir Odyssevs lögðu frá eynni, að Sevs braut í smátt skipið með reiðiþrumu, og týndust menn allir, nema Odyssevs einn; samanb. 31. blaðs. hjer að framan, og Odyssevsdr., 12. þátt, 260. vísuorð til ens 425. vísuorðs.*

d, *Hóraz talar hjer þegar eptir um, að róðrarmenn (eða róðrarhýski) Odyssevs hafi meira metið bannaðan munað, en ættland sitt, og þykir líklegt, að Hóraz hafi þar einkum í hug glæpsku Odyssevsmanna, er þeir lögðu hendur á naut Sólguðs á Sikiley.*

[58]) a, *Mímnermus var uppi á síðara hlut sjaundu aldar fyrir Kristsburð, eða um mót ennar sjaundu og sjettu aldar; samanb. orðabók Svídasar orðskýranda (við orðið* Μίμνερμος*). Óvíst er, hverr verið hefir fæðíngarstaður Mímnermusar, en líklegast þykir, að Mímnermus hafi fæddur verið í Kólófonsborg, er var ein af tólf nýlendum Íóna á vesturhlut Ásheimsskaga; samanb. Svídas orðskýranda, á sama stað, sem fyrr.*

b, *Mímnermus var tvíhenduskáld (eða elegíuskáld), og er efnið í sumum kvæðum hans sögulegt, t. a. m. um baráttu Smyrnumanna við Gýges Lýdakonúng, en í sumum kvæðum sínum talaði Mímnermus aptur um nautn lífsins og ástir, hverfulleik æskunnar, og andmarka ellinnar og óþægindi. Kvæði Mímnerms voru í tveim flokkum, og hjet kvæðasafn það Nannó, eptir hljóðpípukonu einni, er Mímnermus unni mjög, og Nannó hjet.*

c. *Af kvæðum Mímnerms eru að eins brot eptir, og byrjar*

10, Vertu sæll, og líði þjer vel; ef þú kennir eitthvað það, er rjettara er en þetta, þá seg mjer það í hreinskilni, en sje eigi svo, þá neyt þess með mjer, er hjer er mælt.

## Sjaunda brjef[1]

til

*Mesenasar*[2].

Efni brjefsins.

*Fyrst þykir sjá mega á orðum Hórazar, að hann hefir farið á land út frá Rómi, og heitið enum ágæta velgjörðamanni sín-*

---

*eitt af brotum þeim á þessa leið:* Τίς δὲ βίος, τί δὲ τερπνὸν ἄτερ χρυσέης Ἀφροδίτης; Τεθναίην, ὅτε μοι μηκέτι ταῦτα μέλοι, κρυπταδίη φιλότης καὶ μείλιχα δῶρα καὶ εὐνή, *það er að voru máli: hvað er lífið, og hvað er unaðlegt, án ennar gullnu Ástargyðju? Ljúki eg þá aldri, er eg hirði eigi lengur um fólgna vinsemd, mjúklegar gjafar og mjúkan beð. — Þykir auðsætt, að Hóraz hefir haft þessi orð Mímnerms í hug sjer, þá er hann kvað það, er hjer er: ef ekki er þægilegt án ástar og gamans,* osfrv.

d, *Mímnermus hefir jafnan þótt gott skáld vera; svo segir t. a. m. Próperts um hann (í fyrsta flokki kvæða sinna, 9. kvæði, 11. og 12. vísuorði): Plus in amore valet Mimnermi versus Homero; carmina mansvetus lenia qvaerit Amor, þ. e. að voru máli: Vísuorð Mímnerms orka meira í ástum, en vísuorð Hómers; þýðleg ást þarfnast þýðlegrar kveðandi. — Hóraz getur Mímnermusar hjer síðar (í annarri bók, öðru brjefi, 101. vísuorði), og bendir Hórazius þar á, að Mímnermus hefir þótt vera með betri skáldum* (si plus adposcere visus, fit Mimnermus, osfrv.).

[1]) *Sjaunda brjef. Brjef þetta er að sumra ætlun ritið ár. 21 fyr. Kristsb., og þykir ráða mega af upphafi þess, að það hefir ritið verið á áliðnu sumri, eða síðast í ágústmánuði; samanb. fjórðu skýríng hjer á eptir.*

[2]) *Mesenas þessi er enn sami ágætismaður, sem sá, er eð fyrsta brjef bókar þessar er til; samanb. 3. skýríng við brjef það, og bætum vjer því hjer við það, er þar er sagt, að Mesenas hefir orðið svo ágætur fyrir velgjörðasemi sína, að nafn hans er bæði í latínumáli, og ýmsum enum nýrri túngum, haft að eins konar almennu heiti* (appellativum nomen, *Málfræðibók Díómedess, fyrsti þáttur, 322. blaðs., í útgáfu Keils) um velgjörðamann; samanb. smákvæði Marzíals, 8. þátt, 56. kvæði, 5. vísuorð:* Sint Maecenates, non derunt, Flacce, Marones, *þ. e. að voru máli: ef Mesenasa vantar eigi, Flakkus, þá man eigi Maróna*

*um, Mesenasi, að vera að eins nokkura daga á landi úti, en að dvöl hans utan borgar hefir lengur dregizt, en til var ætlað, og afsakar Hóraz sig með því, að honum hefir þótt hollara að vera utan borgar síðara hlut sumarsins, og gjörir Hóraz því næst ráð fyrir, að fara niður til sjávar, er haustar, en síðan aptur til Mesenasar í Rómi, er vorið kemur (1). — Þessu næst bendir Hóraz á, að velgjörðir Mesenasar við sig hafi eigi verið hjegómi einn, heldur sannar velgjörðir, og kveðst Hóraz vilja láta á sjá, að hann hafi eigi óverðugur verið enna ágætu velgjörða, er Mesenas sýndi honum (2). — Því næst bendir Hóraz á, að hann sje of gamall orðinn til að fylgja velgjörðamanni sínum stöðugt í öllum hans glaðværðum, og lætur Hóraz með allríkum orðum í ljós, að hann vilji heldur halda frelsi sínu óskerðu, en láta um of bindast af gjöfum (3). — Þessu næst bendir Hóraz á, að hverjum henti bezt, það er við hann á, og það, þótt lítið sje, og vill Hóraz styrkja þá sína ætlan með frasögnum, fyrst um Telemak Úlixesson, og síðan um lítilmótlegan mann, er komst í kunníngskap við mikinn höfðíngja, og breytti um stöðu sína, en hafði mæðu eina af umskiptunum (4). — Endi kvæðisins eru eins konar ályktarorð, og er þar á bent, að bezt sje að hverfa aptur í tæka tíð, þá er menn sjá, að það er betra, er menn hafa slept, en hitt, er menn hafa hrept, og er viðurkvæmilegt, að hverr láti sjer sama, það er honum samir, þótt smátt sje (5).*

Eg hafða lofað þjer, að vera fimm daga tíma[3] á landi úti, en nú hefi eg brugðizt þjer, og þú hefir mátt sakna mín allan enn sjetta mánað[4]; og þó er svo, að ef þú vilt, að eg lifi heill heilsu,

1—3.

---

*skorta, eða með öðrum orðum, ef einhverjir velgjörðamenn, slíkir sem Mesenas var, verða til að styrkja efnilega menn, þá man eigi skorta slík skáld, sem Virgilíus Maron var. — Á líkan hátt kemur og fyrir í dönsku máli:* mine ædle Patroner og Mæcenater, *þ. e. að voru máli: ágætir verndarmenn mínir og velgjörendur.*

[3]) *fimm daga tími, í latínunni:* qvinqve dies. *Orð þessi eru höfð hjer um óákveðna litla dagatölu, á líkan hátt sem orðið vikutími er haft hjá oss, og orðin:* otte Dages Tid, *hjá dönskum mönnum.*

[4]) a, *enn sjetti (eða enn sjötti) mánaður, þ. e. eptir voru*

og að mjer líði vel, þá verður þú, Mesenas, að láta það eptir
3.—4.

---

*mánaðatali ágústmánaður. Mælt er, að Rómúlus, er var enn fyrsti konúngur Rómverja (frá ár. 733 til árs. 716), hafi skipt árinu í tíu mánaði, og heitið enn fyrsta mánað eptir föður sínum, hergoðinu Mars, og kallað marsmánað (á lat.* mensis martius, *eða* martius mensis, *eða tómt* martius). *Annarr mánaður ársins var kallaður aprílmánaður (á lat.* mensis aprilis, *eða* aprilis mensis, *eða tómt* aprilis); *ætla sumir, að nafn mánaðar þessa sje dregið af fyrra hlut ens gríska nafns Venusar ástargyðju, en hún hjet að grísku máli Afrodíte, og þykir líklegt, að fyrri hlutur orðs þess sje kominn af enu gríska nafnorði afros* (froða); *stendur svo á Afrodítnafni þessu, eptir því sem segir í sumum fornum sögum (t. a. m. í Goðakyni Hesíóðs skálds, 173. vísuorði til ens 206. vísuorðs), að þá er Kronus Úransson himinguðs geldi föður sinn, og kastaði sköpum hans í sæ niður, varð þar af fróða, og af froðunni varð mær ein, og var hún kölluð Afrodíte, af því að hún ólst í fróðu* (οὔνεκ' ἐν ἀφρῷ θρέφθη, *Goðakyn Hesíóðs, 198. vísuorð), en nú var Afrodít eða Venus ættmóðir Rómúls, og því hafa sumir ætlað, að Rómúll hafi heitið annan mánað árs síns eptir nafni hennar (eða fyrra hlut þess), svo sem hann hjet enn fyrsta mánað eptir nafni föður síns, og kallaði hann marsmánað, (samanb. Rit Varrons um Latínumál, sjetta þátt, 4. kap., 33. gr.; Æfi Númu hjá Plútarki, 19. kap., og Satúrnshátíð hjá Makróbíusi, fyrsta þátt, 12. kap.); en þótt nú þessi afleiðsla aprílsorðsins, er hjer er um getið, hafi eitthvað sjer til styrkíngar, hefir þó jafnvel fornmönnum sjálfum eigi þótt hún með öllu líkleg, og hafa þeir nefnt aðra afleiðslu, það er að segja þá, að orð þetta væri leitt af enu latneska sagnarorði* aperire (að opna), *af því að í aprílmánaði tekur jörðin svo sem að opna sig (í enum suðlægu löndum; samanber þau þrjú rit, er síðast voru nefnd, á þeim stöðum, er þar er til vísað). Þriðji mánaður ársins var kallaður majusmánaður eða majumánaður (á lat.* mensis majus, *eða* majus mensis, *eða tómt* majus), *og ætla sumir, að sá mánaður hafi heitinn verið eptir Maju Atlantsdóttur jötuns, móður Merkúríuss sendigoðs. Fjórði mánaður ársins var kallaður júníusmánaður eða Júnonarmánaður (á lat.* mensis junius, *eða* junius mensis, *eða tómt* junius), *og ætla sumir, að það nafn sje dregið af ættnafni Markusar Júníusar Brútusar, er frjálsaði Rómverja fra yfirdrottnun konúnga, en aðrir ætla, að eð latneska orð* junius *hafi styzt úr* junonius, *og sje dregið af nafni Júnonar uppheimsdrottníngar. Hinir mánaðirnir sex höfðu nöfn sín af tölu þeirra í mánaðaröðinni, og voru kallaðir —1,* mensis qvintilis, *eða* qvintilis mensis, *eða tómt* qvintilis, *þ. e. að voru máli: enn fimti mánaður; — 2,* mensis sextilis, *eða* sextilis mensis, *eða tómt* sextilis *(svo sem hjer á þessum stað hjá Hórazi), að voru máli: enn sjetti mánaður; —*

mjer, er eg óttast að eg sýkist, er þú lætur eptir mjer, þá er 4.

---

3, mensis september, *eða* september mensis, *eða tómt* september, *þ. e.: enn sjaundi mánaður;* — *4,* mensis october, *eða* october mensis, *eða tómt* october: *enn átti mánaður;* — *5,* mensis november, *eða* november mensis, *eða tómt* november: *enn níundi mánaður; og* — 6, mensis december, *eða* december mensis, *eða tómt* december: *enn tíundi mánaður.*

b, *Núma Pompilíus, er var annarr konúngur Rómverja, bætti, að sögn fornra rithöfunda, tveim mánaðum, janúarmánaði og febrúarmánaði, við mánaði þá, er Rómull hafði sett, og var febrúarmánaður síðastur; ætla menn, að nafn janúarmánaðar (á lat.* mensis januarius, *eða* januarius mensis, *eða tómt* januarius) *hafi heiti sitt af nafni ens gamla ítalska goðs, Janusar upphafsguðs, en febrúarmánað (á lat.* mensis februarius, *eða* februarius mensis, *eða tómt* februarius) *hyggja menn nafn sitt hafa af enu latneska sagnarorði* februari (að hreinsast), *af því að á þeim mánaði, er nú var síðastur mánaða ársins, skyldu allir hreinsast láta.*

c, *Þá er Júlíus Sesar hafði unnið alla utanríkisfjándur sína, og var kominn í sína ena mestu dýrð, var það eitt, auk margs annars, er gjört var honum til vegs og frama, að enn fimti mánaður ens gamla árs* (mensis qvintilis) *var heitinn (ár. 44 fyr. Kristsb.) eptir ættarnafni hans, júlíusnafninu, og kallaður júlíusmánaður (á lat.* mensis julius, *eða* julius mensis, *eða tómt* julius), *af því að Júlíus Sesar var fæddur í þessum mánaði, enn tólfta dag mánaðarins, og getur Makróbíus þess í Satúrnshátíð, fyrsta þætti, 12 kap.), að Markus Antóníus Markusson, er var annarr ræðismaður árið 44, hafi upp borið nýmæli um breytíng þessa* (postea in honorem Julii Caesaris dictatoris, legem ferente M. Antonio, Marci filio, consule, julius appellatus est — mensis qvintilis —, qvod hoc mense a. d. qvartum idus qvintiles Julius procreatus sit). *Síðan var (ár. 8 fyr. Kristsb.) enn sjetti mánaður ens gamla árs* (mensis sextilis) *kallaður ágústmánaður (á lat.* mensis augustus, *eða* augustus mensis, *eða tómt* augustus), *eptir auknefni (eða viðurnefni) Sesars Oktavíans Ágústusar; vildu þá að vísu sumir kalla enn sjaunda mánað* (mensis september) *þessu ágústnafni, af því að keisarinn var fæddur í þeim mánaði (enn 23. dag mánaðarins), en tillögur þeirra manna urðu ríkari, er vildu láta kalla enn sjetta mánað svo, af því að í þeim mánaði hafði keisarinn fyrst orðið ræðismaður (enn 19. dag mánaðarins, ár. 43); svo hafði Ágúst og í þeim mánaði (ár. 29) átt þrenna sigurhelgi yfir fjandmönnum sínum eða ríkisins (fyrst yfir Dalmötum og Pannónum; síðan yfir óvinum ríkisins á sjó, og síðast yfir Egiptalandi), og enn hafði Ágúst í þeim mánaði komið Egiptalandi undir yfirvald Rómverja, og í enn fleira hafði mánaður sá orðið Ágústi giptusamlegur (samanb. Sögu Rómverja eptir Díon Kassíus, 55. þátt, 6. kap., og Satúrnshátíð hjá Makrób., fyrsta þátt,*

*12. kap.). Enn segir Sveton svo frá (í Æfi Ágústs), að þá er Ágúst dó (í ágústmánaði ár. 14. ept. Kristsb., enn 19. dag mánaðarins), var margt gjört honum til virðíngar, og vildu þá sumir flytja ágústmánaðarnafnið frá ágústmánaði til septembermánaðar, af því að Ágúst hafði fæðzt í septembermánaði, en dáið í ágústmánaði, en eigi getur Sveton þess, hvort nokkuð hefir orðið af þessum flutníngi.*

*d, Enn getum vjer þess hjer, að ýmsir mánaðir voru heitnir eptir sumum enna síðari keisara; svo getur t. a. m. Tasítus þess í Árbókum sínum (15. þætt., 48. kap., og fleirum kapítulum þar á eptir), að samsæri var gjört í mót Neroni keisara (ár. 65 ept. Kristsb.), en bert varð í aprílmánaði, hverjir voru samsærismenn; var þá margt gjört til vegs og virðíngar við keisara, til þakklætis fyrir varðveizlu lífs hans, og það auk annars á kveðið, að aprílmánaður (eða sá mánaður, er samsærið varð bert) skyldi kendur vera við keisara, og kallaður neronsmánaður* (mensisque aprilis Neronis cognomentum acciperet, *Árbæk. Tasít., 15. þátt., 74. kap.; samanb. Æfi Nerons hjá Svetoni, 55. kap.:* mensem aprilem Neroneum appellavit — Nero —). *Enn getur Tasítus þess í árbókum sínum (16. þætt., 12. kap.), að breytt var nöfnum majusmánaðar og júníusmánaðar, og majusmánaður kallaður kládíusmánaður, en júníusmánaður germaniksmánaður, en allt nafn keisarans var Neron Tiberíus Kládíus Sesar Ágústus Germaníkus, og má þá sjá, að majusmánaður hefir fengið kládíusnafnið eptir þriðja nafni keisara, en júníusmánaður germaniksnafnið eptir sjetta (eða síðasta) nafni hans. Enn bætum vjer því hjer við, að Dómizían (er var keisari Rómverja frá ár. 81 til árs. 96) tók sjer það viðurnefni, að hann kallaði sig Germaníkus, og nefndi síðan enn sjaunda mánað* (mensis september) *germaniksmánað* (mensis germanicus), *af því að Dómizían hafði á þeim mánaði keisari orðið, en enn næsta mánað (enn átta,* mensis october) *kallaði Dómizían dómizíansmánað, af því að hann hafði fæðzt í þeima mánaði (samanb. Æfi Dómizíans hjá Svetoni, 13. kap., og Satúrnshát. hjá Makrób., fyrsta þátt, 12. kap.). — Svo var og síðar, á dögum Kommódusar (er var keisari frá ár. 180 til árs. 192), að allir tólf mánaðir ársins voru kallaðir eptir ýmissum nöfnum keisara, höfuðnafni hans, viðurnefnum og auknefnum; svo var t. a. m. septembermánaður (eða ágústmánaður) kallaður kommódus af höfuðnafni keisara. Kommódus hafði tekið sjer mörg viðurnefni; var t. a. m. eitt af nöfnum þeim ósigrandi (á gr. ἀνίκητος, á lat.* invictus); *annað farsæll (á gr. εὐτυχής); eitt var Herkúll enn rómverski* (Ῥωμαῖος Ἡρακλῆς), *og fleira því um líkt; skyldu slík nöfn sýna, að keisari var mikill heppnismaður og sigursæll, og mikill burðamaður eða aflraunamaður, en af þessum og þvílíkum viður-*

*nefnum fengu mánaðir ársins aptur ný nöfn, og var einn mánaðurinn t. a. m. kallaður ósigrandi* (ἀνίκητος, invictus), *annarr farsæll* (εὐτυχής), *en þriðji Herkúlesmánaður* (Ἡράκλειος), *og fleira eptir því (samanb. Rómverjasögu Díons Kassíusar, 72. þátt, 18. kap.; Keisarasögu Áreliúss Viktors, 17. kap., og Æfi Kommódusar eptir Lampridíus, 11. kap.), en öll sú dýrð, er þeir Neron, Dómizían og Kommódus fengu af enum nýju mánaðanöfnum, varð eigi lánggæð, því að hún hvarf þegar eptir dauða þeirra.*

e, *Um mánaðatal Grikkja er oss lítið kunnugt lengi vel framan af, og má heita, að vjer vitum ekki með vissu um það, fyr enn á síðara hlut fimtu aldar fyrir Kristsburð; þá setti Meton (ár 432) nýjan árahríng, og er oss kunnugt, að Aþenuborgarmenn, er voru höfuðþjóð Grikklands, byrjuðu nú ár sitt með þeim mánaði, er kallaður var hekatombæonsmánaður (eða hundrað nauta mánaður, eða stórblótsmánaður), en sjá mánaður byrjaði einhvern tíma um miðjúng júlímánaðar eptir voru mánaðatali. Nöfn enna aþensku mánaða og röð þeirra var, sem hjer skal sagt; fyrst var hekatombæonsmánaður (eða stórblótsmánaður); þá metageitníonsmánaður (eða fardagamánaður); þá boedromíonsmánaður (eða sigurmánaður); þá pýanepsíonsmánaður (eða baunseyðismánaður); þá mæmakteríonsmánaður (eða hrakviðramánaður); þá Poseidonsmánaður (eða Sævaldsmánaður); þá gamelíonsmánaður (eða hjúskaparmánaður); þá anþesteríonsmánaður (eða blómmánaður); þá elafebolíonsmánaður (eða hjartveiðamánaður); þá múnykíonsmánaður (eða Múnyksdísarmánaður); þá þargelíonsmánaður (eða frumgróðamánaður), og síðast skíroforíonsmánaður (eða sólhlífarmánaður). — Stórblótsmánaður byrjaði, sem áður er sagt, um miðjúng júlímánaðar eptir voru mánaðatali, en endaði um miðjúng ágústmánaðar; fardagamánaður hófst þar, er stórblótsmánaður endaði, og náði fardagamánaður fram í miðjúng septembermánaðar, og svo tók hverr mánaðurinn við af öðrum, þar til er sólhlífarmánaður endaði árið um miðjúng júlímánaðar eptir voru mánaðatali.*

f, *Eitt af kvæðum Sveinbjarnar Egilssonar er kallað: Attneskir mánuðir; er í kvæði því bent á, hvað hvergi mánaður ársins heitir, eða hvað helzt þykir einkennilegt við hverngi mánað eptir enu gríska heiti hans. Þetta kvæði Sveinbjarnar Egilssonar stendur í Ljóðmælum hans, fyrri deild, á 154. og 155. blaðsíðu, og látum vjer það hjer prenta.*

1. erendi:

*Sumri hæfðu hundraðsblót,*
*höfð á grönnum skipti,*
*Þeseifur við missiris mót*
*meyjar gagni svipti.*

2. erendi:

*Seyði bauna haust upp hóf,*
*harður stormur gnúði,*
*Ægis forkur öldu skóf,*
*aflið sterka knúði.*

| 3. erendi: | 4. erendi: |
| --- | --- |
| *Vetur hjóna hnýtti band,* | *Vorið kvaddi Múnyksmey,* |
| *haga skaut upp blóma,* | *minzt var Þargels-tíða,* |
| *eltir hirtir alt um land* | *sólhlíf borin bleik, sem hey,* |
| *Artemis til sóma.* | *um borgarstræti víða.* |

*g) Fornmenn vorir eða forfeður höfðu ýms mánaðanöfn sjer, er koma fyrir á ýmissum stöðum í fornritum vorum; svo er t. a. m. nokkurra þessa nafna getið í Snorraeddu í Skáldskaparmálum, 63. kap., á bls. 510 og 512 (í enni stóru Kaupmannahafnar útgáfu); þar stendur svo: Haustmánuðr heitir inn næsti fyrir vetr; fyrstr í vetri heitir gormánuðr, þá er frermánuðr, þá er hrútmánuðr, þá er þorri, þá gói, þá einmánuðr, þá gaukmánuðr ok sáðtíð, þá eggtíð ok stekktíð, þá er sólmánuðr ok selmánuðr, þá eru heyannir, þá er kornskurðarmánuðr. — Þessi og önnur þvílík mánaðanöfn, er fornmenn höfðu, eru nú vel flest að miklu leyti horfin; höfum vjer nú um meira en fjórar aldir, eða síðan er en lúterska trúarbót komst á hjer á landi, og útlent bókfræðasnið fór smám saman meir og meir að smeygja sjer hjer inn, haft mestmegnis eð latneska eða rómverska mánaðatal, að minsta kosti framan af í bókum og ritum, og síðan í tali og ritum. Við þetta hafa en fornu mánaðanöfnin smám saman horfið og gleymzt, og má nú eigi heita, að eptir sje af þeim nema þorranafnið, góinafnið og einmánaðarnafnið; þó eru ýms forn mánaðanöfn nú á enum síðari árum, síðan er farið var að prenta almanök á íslenzka túngu, sett með dagatali sínu aptan við eð rómverska dagatal, og byrjar t. a. m. sá mánaður, er hafður er fyrstur eptir enu forna mánaðatali, en það eru heyannir (eða heyannamánaður), 24. dag júlímánaðar ár. 1864; annarr mánaður ens forna árs (eða tvímánaður, eða kornskurðarmánaður) byrjar það eð sama ár (1864) 23. dag ágústmánaðar, og svo byrja og hinir tíu mánaðir ens forna árs (haustmánaður eða garðlagsmánaður, gormánaður, frermánaður eða ýlir, mörsugur eða hrútmánaður, þorri, gói, einmánaður, harpa eða gaukmánaður, skerpla og sólmánaður eða selmánaður) í síðara hlut enna tíu mánaða ens rómverska árs, septembermánaðar, októbermánaðar, nóvembermánaðar, desembermánaðar, janúarmánaðar, febrúarmánaðar, marsmánaðar, aprílmánaðar, maímánaðar og júnímánaðar.*

*h) Enn margfróði og margvitri landi vorr, Finnur Magnússon, hefir ritað fróðlega ritgjörð á latínumáli um skipan ens forna árs hjá Norðurlandabúum* (Specimen Calendarii gentilis Veterum Gothorum, Danorum aut Scandinavorum); *er ritgjörð sú prentuð aptan við eð þriðja (og síðasta) bindi Sæmundareddu, í enni stóru Kaupmannahafnarútgáfu, er prentuð er í þrem deildum, árið 1778, 1818 og 1828. — Í ritgjörð þessi lætur Finnur eð forna*

eg em sjúkur, það er að segja, meðan[5] enn fyrsti þroskatími fíkjunnar og hitinn skreyta[6] greptrunarstjórann með svörtum vandsveinum, og meðan allir feður og umhyggjusamar mæður eru fölvar af ótta og umhugsun um börn sín, og meðan þjónustusamleg umönnunarsemi[7] og smáleg torgsýsla[8] draga að mönn-

4.—9.

---

*ár byrja árið 1827 með enum 23. degi nóvembermánaðar eptir enu forna rómverska mánaðatali, og enda árið 1828 með 22. degi nóvembermánaðar.*

*i) Enn margfróði landi vorr, Páll lögmaður Jónsson Vídalín, hefir og ritað mjög fróðlega um mánaðatal vort í skýríngum sínum á fornyrðum Jónslagabókar, við orðin einmánaður og tvímánaður.*

[5]) *meðan enn fyrsti þroskatími fíkjunnar og hitinn skreyta* osfrv., *þ. e. í septembermánaði, eða öndverðum þeim mánaði, eða um það bil; þá hefir þótt hætta búin af hitanum eða veðráttufarinu, en þess er að gæta, að hjer er talað um land sunnarlega í heimi.*

[6]) a, *skreyta greptrunarstjórann með svörtum vandsveinum. Það var siður hjá Rómverjum við úthafníngar dáinna manna, að minsta kosti þeirra manna, er málsmetandi þóttu, að maður einn var til fenginn, sá er sjá skyldi um jarðarför og skipa öllu niður; er sá maður hjer kallaður greptrunarstjóri (á lat.* dissignator, *eða* disignator, *eða* designator).

b, *Við úthafníngar heldri manna hafði greptrunarstjóri þjónustumann* (accensus) *og vandsveina* (lictores) *með sjer, og bendir Hóraz hjer á, að vandsveinar hafa verið svartklæddir, en svartur klæðalitur jartegnar ílíkíng dauðans, að hann þykir svartlegur og sorglegur.*

c, *Að skreyta greptrunarstjóra með svörtum vandsveinum, er sama sem að valda dauða heldri manna, og það hjer aptur sama sem að valda dauða manna alment.*

[7]) *þjónustusamleg umönnunarsemi (í latínunni hjá Hórazi:* officiosa sedulitas). *Það var ein af siðvenjum Rómverja, að minna háttar menn, einkum skjólstæðíngar enna heldri manna* (clientes), *gengu um morgna til húsa þeirra manna, er meira máttu, eða verndarmanna sinna* (patroni), *og buðu þeim góðan dag* (salutabant); *síðan fylgdu þessir enir lítilmótlegri menn enum meira háttar mönnum til torgs, og veittu þeim svo eins konar fullting og sóma. Þessi siður olli því, að fleira fólk þyrptist opt saman á torginu, en ella mundi orðið hafa, og mátti slík samflykkíng auðveldlega því valda, að menn sýktust og dóu, og því kemst Hóraz hjer svo að orði, sem hann gjörir.*

[8]) *smáleg torgsýsla. Svo kallar Hóraz hjer ýmiss störf, er gjörðust á höfuðtorgi Rómverja, t. a. m. penníngaviðskipti,*

um vanheilendi og opna[9] erfðaskrár. En er skammdegið kemur og snær tekur að falla á landið við Hvítborg[10], þá man skáld

9.—11.

---

*opnan erfðaskráa, veðlagníngar, vættisburði, og fleira því um líkt.*

[9]) *opna erfðaskrár.* a, *Það var miklu tíðara hjá Rómverjum en oss, að menn dóu barnlausir, og af þeirri orsök, auk annarra orsaka, kom það, að erfðaskrár voru miklu tíðari hjá þeim en oss. Að opna erfðaskrár er hjer sama sem að valda dauða manna; samanb. 6. skýríng hjer að framan,* c-*liðinn, svo og 7. skýríng.*

b, *Á dögum Ágústs keisara kvað svo mikið að barnafæð hjá Rómverjum, að þeim mönnum var ömbun heitið, er þrjú börn eignuðust* (trium liberorum jus, *og* jus trium liberorum).

[10]) a, *landið við Hvítborg. Lítið eitt í landsuður frá Rómi liggja fjöll þau, er kölluð eru Hvítborgarfjöll. Fjöll þessi eru svo löguð, að auðsjeð er, að þau eru komin af jörðu upp við eldsumbrot. Þau standa sjer á Rómsljettu, er svo er kölluð, og er lítið er á fjallbálk þenna allan, er hann fyrst til að sjá að neðanverðu sem hríngur einn, og er hríngur sá nær þíngmannaleið að umfararmáli, en innan hríngs liggur hríngdalur. Upp frá hríngdal þessum myndast annarr hríngur, og er sá mjórri en enn neðri; þessum hríng fylgir og hríngdalur innanvert. Sá hlutur, er hæstur er á þremi þeim, er gengur um þenna enn efra og innra hríngdalinn, er nú kallaður Hola Fell* (*á ítölsku:* Monte Cavo), *en sá enn sami hlutur fjalla þessa var að fornu einkannlega kallaður Hvítborgarfell* (Mons Albanus *og* Albanus Mons). *Frá hvirfli Hola Fells* (*eður Hvíta Fells*) *sjest eigi að eins allur enn efri og innri hríngurinn, og hríngdalur sá, er þeim hríng fylgir, en þaðan sjest og hríngur einn í hallandanum í vestur, eigi allstórr, og er vatn í þeim hríng; þetta vatn er nú kallað Kastalavatn* (Lago di Castello), *en að fornu var það kallað Hvítborgarvatn* (Lacus Albanus).

b, *Þá er Eneas Ankísesson kom til Ítalalands, og hafði gengið að eiga Laviníu Latínusdóttur Latlendíngakonúngs, er mælt, að hann hafi gjöra látið borg þá, er hann hjet eptir nafni drottníngar sinnar Laviníu, og kallaði Laviníuborg* (*á lat.* Lavinium). *Borg þessi lá lítið eitt í landsuður frá Hvítborgarfelli.*

c, *Enn er svo frá sagt í fornum sögum, að Askaníus Eneasson gjörði borg eina efst á landnorðurþremi Kastalavatns* (*eður Hvítborgarvatns*), *og fluttist nú þángað konúngssetu frá Laviníuborg. Borg þessi var kölluð Hvítborg* (*á lat.* Alba), *og af því að leg borgarinnar var lángt, var hún og kölluð Hvítborg en lánga* (Longa Alba *og* Alba Longa). *Af borginni fekk síðan fjallið, er hún stóð vestan í, og fjallbálkurinn allur, nafn sitt, svo og vatnið, er neðan undir borginni lá.*

þitt hverfa niður til sjávar, og fara varlega með sig, og hafa lítið um sig og lesa; en[11] er vestanvindarnir taka aptur að blása og en fyrsta svala kemur, þá man skáldið aptur heimsækja þig, ástúðlegi vin, ef það er eigi móti vilja þínum.

2, Þú hefir eigi auðgað mig á sama hátt, sem[12] húsráðand-

9.—12.

---

d, *Á fyrra hlut sjaundu aldar fyr. híngaðb. Krists (nær ár. 667) ljet Túllus Hostilíus, þriðji konúngur Rómverja, flytja alt mannfólk úr Hvítborg til Róms, og rífa borgina sjálfa niður, og með því að Hvítborg hafði áður verið höfuðborg ens latneska sambands, var nú sem yfirforysta sambands þessa hefði og fluzt til Róms.*

e, *Niður undan Kastalavatni, í vestur og útsuður frá vatninu, myndaðist seinna meir eins konar bygð, og er þess getið, að ýmissir af stórmenni Rómverja áttu þar stóra garða* (villae), *t. a. m. Pompeius mikli og Dómizían keisari, en af stórgörðum þessum varð eins konar býr, er kallaður er Hvíti býr (á latnesku* Albanum, *á ítölsku* Albano).

f, *Af því að Hóraz talar hjer um landið við Hvítborg eður við Hvítborgarfjöll, þykir ráða mega, að hann verið hafi einhvers staðar eigi lángt frá fjöllum þessum, þá er hann reit brjef þetta, og hafa því sumir ætlað, að hann hafi þá verið í Prenestsborg, er lá í tæpt landnorður frá fjöllunum, og eigi mjög lángt frá þeim. Samanb. upphaf annars brjefs bókar þessar.*

[11]) a, *en er vestanvindarnir taka aptur að blása, og en fyrsta svala kemur,* osfrv. *Svo er hjer, sem optar, að vestanvindarnir þykja á benda, að veður batni og vor komi. Er og svo um svöluna, að koma hennar bendir á, að vorið sje í nánd, eða sje þegar komið, en þó að svo sje, að koma svölu og koma vors sje opt samfara, hefir fornmönnum þó stundum þótt út af því bregða, og þótt vorið síðar koma, en ein svala eða fáar svölur, og er þar af sprottinn orðskviður sá, er Aristóteles heimspekíngur hefir í Siðfræðum sínum til Níkomaks, fyrsta þætti, sjaunda kapit., 16. gr.:* μία χελιδὼν ἔαρ οὐ ποιεῖ (una hirundo ver non facit), *þ. e.: eigi er vor komið, þótt ein svala komi; samanb. enn danska orðskvið:* Een Svale gjör ingen Sommer.

b, *Rómverjar byrjuðu vorið sjaunda dag febrúarmánaðar; samanb. Akuryrkjubók Varrons ens fróða, fyrsta þátt, 28. kap. Hjá oss er vorið látið byrja um jafndægur á vor, og er það, ef til dæmis skal taka árið 1864, tuttugasti dagur marsmánaðar.*

[12]) *sem húsráðandinn í Kalabrafylki. Sumir ætla, að Hóraz bendi hjer á með orðum sínum, að Kalabrar hafi alment þótt heldur ógestrisnir menn; aðrir ætla, að Hóraz hafi lijer í hug sjer einhverja sögu, er gengið hefir af einhverjum*

inn í Kalabrafylki[13] býður gesti sínum að neyta perna[14]; snæð kunníngi, segir húsráðandi. Eg þakka fyrir, segir gestur; nú er ærið veitt. Tak þá með þjer svo mikið, sem þú vilt, segir húsráðandi. Nei, eg þakka fyrir, segir gestur; eg ætla ekki að taka. Börnunum þinum man þó eigi illa koma, að fá ofur litið í höndina, þá er þú kemur heim, segir húsráðandi. Þakka fyrir, segir gestur; söm er þín gerðin, sem þótt eg færi klyfjaður heim. Þú ræður, segir húsráðandi; ef þú skilur þetta eptir, fá grísirnir það í dag. Eyðslusamur maður og óvitur gefur það, er hann sjálfur smáir og virðir að vettugi. Þetta sáð hefir af sjer gefið óþakkláta menn, og man gjöra það um aldur og æfi. Góður maður og vitur kveðst vera albúinn að gjöra þeim gott, er gott eiga skilið, og þó er honum eigi ókunnigt, hverr munur er á eirpenníngum[15] 14.—23.

---

*einum manni í Kalabrafylki, þeim er þótt hefir fara líkt því, sem hjer er frá sagt, og ætti þá heldur að vera þálegur tími* (bauð og sagði), *en núlegur tími* (býður og segir), *í samtali því, er hjer kemur á eptir. Enn ætla aðrir, að Hóraz hafi hvortki haft hjer í hug sjer Kalabra alment, nje nokkurn einn mann sjerstaklega, heldur bóndamenn alment, en hjer er, sem optar, þar er þykir leika á ýmissum skýríngum, að litlu skiptir, hver skýríngin rjettust er, ef höfuðhugsan höfundar er glögg, en svo er hjer, að Hóraz vill sýna með sögu sinni, að velgjörðir þær, er Mesenas hafði veitt Hórazi, hafi eigi verið hjegómi einn, heldur sannar velgjörðir ok mikils verðar.*

[13]) *Kalabrafylki (eða Kalabría), það er sá hlutur Ítalalands, er lengst gengur í landsuður, en það er, eptir því sem nú er kallað, neðri hluturinn, eða landsuðurhluturinn, af bygðarlaginu Púlja (eptir ítölskum rithætti* Puglia), *en sá hlutur landsins neðanverðs, er lengst gengur í útsuður, og áður var kallaður Brúttíafylki (á lat.* Bruttii), *er nú kallaður Kalabría (eða Kalabrafylki).*

[14]) *perur, eins konar eplategund, og þykir hjer lítið til þeirra koma.*

[15]) *eirpenníngar (í latínunni hjá Hórazi:* aera). *Gjaldeyrir Rómverja var fyrst framan af búfje, einkum naut og sauðir; síðan höfðu Rómverjar vegið eir að gjaldeyri; því næst höfðu þeir mótaða eirpenninga, og þar með enn síðar silfurpenninga (frá ár. 269 fyr. Kristsb.; samanb. 32. skýríng við fyrsta brjef bókar þessar, 14. blaðs.), og enn síðar höfðu þeir gullpenninga með eirpenníngum og silfurpenníngum. Hjer er*

og fíkbaunum[16]. Eg man haga mjer svo, að samboðið sje lofi því, er velgjörðamaður minn á skilið[17].

3, Ef svo er, að þú vilt eigi, að eg fari neitt á braut, þá verður þú að láta mig fá aptur hraust brjóst, dökt hár og mjótt enni[18]; þú verður þá að veita mjer aptur sætt mál og fagurt bros, og ángur og trega af því, ef en kerskna Sínara[19] hleypur á braut, meðan á drykkju stendur[20].

Mjóslegin refkind[21] hafði einhverju sinni skriðið um þröngva

24.—29.

---

*talað um eirpenninga, og þykja þeir góður gjaldeyrir að dómi Rómverja, en hjá oss þykir heldur lítið til koma eirpenninga.*

[16]) *fíkbaunir* (*eða úlfbaunir, á þýðversku* Feigenbohnen, *á latnesku* lupina) *er baunategund ein, en baunir þær höfðu Rómverjar stundum að gjaldeyri í gamansagnaleikum og taflleikum (samanb. Púnverjann Litla eptir Plátus, priðja þátt, annað atriði, 20. vísuorð* osfrv., *og Lögbók Jústiníans, þriðja þátt, 43. atriði — um taflmenn og taflleik —, fyrstu grein), og þar af kemur það, að Hóraz berr hjer saman fíkbaunir og eirpenninga, og þykja fíkbaunir lakari gjaldeyrir en eirpenníngarnir, en það vill Hóraz sýna hjer með orðum sínum, að Mesenas viti að greina sannar velgjörðir frá hjegómlegum velgjörðum.*

[17]) *Eg man haga mjer svo, að samboðið sje lofi því, er velgjörðamaður minn á skilið, í latínunni hjá Hórazi:* dignum praestabo me etiam pro laude merentis. *Ef sú þýðíng er rjett, er hjer er höfð, vill Hóraz segja með þessum sínum orðum, að hann muni haga sjer svo, sem enn loflegi velgjörðamaður hans á skilið, svo að hann þurfi eigi vansæmd að hafa eður hugarángur af því, að velgjörðir hans komi eigi niður á verðuglegum stað.*

[18]) *dökt hár og mjótt enni, það er hjer með öðrum orðum sama sem: æska, því að það er eðli ellinnar, að hún gjörir hárið grátt eða hvítt, en það fylgir og optast ellinni, að hárið fellur af og breiðkar ennið við það.*

[19]) *Sínara var gömul kunníngjakona Hórazar, og minnist hann hennar optar en hjer.*

[20]) *meðan á drykkju stendur. Glaðværðarmenn hjá Rómverjum sátu optlega að drykk um kveldum, og höfðu þá opt hjá sjer skemtikonur sínar, og bendir Hóraz hjer á þann sið með orðum sínum.*

[21]) *refkind (á lat.* vulpecula *eða* volpecula). *Refurinn er eitt af kjötætudýrum, en eigi kornætum, og hefir því sumum þótt misjafnlega við eiga, það er Hóraz hjer gjörir, að láta ref feita sig eða fylla í kornbyrðu; svo þótti t. a. m. enum nafnkenda enska málfræðíngi Bentlí (eptir enskum rithætti* Bent-

smugu inn í kornbyrðu, og er hún hafði nært sig þar, og var orðin full og feit, leitaði hún við að fara út aptur, en mátti eigi út komast. Hreysiköttur[22], er stóð fjarri, mælti þá við refsu: ef þú vilt komast þaðan, er þú nú ert stödd, þá verður þú að megrast, áður en þú leitar aptur til ennar þröngu holu, er þú fórst mögur inn um. Ef eg em ávarpaður með þessu dæmi, þá sleppi eg öllu, og eg lofa eigi svefn alþýðu, af því að eg em saddur af alifuglum, og sel eigi af hendi eð frjálslega næði, þótt í boði væri auðæfi Araba. Þú hefir opt lofað hæversku mína og siðsemi, og heyrt mig kalla þig konúng og föður, og það hefi eg engu síður gjört, þó að þú hafir verið fjarstaddur. Hygg nú að, hvort eg get með glöðu geði skilað því aptur, er mjer hefir gefið verið.

4, Eigi fóru Telemaki[23], syni ens þolgóða Úlixesar, illa 29.—40.

---

ley), *er fæddur var ár. 1662 (ept. Kristsb.), en dó ár. 1742; datt Bentlí í hug, að setja hjer* nitedula (heslimús) *fyrir fornan ritháttt handrita,* volpecula, *en þótt nú þessi breytíng Bentlís sje hugvitsamleg, sem margt annað hjá honum, þykir hún þó eigi nauðsynleg, af því að menn, er vilja sýna eitthvað með dæmisögum, fara eigi jafnan svo ríklega eptir því, er næst þykir vera venjulegu eðlisfari; svo er t. a. m. hjer, að litlu skiptir, hvort refurinn fyllir sig og feitir á korni eða öðru, en höfuðmerkíng samlíkíngarinnar er í því fólgin, að refurinn fyllir sig og feitir á þeim stað, er honum verður síðan óhaldkvæmur.*

[22]) *Hreysiköttur (eða hreysivisja, eða hreysivisla; á dönsku* Væsel, *á þýðverku* Wiesel, *á latnesku* mustela) *er eitt af enum minni tágöngudýrum (að latínumáli síðari dýrfræðínga:* digitigradi), *svo sem eru hundar, kettir og refar. Dýr þetta hefir þótt kyndugt og viðsjávert, og því fara Plátusi gamansagnaskáldi svo orð, sem honum fara í leiksögu sinni, Stiki, þriðja þætti, öðru atriði, 43. vísuorði* osfrv: Certum'st mustelae posthac nunqvam credere, nam incertiorem nullam novi bestiam, qvaene et ipsa decies in die mutat locum, þ. e.: *eg hefi staðráðið, að trúa aldregi hreysiketti hjeðan í frá, því að eg kenni ekki kykvendi, það er úvísara sje en hann; hann breytir jafnvel tíu sinnum um stað á dag. Hóraz lætur og hreysiketti fara hjer kænlega orð.*

[23]) a, *Telemakus var sonur Úlixesar Íþakseyjarkonúngs, og Penelópu Íkaríusdóttur. Þá er lengi þótti dragast, að Úlixes, faðir Telemaks, kæmi aptur frá Tróju, fór Telemakus heiman, að spyrjast fyrir um föður sinn hjá Grikkjum,*

orð; Íþaka er eigi, mælti hann, hestum hent; þar er hvortki flatt víðlendi, nje gnóglegt gras; eg ætla að láta þig, Atrevsson, halda gjöfum þínum; þær eiga betur við sjálfan þig. Smátt hæfir smám; mjer gezt nú eigi lengur að enu konúnglega Rómi, heldur að enu mannauða Tíbúri[24], eða enu óherská Tarenti[25].

Filipp[26], er var mikill atkvæðamaður og ágætur fyrir málaflutníng sinn, gekk einhverju sinni nær áttu stundu[27] heim frá störfum sínum,

40.—47.

*þeim er heim voru komnir. Fór hann þá fyrst til Nestors, konúngs í Pýlus á Pelopsey, og þaðan aptur til Menelauss, konúngs í Spörtu. Menelaus veitti Telemaki góðar viðtökur, og vildi gefa honum hesta að skilnaði, en Telemakus færðist undan að þiggja gjöfina, og kvað sjer eigi hesta vel henta á Íþaksey.*

b, *Enn nafnkendi, ágæti frakkneski rithöfundur Fenelon, er fæddur var ár. 1651, en dó ár. 1715, hefir ritað skáldsögu eina, er hann kendi við Telemak, og kallaði Æfintýr Telemaks (á frakkn.:* Les Aventures de Télémaque); *vildi Fenelon sýna með sögu þessi, hvílík uppfæðsla úngs höfðíngjaefnis skyldi vera, og þykir saga sjá einkar vel samin.*

[24]) a, *Tíbúr, nafnkend borg, er lá við Aníonfljót í Latlandi (enu forna), í austur, og lítið eitt í norður, frá Rómi. Þar er Aníonfljót, er nú heitir Teveróne, rennur fram hjá Tíbúr, var, og er enn, foss einn einkar fagur, sextigu feta hár. Tíbúr er nú kallað Tívólí, og þykir þar mjög fagurt, og þaðan af hafa ýmissir skemtistaðir, er menn hafa á síðari tímum gjört sjer til gamans og dægrastyttíngar, fengið nafn sitt, og eru kallaðir tívólí; svo er t. a. m. eitt tívólí vestan til við Kaupmannahöfn í Danmörku.*

b, *Hóraz kallar Tíbúr mannautt* (vacuum), *af því að honum þykir þar mannfátt, t. a. m. í samanburði við enn mikla fólksfjölda í Rómi.*

[25]) *Tarent, alkunn borg norðast á vesturströnd Kalabrafylkis, við landamæri Apúlafylkis; borgarmenn voru auðgir vel og mjög sællífir.*

[26]) *Filipp þessi hjet öllum nöfnum Lúsíus Marsíus Filipp; hann var ræðismaður árið 91 fyr híngaðb. Krists, og þótti heldur góður ræðumaður. Saga sú, er Hóraz segir hjer um þá Filipp og Volteius Menu, þykir benda á, að Filipp hafi verið gamansamur.*

[27]) *átta stund. Rómverjar byrjuðu daginn um miðjan morgin (eða um ena sjettu morginstund) eptir stundatali voru, og verður þá átta stund dags hjá þeim önnur stund eptir miðjan dag (eða hádegi) hjá oss; um það leyti höfðu Rómverjar lokið torgstörfum sínum, og gengu þá heim eða af torgi á brúut.*

og kvartaði yfir því, að Kilirnir[28] lægi of lángt frá torginu[29], með 49.

---

[28]) *Kilir. Í 22. skýríngu við priðja brjef bókar þessar,* a-*liðnum, (á 56. til 57. blaðs.), eru nefndar tíu hæðir ennar fornu Rómborgar. Af hæðum þessum liggur Kapítólshæð (eða Höfuðhæð) nær í miðjum vesturhlut borgarinnar austan elfar. Út undan (eða niður undan) landsuðurhlut Kapítólshæðar liggur Palatshæð (eða Hallarhæð), og út undan landsuðurhlut og austurhlut Palatshæðar liggur aptur Selíushæð. Í austurhlut borgarinnar, norður undan Palatshæð og Selíushæð, liggur hálslendi allmikið, og deilist hálslendi það í vestur og útsuður í þrjár greinir. Af greinum þeim er en syðsta grein stærst, miðgreinin minst, og en norðasta greinin nokkuru stærri en miðgreinin. Er norðurgreinin kölluð Kvírinshæð (eða Kvíríngahæð), miðgreinin Víminshæð (eða Viðjahæð), og suðurgreinin Eskvilshæð (eða Útbygðarhæð), en Eskvilshæð greinist aptur í tvo hluti, og er suðurhlutinn drjúgum stærri en norðurhlutinn, en vestan á suðurhlut þessum, og niður um hann, lá bygð sú, er Hóraz talar hjer um, og voru Kilir kallaðir (á lat.* Carinae), *og ætla sumir, að bygð sú hafi haft nafn sitt af því, að hús þar hafi verið til að sjá, sem skip á hvolfi; samanb. skýríngar Servíusar við Eneasmál, átta þátt, 631. vísuorð:* Carinae sunt aedificia, facta in carinarum modum.

[29]) a, *torg, þ. e. Rómtorg (á latn.:* Romanum forum, *og optast tómt:* Forum). *Torg þetta var höfuðtorg Róms; það lá lítið eitt til landsuðurs frá austurhlut Höfuðhæðar, og fyrir norðan vesturhlut Hallarhæðar (samanb. 19. skýr. við sjetta brjef bókar þessar, á 77. til 78. blaðs.). Lítið eitt til landnorðurs frá torgi þessu lá en syðri vesturgrein Eskvilshæðar, en á vestanverðum þeim hlut hæðar þeirrar lá bygð sú, er Kilir voru kallaðir (samanb. næstu skýr. hjer á undan), og hefir Filippi, er hniginn var á efra aldur, þótt leið þessi heldur löng og þreytandi eptir dagsýslur sínar.*

b, *Á höfuðtorgi Róms, er um er talað hjer í* a-*liðnum, voru þjóðþíng átt og dómþíng, og stjórnmál rædd; þar áttu menn og ýmiss penníngaviðskipti, og fleira því um líkt, en auk þessa höfuðtorgs borgarinnar voru og önnur torg, er einkum voru ætluð til ýmislegs kaupskapar, t. a. m. Nautatorg eður Uxatorg (á latn.* Boarium forum, *og* Fornm boarium); *það lá vestur undir Tífur, fyrir vestan miðbik Hallarhæðar, en í útnorður undan Mikla Hríng. Þá var Káltorg* (Forum olitorium); *það lá í útsuður undan Höfuðhæð, milli og Tífrar. Þá var enn Svínatorg* (Forum suarium), *Fiskitorg* (Forum piscarium), *og Krásatorg* (Forum cupedinis, *og* Forum cupedinarium).

c, *Júlíus Sesar ljet og gjöra torg eitt í Rómi, svo og Ágúst keisari og fleiri af enum síðari keisurum; og voru þau torg*

því að hann var þegar hniginn á efra aldur; er þá mælt, að Filipp hafi sjeð mann einn nærrakaðan[30] í auðu skeggrakaraskygni[31], og hreinsaði sá negl sína í hægðum með hnífkuta. Demetríus[32], en það var sveinn Filipps, og var sá vanur að leysa vel af hendi erendi hans; far þú, mælti Filipp, og spyr manninn, hvaðan hann er, og hverr hann er, og hvernig hagur hans er, og hvert faðerni hans er, og hverr verndari hans er, og flyt mjer aptur, hvað hann segir þar um. Sveinninn ferr, kemur aptur, og segir, að maðurinn heiti Volteius Mena[33], sje 49.—56.

---

*kend við gjörðarmenn þeirra, og lágu nær í miðri borginni, fyrir norðan Höfuðtorg, en vestur undan Eskvilshæð.*

[30]) a, *nærrakaður. Svo þýðum vjer hjer eð latneska hlutdeildarorð* adrasus, *og ætla sumir, að Hóraz vilji sýna hjer með orðum sínum, að Mena hafi látið raka sig náið, eða verið nauðrakaður, svo að hann þyrfti því sjaldnar að kosta fje til skeggraksturs. Aðrir þýða orðið* adrasus *svo, að það sje haft hjer um lítt rakaðan mann (eður broddkliptan), og þykir þá slíkur skeggrakstur og benda á, að maðurinn hafi verið fjelítill, og látið raka sig fátæklega.*

b, *Aðrir útgefendur hafa* abrasus (afrakaður, *rakaður), en eigi* adrasus.

[31]) a, *í auðu skeggrakaraskygni, í latínunni hjá Hórazi:* vacua tonsoris in umbra. *Sumir ætla, að eð latneska orð* umbra *sje haft hjer í vanalegri merkíngu, og merki skugga, og væri þá:* in umbra, *sama sem: í skugga eða í forsælu (í búðinni eða við búðina). Aðrir ætla, að* umbra *sje haft hjer um eins konar skygni eða forskygni, er gengið hafi út af búð skeggrakara, eða fram af henni. Enn ætla aðrir, að* umbra *sje haft hjer um skeggrakarabúðina sjálfa, af því að hún hafi verið sem eins kyns skygni eða forskygni. Vjer höfum þýtt* umbra *svo, að vjer höfum kallað það skygni.*

b, *Hóraz segir, að skygni skeggrakara hafi autt verið* (vacua), *og vill hann þar með sýna, að þetta hafi verið þann tíma dags, er fáir starfsemdarmenn hafi þar verið, og þykir aptur mega þar af ráða, að Mena hafi verið starflítill iðjuleysíngi.*

[32]) *Demetríus. Um Demetríus þenna, þjón Filipps, er að eins talað á þessum stað.*

[33]) a, *Volteius Mena. Mönnum þykir líklegt, að Rómverjar hafi fyrst framan af haft að eins eitt nafn* (nomen); *samanb. t. a. m. nöfnin Númítor og Amúlíus, og Rómúlus og Remus. Þó verður það fljótt siður hjá Rómverjum, að eitt nafn festist í ættum þeirra, það er allir samættismenn hafa, en framan við þetta ættnafn eða höfuðnafn eru aptur höfð önnur nöfn, er greina ýmissa samættismenn hvern frá öðrum; samanb. t. a.*

*m. nöfnin Hostus Hostilíus (í Sögu Rómverja eptir Livíus, fyrsta þætti, 12. kap.), Túllus Hostilíus, og Ankus Marsíus; í þessum nöfnum eru nöfnin Hostilíus og Marsíus ættarnöfn* (gentium nomina), *og greina ætt frá ætt, en nöfnin Hostus, Túllus og Ankus eru eins konar fornöfn* (praenomina), *og greina samættismann frá samættismanni.*

b) *Það varð og fljótt siður hjá Rómverjum, að menn fengu viðurnefni* (cognomina), *og var viðurnefni haft eptir höfuðnafn ættarinnar, eða ættnafnið; samanb. nöfnin Lúsíus Tarkviníus Priskus, eða Lúsíus Tarkviníus enn gamli; Lúsíus Tarkviníus Súperbus, eða Lúsíus Tarkviníus enn drambláti; Lúsíus Júníus Brútus, eða Lúsíus Júníus fáráðlíngur, og Públíus Valeríus Poplicola, eða Públíus Valeríus enn þjóðholli. Sum af viðurnefnum þessum hurfu þegar, er þeir menn dóu, er þau höfðu fengið, en flest af þeim hjeldust lángt fram á leið í ættum eða ættdeildum; svo var t. a. m. um viðurnefnið súperbus eða enn drambláti, að það hvarf aptur með þeim enum sama manni, sem það fekk, en það var Lúsíus Tarkviníus, er var enn síðasti konúngur Rómverja (frá ár. 534 til árs. 510), en viðurnefnið brútus eða fáráðlíngur, er Lúsíus Júníus, brautrekstrarmaður konúnga, fyrstur fekk, undir lok sjettu aldar fyrir Kristsburð, hjelzt að minsta kosti fram á miðja ena fyrstu öld fyrir Kristsburð; samanb. t. a. m. nafnið Markus Júníus Brútus (eða Markus Júníus fáráðlíngur), en Júníus Brútus sá var einn af höfuðoddvitum samsærismanna þeirra, er vógu Júlíus Sesar (ár. 44. fyr. Kristsb.), nær hálfri fimtu öld eptir daga Lúsíusar Júníusar Brútusar, ens forna ættföður Júníusa (eða Júnínga).*

c) *Það var enn opt, að ættir eða höfuðættir (á lat.* gentes *og* familiae) *greindust í ættdeildir (á lat.* familiae, *en eigi* gentes), *og hafði hver ættdeild sitt viðurnefni; svo greindist t. a. m. ætt Kládía (eða Kládínga) í tvær höfuðdeildir eða ættdeildir, og hafði önnur ættdeildin viðurnefnið Púlker (eða enn fagri, eða Fagur), en hin hafði viðurnefnið Marsellus (eða Litli Hamarr); samanb. nöfnin Appíus Kládíus Púlker, og Markus Kládíus Marsellus; svo var og um ætt Kornelía (eða Kornelúnga), að hún greindist í margar ættdeildir, og hafði hver ættdeild sitt viðurnefni. Af viðurnefnum þessum nefnum vjer hjer, 1, Setegus (eða Keþegus); — 2, Sinna (eða Kinna); — 3) Dólabella (eða Litla Högg); — 4) Lentúlus (eða Seinlátur); — 5) Sipíon (eða Skipíon, eða Stafur); og — 6, Súlla (eða Sulla).*

d) *Það var og enn opt, að ættdeildir* (familiae), *eða liðir ættdeilda, fengu ný viðurnefni eða auknefni* (cognomina *eða* agnomina); *svo fekk t. a. m. einn liður af ættdeild Sipíona viðurnefnið eða auknefnið Nasíka (eða nef), en annarr liður auknefnið eða viðurnefnið Afríkanus (eða Afrhelfíngur); samanb. nöfnin Públíus*

*Kornelíus Sipíon Nasíka, og Públíus Kornelíus Sipíon Afríkanus; svo hafði og ein deild af ætt Lisinía (eða Likinínga) viðurnefnið Krassus (eða enn digri, eða Digur), og fekk síðan nýtt viðurnefni eða auknefni Díves (eða enn auðgi, eða Auðigur); samanb. Públíus Lisiníus Krassus Díves.*

e, *Það var opt hjá Rómverjum, að þeir ættleiddu menn; fluttust menn þar við úr einni ætt í aðra, og fekk þá ættleiðíngur (eða sá maðurinn, er ættleiddur var) þrjú höfuðnöfn (eða með öðrum orðum, fornafn, ættnafn og viðurnefni eða ættdeildarnafn) ættleiðanda síns, og var síðan bætt við þessi þrjú nöfn hinu upphaflega ættnafni ættleiðíngs, en ættnafninu þó breytt svo áður, að það fekk endínguna íanus í stað ennar venjulegu ættnafnaendíngar íus; svo var t. a. m., þá er Kajus Júlíus Sesar ættleiddi frænda sinn (eða systurdótturson) af ætt Oktavíusa (eða Oktavínga), að þá var enn úngi ættleiðíngur kallaður Kajus Júlíus Sesar Oktavíanus, en eð upphaflega ættnafn ens únga ættleiðíngs var Oktavíus. Ef ættleiðandi hafði tvau viðurnefni, eða viðurnefni og auknefni, var því enu síðara viðurnefni (eða auknefninu) bætt aptan við eð breytta (eða aukna) ættarnafn ættleiðíngs; samanb. nöfnin Públíus Lisiníus Krassus Músíanus Díves, og Públíus Kornelíus Sipíon Emilíanus Afríkanus; hjer eru nöfnin Díves og Afríkanus sett aptan við nöfnin Músíanus og Emilíanus, en Músíanus og Emilíanus eru breyttar eða lengdar niðurlagsmyndir, en enar upphaflegu ættnafnsmyndir eru Músíus (eða Múkíngur) og Emilíus (eða Emilíngur).*

f, *Stundum var það og, að nýtt nafn bættist við eptir ættleiðsluna; svo fekk t. a. m. Kajus Júlíus Sesar Oktavíanus viðurnefnið Ágústus, eptir það er hann var ættleiddur; samanb. fimtu skýr. við þriðja brjef bókar þessar (á 49. blaðs.).*

g, *Auk þeirra fimm nafna, er menn stundum höfðu, svo sem hjer er áður sýnt, t. a. m. um Públíus Kornelíus Sipíon Emilíanus Afríkanus, gátu menn enn fengið nýtt greiníngarnafn; svo fekk t. a. m. Públíus þessi Kornelíus Sipíon Emilíanus Afríkanus enn viðurnefnið eða auknefnið mínor (eða enn ýngri), svo að greina mætti hann frá Públíusi Sipíóni Afríkanusi major (eða enum eldra).*

h, *Þrælar höfðu aldregi nema eitt nafn eða heiti, og er þess getið, að þeir í fyrndinni voru kendir við fornöfn húsbónda sinna; svo hjet t. a. m. sá þræll, er húsbóndi hans hafði Markus að fornafni, Marsipor (þ. e.* Marci puer, *eða sveinn Markusar); svo var og sá þræll kallaður Públípor, er húsbóndi hans hafði Públíus að fornafni; samanb. Málfræðisbók Prissíans, sjetta þátt., 48. gr.; Eðliss. Plin. eldr., 33, 1, 6, 26, og Mælskufræðisbók Kvintilíans, fyrsta þátt, 4. kap., 26. gr. Síðar er getið annarra þrælanafna, er komin voru af ýmislegum orsökum;*

kallari[34], lifi við lítil efni, og sje vel kyntur, og kunni bæði að hraða sjer, er við á, en fari sjer aptur hægt, er svo berr undir, og að hann kunni að afla og neyta, og að hann uni sjer vel við smá stallbræður, og hafi víst heimkynni, og hafi gaman af leikum og vellinum[35], er hann hefir lokið störfum sínum. Mjer þætti gaman að fá vitneskju hjá sjálfum honum um það, er þú segir; seg honum að koma til náttverðar. Mena vildi að vísu eigi trúa þessu; varð honum orðfátt við, og skildi eigi, hvi þetta sætti; en skjótt er frá að segja; Mena þakkar fyrir sig, og kveðst 56.—63.

*samanb. t. a. m. nöfnin Alexis, Davus, Díónysíus, Geta, Lárea, Parmenon og Tíron.*

i, *Þá er einhverjum ófrjálsum manni eða þræli var frelsi gefið, var það siður, að frelsíngi fekk fornafn og ættnafn frelsisgjafa síns, og var síðan aptur við þau tvau nöfn bætt enu upphaflega nafni ens ófrjálsa manns; svo var t. a. m. um þræl einn, er Markus Túllíus Síseró enn mælski átti, að hann hjet Tíron, meðan hann var ófrjáls, en Síseró gaf þessum þræli sínum frelsi, og var hann þá kallaður Markus Túllíus Tíron.*

k, *Hjer (hjá Hórazi) er talað um minna háttar mann einn, er heitið hefir Volteius Mena. Menn vita, að Volteius var rómverskt ættarnafn* (nomen gentis); *svo vita menn og, að Mena (og Menas) var grískukent þrælsnafn (stytt úr Menandros); af þessum orsökum þykir eigi ólíklegt, að Mena sá, er Hóraz talar hjer um, hafi upphaflega verið ófrjáls maður (eða þræll), og Volteius nokkurr gefið honum frelsi; þó er eigi kunnigt, hverr Volteius þessi hefir verið, en eptir því sem á tíma stendur, hefði það getað verið Lúsíus Volteius sá, er Síseró talar um í ræðum sínum gegn Verresi, annarri sókn, þriðja þætti, 66. kap., 155. gr.*

[34]) *kallari. Starf kallara var hjá Rómverjum að kveðja menn til þínga og annarra mannfunda (t. a. m. leika og útfara), og fleira því um líkt. Kallari sá, er hjer er um talað, hefir sjálfur selt (eða boðið upp) ýmissa smámuni.*

[35]) a, *Völlurinn, þ. e. Marsvöllur, er svo var kallaður, en svo var nefndur mikill hlutur flatneskju þeirrar, er lá vestast í norðurhlut Rómborgar austan elfar, einkum sá hluturinn, er lá fyrir norðan Flaminíushríng og í útnorður frá honum, en fyrir vestan suðurhlut Breiða Strætis (eða Flaminíusstrætis), í vesturstefnu frá Kvírinshæð.*

b, *Á velli þessum voru hermenn vandir við vopnaburð; þar voru þíng átt, t. a. m. hundraðsþíngin; þar voru og áttir margs konar leikar, og lúta orð Hórazar hjer að því.*

eigi koma mundu. Neitar hann mjer? mælti Filipp. Já, það gjörir hann, furturinn, og er annaðtveggja, að hann hirðir eigi um orð þín, eða honum stendur ótti af þjer.

Morgininn eptir kom Filipp að Volteiusi; var Volteius þá að selja enum kyrtilklædda smálýð[36] lítilfjörlegt rusl, og varð Filipp fyrri til að heilsa honum. Volteius tók þá að afsaka sig fyrir Filippi, að hann hefði svo mikið að gjöra, og væri bundinn við kaupskap sinn, svo og fyrir það, að hann hefði eigi komið til hans um morgininn, og enn fyrir það, að hann hefði eigi tekið eptir honum, þá er hann kom. Vit, að eg skal fyrirgefa þjer, mælti Filipp, ef þú snæðir hjá mjer í dag. Sem þú vilt, mælti Volteius. Kom þá eptir níundu stund[37], mælti Filipp; en far nú, og auk með atorku efni þín. Þá er komið var til náttverðar, óð alt á Volteiusi, þar til er hann að lokum var látinn heim fara að sofa. Sást hann nú opt renna hjer að huldum öngli, sem fiskur[38]; hann kom með skjólstæðíngum um morgna, og ljet sig eigi vanta, þá er matazt var, og var nú en latneska[39] 62—76.

---

[36]) *kyrtilklæddur smálýður* (tunicatus popellus). *Í 53. skýríngu við fyrsta brjef bókar þessar (á 25. blaðs.) er talað um klæði það hjá Rómverjum, er kallað er kyrtill (á latn.* tunica). *Þá er meira háttar menn hjá Rómverjum gengu á torg, eða fóru til einhvers annars staðar heiman frá sjer, höfðu þeir eigi kyrtil að yfirklæði, en höfðu kápu sína* (togam) *yfir sjer. Minna háttar menn og fátæklíngar voru aptur jafnlega kápulausir, og höfðu að eins kyrtil að yfirklæði, og er auðvitað, að kyrtill sjá hefir mjög ýmislegur verið eptir efnahag manna og öðrum atvikum, og að kyrtlar sumra manna hafa tyrjulegir verið og tötralegir. Hjer er talað um kyrtilklæddan smálýð, líkt því, sem þá er vjer tölum um peysumenn eða peysnamenn.*

[37]) *níunda stund, þ. e. priðja stund, eða nón, eptir voru stundatali; samanb. priðju skýríng hjer að framan.*

[38]) a, *að renna að huldum öngli, sem fiskur, þ. e. með öðrum orðum, að dragast að einhverri ginníngu, svo sem fiskur rennur að huldum öngli.*

b, *Sumir ætla, að Hóraz kalli öngul hulinn* (occultum), *af því að hann er beittur eða beitu hulinn, en aðrir ætla, að öngull kallist hjer fyrir því hulinn, að hann hylst fiskinum, og fiskurinn gætir sín eigi við honum.*

[39]) *latneskur: er á við Latland eða Latlendínga (sam-*

fórnarhátíð[40] boðuð, og var honum þá boðið að fara með út fyrir borg[41]. Er hann nú settur á smáhesta- 76—77.

---

*anb. 19. skýr. við þriðja brjef bókar þessar, á 53. bls., b-liðinn og e-liðinn), eða, eptir sambandinu hjer: er haldinn er í Latlandi, eða: er Latlendíngar halda; samanb. næstu skýríng hjer á eptir, c-liðinn.*

[40]) a, *fórnarhátíð. Rómverjar höfðu marga hátíðardaga og hátíðir* (festi dies, *og* dies festi, *og* festa, *og* solennia, *og* — alia, *og* feriae), *og voru margar af hátíðum þessum, eða flestar þeirra, fórnarhátíðir* (feriae), *en svo eru þær hátíðir kallaðar, er fórn er höfuðathöfn, eða ein af höfuðathöfnum hátíðar.*

b, *Hátíðir Rómverja voru sumar stöðugar ártíðarhátíðir* (stativae feriae, *eða* feriae stativae), *en svo eru þær hátíðir kallaðar, er haldnar eru ár hvert á einhverjum tilteknum degi, eða einhverjum tilteknum dögum, og voru þær hátíðir haldnar án fyrirboðanar* (non indicebantur). *Til dæmis um slíkar hátíðir nefnum vjer hjer Satúrnshátíð* (Saturnalia); *hún var haldin í desembermánaði, fyrst einn dag, nítjánda dag mánaðarins; síðan var hátíð þessi haldin, eptir boði Ágústs keisara, þrjá daga senn, enn sautjánda, átjánda og nítjánda dag mánaðarins, og enn síðar var hún haldin, eptir boði Kalígúlu keisara, í fimm daga.*

c, *Aðrar voru þær hátíðir, er að vísu voru haldnar ár hvert, en hátíðarstef var ótiltekið, og tóku þá valdsmenn* (magistratus) *eða prestar* (sacerdotes) *til, nær hátíð skyldi halda* (ferias concipiebant; feriae conceptivae, *og* conceptivae feriae), *og var boðað, nær það skyldi gjöra* (feriae indicebantur). *Til dæmis um slíkar hátíðir nefnum vjer hátíð þá, er Hóraz talar hjer um, en það er en latneska fórnarhátíð* (feriae Latinae, *og* Latinae feriae, *og tómt* Latinae). *Hátíð þessi var haldin til dýrðar enum latneska Jóvföður* (Latiaris Juppiter, *og* Latialis Juppiter); *hún var haldin á Hvítborgarfelli, fyrst einn dag ár hvert; síðan tvo daga senn; því næst þrjá daga, og enn síðar fjóra daga. Hátíð þessa hjeldu bæði Latlendíngar og Rómverjar samt; þó voru Rómverjar, að minsta kosti þá er stundir liðu fram, forystumenn hátíðarinnar, og var það stöðug venja hjá Rómverjum, að ræðismenn þeirra hjeldu hátíð þessa, áður en þeir fóru í hernað eða til skattlanda sinna.*

d, *Enn voru þær hátíðir, er að eins voru haldnar við ýmiss atvik, er að höndum bar, og nefnum vjer til dæmis þar um þakkarhátíðir* (supplicationes), *bekkbreiðsluhátíðir* (lectisternia), *og níu daga helgi* (novendiale sacrum).

e, *Eð latneska nefniorð* feria (*er venjulega er haft í fleirtölu:* feriae) *er samstofna enu latneska sagnarorði* ferire: *að slá; ljósta; höggva; samanb. Rit Fests um merkíng orða, í Ágripi Páls djákna, sjetta þátt, (85. blaðs.)*: feria a feriendis victimis vocata.

[41]) *fara með út fyrir borg, í latín. hjá Hórazi*: rura sub-

kerru[42], og lofar óaflátlega sáðlöndin og loptslagið í Sabafylki[43]. Sjer Filipp það, og brosir að, og leitar sjer nú gamans og skemtunar með hverju því, er hann má, og gefur Volteiusi sjau þúsundir sjauskildínga[44], og lofar honum öðrum sjau þús-
77—80.

---

urbana . . . comes ire. *Á sambandinu hjer þykir sjá mega, að Filipp hefir svo notað hátíðarhald það, er hjer er um talað, eða sýsluhlje það, er á varð við hátíðarhaldið, að hann hefir farið út fyrir bý sjer til hressíngar, og má sjá, að hann hefir farið norður (eða upp) í Sabafylki, og þykir eigi ólíklegt, að Filipp hafi átt þar garða, einn eða fleiri.*

[42]) a, *settur á smáhestakerru (í latínunni hjá Hórazi:* impositus mannis). Manni *voru að ætlan flestra smávaxið hestakyn; þó segja sumir fornir ritskýrendur, að dýrategund þessi hafi verið kynblendíngar hests og ösnu (sama sem* hinni, *eða* burdones, *eða* burdi). *Vjer köllum hjer dýrategund þessa smáhesta.*

b, *Smáhestar voru bæði hafðir til reiðar og ekníngar, og sjest eigi glögglega á orðum Hórazar, hvort hann lætur Menu ríða eða aka á ferðum sínum með Filippi, en af því, að Hóraz hefir hjer fleirtöluna* manni, *en eigi eintöluna* manus, *og talar þó um Menu einn, þykir eigi ólíklegt, að hann hafi fleirtölu orðsins hjer um vagn eða kerru, er smáhestar eru fyrir beittir, líkt sem griksk skáld, t. a. m. Hómer, hafa opt orðið* hippoi *(þ. e. hestar) um vagn með hestum fyrir, en hvort sem nú heldur er, að Hóraz lætur Menu ríða eða aka, þá má sjá, að Mena gengst mjög upp við þetta virðulega ferðalag, er hann fylgir Filippi.*

[43]) a, *Sabafylki (á lat.* Sabini) *lá í landnorður frá Rómi, og upp undan (eða norður undan) Latlandi enu forna, Ekvafylki og Marsafylki, en vestan að suðurhlut Sabafylkis lá nokkurr hlutur Tifrar (eða Etrúrafylkis); útnorðan megin að norðurhlut Sabafylkis og norðan að því lá nokkurr hlutur Úmbrafylkis, en austan að því lá suðurhlutur Písenafýlkis (eða Spætíngjafylkis) og Vestíngjafylki.*

b, *Landið í Sabafylki var að vísu heldur frjófsamt, og loptslag þar gott, og sýnu betra og þægilegra en í Rómi, en Mena, er aldregi, eða sjaldan, hafði komið út á land, þykir lofa hvorttveggja, frjófsemi landsins og loptslagið, meir en góðu hófi gegnir.*

[44]) a, *sjau þúsundir sjauskildínga, í latínunni hjá Hórazi:* septem sestertia. *Fleirtölumyndin* sestertia *er eigi sjaldan svo höfð hjá Rómverjum, að þeir hafa með henni eitthvert það fleirtallegt talníngarorð, er deilitala er eða höfuðtala, og merkir þá orðið* sestertia *svo margar þúsundir sesterspennínga (eða sjauskildínga), sem talníngarorð það, er með því er haft, jartegnir; svo hefir Síseró í Undurgreinum sínum* (Paradoxis), *sjetta þætti,*

undum að láni. Fær Filipp svo talið Volteius á að kaupa lítið land, og gjörir Volteius það, og að eg dvelji þig[45] eigi lengur, en þörf er, með mikilli málalengíngu, þá er það af Volteiusi að segja, að hann, er áður var snyrtimaður, gjörist nú búandmaður, og klifar um arðurforar einar og víngarða; hann býr undir álma[46], og gengur fram af sjer af erli og ákafa, og eldist 80—85.

*49. atriði,* centena sestertia: *hundrað þúsunda sjauskildínga, um tekjur þær, er gjört er ráð fyrir að maður einn fái af búum sínum (ár hvert); svo hefir og Marzíal í Kýmikvæðum sínum, sjetta þætti, 20. kvæði,* centum sestertia: *hundrað þúsunda sjauskildínga, er maður einn biður annan mann að lána sjer.*

b, *Livíus og síðari rithöfundar hafa og eintölumyndina* sestertium *svo, að þeir hafa með henni fleirtímatölu, og merkir þá* sestertium *svo mörg hundruð þúsunda sjauskildínga, sem fleirtímatala sú, er með því er höfð, jartegnir; svo hefir Seneka í Huggun sinni til Helvíu, níunda kapít., 11. gr.,* centies sestertio coenare uno die, *um mann, er matast fyrir hundrað sinnum hundrað þúsunda sjauskildínga, eða, með öðrum orðum, fyrir tíu miljónir sjauskildínga, á einum degi.*

c, *Hvort Síseró og Sesar hafa haft eintölumyndina* sestertium *á þann hátt, er nú var sagt í b-liðnum, má efasamt vera. Síseró segir að vísu, í Riti sínu um skyldur mannsins, þriðja þætti, 24. kap., 93. gr.:* alicui testamento sestertium milies relinquitur, *en vera má, að* sestertium *sje hjer, og á öðrum slíkum stöðum, eigi nefnifall eintölu, heldur sambandsfall fleirtölu (af* sestertius). *Svo er og um stað einn hjá Sesari, í Borgmannastyrjöld hans, fyrsta þætti, 23. kap.; þar stendur:* sestertium sexagies alicui reddere, *og má vera, að* sestertium *sje þar, og á öðrum slíkum stöðum, eigi andlagsfall eintölu, heldur sambandsfall fleirtölu.*

d, *Enn getum vjer þess, að orðmyndin* sestertium *er og höfð að mælíngarorði um tvau fet og hálft* (duo pedes et semis); *samanb. Rit Kólúmellu um trjárækt, fyrsta kap., 5. gr., og Rit sama höfundar um akuryrkju, þriðja þátt, 5. kap., 3. gr.*

e, *Um orðið sesterspenníngur eða sjauskildíngur er talað í 32. skýríngu við fyrsta brjef bókar þessar (á 14. blaðs.), og, ef penníngamynd sú er látin jöfn vera sjau skildíngum, verða penníngar þeir, er hjer er um talað, samtals fimm hundruð ríkisdala, eða, ef gjörr skal á kveða, 510 ríkisd., og 40 skild., en ef sesterspenníngur er látinn jafn vera átta skildíngum (eða daltólftúngi), sem sumir ætla rjettara vera, verður penníngatal þetta áttúngi hærra, en hjer er sett.*

[45]) **þig,** *á lat.* te. *Orð þetta er hjer annaðhvort haft um Mesenas, er brjef þetta er til, eður og um menn alment.*

[46]) a, **álmar,** *á lat.* ulmi (*fleirtala af* ulmus: *álmur, eða álm-*

af auragirnd. En nú fór svo, að sauðfje hans var stolið, geitfjeið sýktist og dó, kornvöxturinn brást, og naut hans drapst fyrir plóginum; styggist hann þá við tjón þetta, tekur jálk í skyndi um miðja nótt, og heldur í bræði til húsa Filipps. Hann var óhreinn og ókliptur, og er Filipp sá hann, mælti hann: svo sýnist, Volteius, sem þú leggir vel mikið á þig, og hugsir of mikið um búskapinn. Víst mundir þú, verndari minn, mælti Volteius, kalla mig auman, ef þú vildir nefna mig rjettu nafni; því bið eg þig og grátbæni fyrir fæðíngarguð þinn, og hægri hönd þína, og húsgoð þín: lát mig aptur komast í fyrri stöðu mína.

5, Sá maður, er eitt sinn hefir sjeð, hve miklu betra það er, er hann hefir slept, en hitt, er hann hefir eptir sókzt, hverfi aptur í tíma, og leiti þess af nýju, er hann hefir áður frá horfið. Viðurkvæmilegt er, að hverr mæli sig með smámáli sjálfs síns og feti[47].

## Átta brjef[1]

til

*Selsusar[2] Albínóvanusar[3].*

Efni brjefsins.

*Fyrst biður Hóraz ljóðdísi að flytja Selsusi kveðju sína. Því næst segir hann, hversu sjer líði, en lætur lítið yfir því,* 85—98.

*trje, eða álmviður). Vínviður er svo óstyrkur, að hann má eigi standa, nema hann hafi eitthvað við að styðjast, og var títt hjá Rómverjum, að þeir höfðu álma svo, að þeir bundu vínvið upp við þá, og benda orð Hórazar hjer á þann sið; samanb. þriðja vísuorð sextánda brjefs bókar þessar:* amictā vitibus ulmo, osfrv.

b, *Að búa undir álma, er hjer sama sem: að búa sig undir vínviðarrækt eða vínyrkju.*

47) *að mæla sig með smámáli sjálfs síns og feti (í latínunni hjá Hórazi:* metiri se suo modulo ac pede), *er svipað orðtaki því, er vjer höfum: að sníða sjer stakk eptir vexti.*

1) *Átta brjef. Líklegt þykir, að brjef þetta sje ritið ár. 20 fyr. híngaðb. Krists; samanb. næstu skýríng hjer á eptir.*

2) a, *Selsus. Varla má efasamt þykja, að Selsus þessi*

3) *Albínóvanus. Orð þetta er eins konar auknefni (eða*

*að sjer líði vel, og einkum minnist hann á vanheilendi andar sinnar. Þá spyrr Hóraz, hversu Selsusi líður, og hversu honum gengur hjá enum únga keisarafrænda, og í enda brjefsins eru eins konar varnaðarorð til Selsusar, að hann ofmetnist eigi af giptuhag sínum, er hann er í för með slíkum höfðíngja.*

Eg leita til þín, ljóðdís, með bænir mínar; flyt þú Selsusi Abínóvanusi, förunaut Nerons[4] og ritara, apt-

1—2.

---

*sje sami maðurinn, sem Selsus sá, er nefndur er í þriðja brjefi bókar þessar, 15. vísuorði; samanb. 20. skýríng við brjef það (á 54. blaðs.). Selsus hefir verið með Tíberíusi keisarafrænda á austurför hans til Armenalands (ár. 20. fyr. Kristsb.); samanb. aðra skýríng við þriðja brjef bókar þessar (á 47. blaðs.), og þykir ráða mega af brjefi þessu sjálfu, að Hóraz hafi ritið Selsusi það, þá er Selsus var í þessi för.*

b, *Selsus (á lat.* Celsus) *er upphaflega og eiginlega hlutdeildarorð liðins tíma í þolmynd af enu forna latneska sagnarorði* cellere *(á gr.* κέλλειν): *að reka;* reka upp; *hefja; og merkir* celsus *þá upphaflega: hafinn, en síðan er það haft að almennu viðurlagsorði, með merkíngunni: hár, og því næst er það haft að viðurnefni, og er hjer, sem opt í latínumáli, að menn eru nefndir með viðurnefni einu, en eigi með höfuðnafni sínu (eða ættnafni), og er oss eigi kunnigt, hvert höfuðnafn eða fornafn Selsus þessi hefir haft.*

c, *Annarr maður, en Selsus þessi, var enn nafnkendi læknir Álus Kornelíus Selsus, er uppi var á dögum Ágústs keisara.*

*kenníngarnafn), og höfðu það auknefni nokkurir menn hjá Rómverjum, svo sem t. a. m. skáldið Kajus Pedó Albínóvanus, er var samtíðis Ovið skáldi, og Selsus þessi, en óvíst er, hvernig stendur á auknefni þessu; þó þykir auðsætt, að það jartegni einhvern bý, er menn þeir, er það höfðu, voru frá komnir eða frá ætzkaðir; en þá er óvíst, hvað sá býr hefir heitið, eða hvar hann hefir verið; þó þykir sönnu næst, að sá býr, er viðurnefni þetta* (Albinovanus) *hefir af myndazt, hafi heitið* Albium novum, *eða* Albion novum, *eða eitthvað því um líkt. Nú er kunnigt, að býr einn, er hjet* Albium *eða* Albion *(á gr. hjá Straboni landfræðíngi:* Ἄλβιον), *lá sunnarlega í vesturhlut Lígúrafylkis (í útsuðurhlut Uppítals), en eigi er oss kunnigt, hvort* Albium novum, *eða* Albion novum, *hefir til verið, eða hvar það hefir verið, ef það hefir til verið.*

[4]) a, *Neron, þ. e. Tíberíus Kládíus Neron, er síðar varð keisari, og venjulega er kallaður Tíberíus. Í þriðja brjefi bókar þessar (á 48. blaðs.) er Tíberíus nefndur að eins með ætt-*

ur[5] kveðju mína, og seg honum, að eg óski, að hann megi lifa glaður og í góðu gengi. Ef hann spyrr, hvað eg hefst að, og hversu mjer líður, þá skaltu segja, að eg hafi margt fagurt fyrir stafni, en að mjer líði þó eigi alls kostar vel, og að eg sje eigi betur en svo vel ánægður, eigi af því, að[6] hagl hafi brotið niður vínvið minn, eða ofurhiti sviðið smjörviðinn, nje enn heldur af því, að naut mín sje sjúk á fjarlægum beitilöndum[7], heldur af því, að

2—7.

---

*nafni sínu (Kládíus); hjer er hann nefndur með viðurnefni sínu (Neron); í næsta brjefi hjer á eptir (enu níunda) er hann nefndur bæði með ættnafni sínu (Kládíus) og viðurnefni sínu (Neron), sitt á hvorum stað (í fyrsta vísuorði og hinu fjórða; samanb. 122. blaðs. hjer á eptir), og í tólfta brjefi bókar þessar, 26. vísuorði, er hann nefndur með ættnafni sínu og viðurnefni samt (Kládíus Neron).*

b, *Orðið neron (á lat.* nero) *er sabverskt að uppruna, og merkir: frækinn, eða vaskur, eða röskur, eða hraustur, og var það orð upphaflega haft að fornafni; samanb. Æfi Tibers eptir Sveton, fyrsta kapitula,* endann: inter cognomina autem et Neronis assumsit — gens Claudia —, qvo significatur lingva Sabina: fortis ac strenuus. *Síðar var orð þetta haft að fornafni; samanb. Æfi Kládíuss eptir Sveton, upphafið:* Patrem Claudii Caesaris, Drusum, olim Decimum, mox Neronem praenomine, Livia, cum Augusto gravida nupsisset, intra mensem tertium peperit; *samanb. ennfr. alt nafn Nerons keisara: Neron Tiberíus Kládíus Sesar Ágústus Germaníkus.*

[5]) *flytja aptur, í latínunni hjá Hórazi:* referre. *Ef eð latneska forlagsorð* re *er hjer rjett þýtt, og merkir aptur, þykir það benda á, að Selsus hafi ritið Hórazi nokkuru áður, eða litlu áður, en Hóraz reit þetta sitt brjef, og er þetta brjef Hórazar þá eins konar andsvarsbrjef.*

[6]) *eigi af því, að* osfrv. *Með orðum þeim, er hjer koma á eptir, vill Hóraz sýna, að gleðibrestur sinn komi eigi af þeim atvikum veraldlegum, er opt ama auðgum mönnum, heldur af einhverjum meinsemdum andar hans.*

[7]) a, *á fjarlægum beitilöndum. Menn, er áttu mikið búfje, voru vanir að hafa það á ýmissum stöðum, eptir því sem á ársdeildum stóð, og ljetu slíkir menn þá stundum reka fje sitt lángar leiðir; samanb. Akuryrkjub. Varr., ann. þátt, 2. kap., 9. gr.:* longe enim et late in diversis locis pasci solent — oves —, ut multa milia absint saepe hibernae pastiones ab aestivis. *Á þeim enum sama stað getur og Varron þess, að hann hafi sjálfur haft hjarðir sínar um sumrum norður í Reatsfjöllum (í Sabafylki,* in Reatinis montibus), *en um vetrum suður í Apúlafylki.*

b, *Með orðum sínum hjer vill Hóraz sýna, að hann hafi*

eg em síður heill á sálunni, en á líkaminum öllum, og vil ekki heyra og ekki nema, það er mjer megi af ljetta; að eg styggist við dyggva lækna, og reiðist vinum mínum, af því að þeir kosta að bægja enni banvænu svefnsýki frá mjer, og hníg að því, er áður hefir mjer að meini orðið, en firrist það, er eg ætla, að mjer muni að liði verða, og em svo reikull, að mig fýsir til Tíbúrs, er eg em í Rómi, en aptur til Róms, þá er eg em í Tíbúri. Því næst skaltu spyrja hann, hversu honum líður, og hversu honum gengur, og hversu hann hagar sjer, og hversu hann geðjast enum únga manni og föruneyti hans. Ef hann segir, að alt gángi vel, þá skaltu fyrst muna, að láta þjer vænt um þykkja, og því næst skaltu hvísla í eyru hans þessum áminningarorðum: vjer munum haga oss svo við þig, Selsus, sem þú[8] hagar þjer í hamíngju þinni.

## Níunda brjef[1]
til
*Kládíusar Nerons*[2].

Efni brjefsins.

*Septimíus sá, er brjef þetta er til, var einn af góðvinum Hórazar. Til hans er sjetta kvæði í annarri bók Harpkvæðanna, það er svo byrjar:* Septimi, Gades aditure mecum, et. *Septimíus þessi hefir beðið Hóraz, að koma sjer á framfæri við Kládíus keisarafrænda, þá er Kládíus hóf austurför sína* (*ár. 20 fyr.* 7—17.

*eigi verið einn af þeim enum auðgum mönnum, er áttu svo mikið búfje, að þeir þyrfti að láta reka það á fjarlæg beitilönd.*

[8]) *vjer munum haga oss svo við þig, Selsus, sem þú* osfrv. *Þetta eru eins kyns varnaðarorð til Selsusar, og lætur Hóraz í ljós, að hann muni lítið hirða um Selsus, ef Selsus ofhrokast mjög af hamíngju sinni.*

[1]) *Níunda brjef. Brjef þetta er ritið ár. 20, þá er Tíberíus Kládíus Neron keisarafrændi hóf austurför sína til Armenalands (samanb. aðra skýr. við þriðja brjef bókar þessar).*

[2]) *Kládíus Neron, þ. e. Tiberíus Kládíus Neron, er síðar varð keisari, og er venjulega kallaður Tiberíus; samanb. næstu skýríng hjer á undan, og þá skýríng, er þar er til vísað.*

*Kristsb.). Getur Hóraz þess, að hann hafi reyndar viljað færast undan bæn vinar síns, en kveðst þó hafa óttazt, að þá mundi svo fara, sem hann virðist gjöra of lítið úr mætti sínum hjá enum únga keisarafrænda, og að eins hugsa um hag sjálfs síns, en eigi vilja styðja aðra; fyrir því kveðst Hóraz hafa tekið í sig þá dirfð, að mæla með vini sínum, og segir Hóraz, að Septimíus muni vel reynast.*

Auðsjeð er, Kládíus[3], að Septimíus[4] sjer betur en nokkurr annarr, hverjar mætur þú hefir á mjer, með því að hann biður mig, og leggur mjög fast að mjer, það er að segja um það, að eg skuli halda sjer fram, og reyna að koma sjer á framfæri við þig; ætlar hann, að hann sje samboðinn hugarfari og húsháttum Nerons, er kýss sjer það eitt, er sæmilegt er, og er hann ætlar svo, að eg inni af hendi sýslu allnáins vinar[5], þá sjer hann betur og kennir, en sjálfur eg, hvað eg á undir mjer. Eg hefi reyndar sagt margt mjer til undanfærslu, en eg hefi verið hræddur um, að menn mundu ætla, að eg gjörði of lítið úr mjer, og drægi dulur á eiginn mátt minn, og hugsaði að eins um sjálfs míns hag; svo hefi eg þá viljað sneiða hjá ámæli fyrir meiri yfirsjón, og hefi við það gjörzt alláræðinn, sem borgmönnum er títt[6]. Ef þú þá lætur þjer það vel líka, að eg hefi lagt niður

1—12.

---

[3]) *Kládíus. Tíberíus er nefndur hjer með ættnafni sínu; samanb. fjórðu skýríng við næsta brjef hjer á undan (á 119. og 120. blaðs.).*

[4]) *Septimíus. Septimíus þessi var góðvinur Hórazar; samanb.: Efni brjefsins, upphafið. Líklegt þykir og, að Septimíus þessi sje sami maðurinn, sem sá, er Sveton nefnir í Æfi Hórazar; þar getur Sveton nokkurra orða úr brjefum Ágústs til Hórazar, og stendur þar auk annars:* Tui qvalem habeam memoriam, poteris ex Septimio qvoqve nostro audire, nam incidit, ut illo coram fleret a me tui mentio. *Fornir rithöfundar segja, að Septimíus hafi verið í hernaði með Hórazi, þá er Hóraz var með Brútusi, og enn er sagt um Septimíus þenna, að hann hafi skáld verið.*

[5]) *að inna af hendi sýslu allnáins vinar* (munere fungi propioris amici), *þ. e. með öðrum orðum: að gjöra það, er allnánum (eða góðum) vini byrjar að gjöra.*

[6]) *hefi eg gjörzt alláræðinn, sem borgmönnum er títt. Svo þýðum vjer en latnesku orð:* frontis ad urbanae descendi praemia,

blygðunarsemi sakir áskorunar vinar míns, þá skaltu taka mann þenna í flokk þinn, og man hann vel reynast.

## Tíunda brjef[1]
til
*Aristíusar Fúskusar*[2].

Efni brjefsins.

*Fyrst er kveðjusendíng Hórazar til vinar hans, Aristíusar Fúskusar, og bendir Hóraz á, að þeir sje samlyndir og samhuga í öllum greinum, nema í því einu, að Aristíus ann borglífi, en Hóraz sveitarlífi,* (1). *Síðan bendir Hóraz á, að sveitarlíf sje manninum eðlilegra og hagfeldara, en borglífið,* (2). *Því næst bendir Hóraz á, hve áríðanda sje, að greina ósatt frá sönnu, og að meðlætið sje varhugavert, og að lifa megi betur við lítilmótlegan hag, en konúngar lifa og gæðíngar þeirra,* (3). *Þessu næst sýnir Hóraz með sögu einni um hjört og hest, að betra sje að lifa við lítilmótlegan hag, en firrast fátæki, og týna svo frelsi sínu,* (4). *Nú bendir Hóraz á, að hverjum henti bezt, það er bezt á við hag hans, og hvetur Aristíus að vera ánægður með hag sinn,* (5). *Því næst minnist Hóraz á rjetta meðferð fjár* (6), *og að lokum getur hann þess, hvar brjefið er ritið, og kveðst glaður vera að öðru en því, að hann hefir eigi vin sinn hjá sjer,* (7).

1, Vjer unum oss bezt utan borgar, og biðjum að heilsa Fúskusi, er betur kann við sig í borginni; erum við í þessu
1—2.

---

*en það er eptir orðunum: hefi eg niður stigið til verkkaupa borgmannlegs ennis, en verkkaup borgmannlegs ennis þýðum vjer svo, að það sje sama sem dirfð eða áræði.*

[1]) *Tíunda brjef. Brjef þetta ætla menn ritið vera ár. 20 fyr. Kristsb., eða því nær.*

[2]) a, *Aristíus Fúskus var einn af góðkunníngjum Hórazar, og er sagt, að hann hafi verið ritskýrandi og skáld. Til hans hefir Hóraz, auk brjefs þessa, kveðið 22. kvæði í fyrstu bók Harpkvæðanna, það er svo byrjar:* Integer vitae scelerisque purus.

b, *Aristíus er ættarnafn; Fúskus* (enn dökkvi, *eður:* enn blakki) *er viðurnefni, en eigi er oss kunnigt, hvað fornafni Aristíus þessi hefir haft.*

einu mjög ólíkir, en í öðru erum við nálega sem tvíburar, og hverju því, er annarr neitar, neitar og hinn með bróðurhug, og við kínkum báðir jafnt kolli að því, er öðrum líkar, svo sem gamalkunnigir dúfusteggir. Þú gætir hreiðursins, en eg lofa læki ennar unaðlegu sveitar, og ena mosavöxnu kletta og lundana þar. Eg lifi, í stuttu máli að segja, sem konúngur, þegar er eg hverf frá því, er þjer lofið og hefjið til himna, og vil eg nú helzt vera lauss við fórnarhleifa[3], svo sem sveinn sá, er strokið hefir frá presti sínum; eg þarfnast hversdagslegs brauðs, og þykir mjer það nú betra, en kökur með hunángskryddi[4].

2, Ef svo berr að lifa, sem samkvæmt er eðli manns, og fyrst skal hússtæðis leita, þá vil eg spyrja þig: kennir þú nokkurn þann stað, er kjörlegri er, an en sæla sveit? eða er nokkurr sá staður, að veturinn sje hlýrri, eða þægilegri vindblær lini æði Hundsins[5],

2—16.

---

[3]) a, *fórnarhleifar. Eð latneska orð* liba *(fleirtala af* libum) *er haft um hleifa (eða kökur eða brauð), einkum þess kyns hleifa, er hafðir voru við ýmissar fórnir, og gjörvir voru af speltmjölvi, hunángi og viðsmjörvi; samanb. skýríngar Servíusar við Eneasmál, sjaunda þátt, 109. vísuorð:* Liba sunt placentae de farre, melle et oleo, sacris aptae. *Hjer talar Hóraz um svein einn, er strokið hefir frá presti, og gjörir Hóraz ráð fyrir, að sveinn sjá hafi fengið svo mikið af hleifum (eða kökum eða brauði), að hann hirði eigi framar um þess kyns fæðslu, og líkt því segir Hóraz sjer hafa farið, að hann sje nú leiður orðinn á sætabrauðslífi borgarinnar, og kveðst nú þarfnast kryddlauss brauðs.*

b, *Lík hugsan þeirri, er hjer kemur fram hjá Hórazi, þá er hann talar um prestssvein og fórnarhleifa, kemur og fram í túngu Dana, þá er þeir tala um, að eigi sje þörf að gefa bakarabörnum brauð* (Man skal ikke give Bagerbörn Bröd).

[4]) *kökur með hunángskryddi* (mellitae placentae). *Hóraz talar hjer um kökur, er húnáng er í haft til bragðbótar, og gjörir hann ráð fyrir, að þess kyns kökur sje hafðar til fæðslu í borginni, og þykja þær sælgætislegri en alment brauð* (panis), *en Hóraz segir þó, að nú sje svo komið, að sjer getist betur að enni óbreyttu, almennu sveitafæðu, en þessum kræsikökum.*

[5]) a, *Hundurinn, þ. e. stjörnumark það, er kallað er Hundur eða Stærri Hundur; samanb. (Stjörnuvísi eða) Leiðarvísi til að þekkja stjörnur, eptir reiknimeistara, herra Björn Gunnlaugsson, síðara part, 54. blaðs. Á hvopti hunds þessa er stjarna sú, er björtust er allra kyrrstjarna (eða sólstjarna); hún*

og umbrot Dýrsins óarga[6], þá er það hefir tekið rasanda í mót enni hvössu sól? eða er nokkurr sá staður, að áhyggjan sje síður svo meinsöm, að slíta svefn manna? eða leggur lakara ilm af grösum, en smásteinum[7] úr Líbýjahálfu[8]? eða er gljái þeirra

16—19.

---

er kölluð Seppa (eða Hundastjarna, á lat. Canicula og Sirius, og á gr. Σείριος). Segir Plínius eldri, í Eðlissögu sinni, öðrum þætti, 47. kap., 47. gr., 123. atr., að Seppa renni upp (á Ítali eða í Rómi) fimtánda dag fyrir kalldag ágústmánaðar, eða 18. d. júlímán., eptir dagtali voru, (ardentissimo autem aestatis tempore exoritur Caniculae sidus, sole primam partem Leonis ingrediente, qvi dies qvintus decimus ante Augustas kalendas est), og Kólúmella segir, í Akuryrkjubók sinni, ellefta þætti, öðr. kap., 53. gr., að Seppa sjáist fyrst sjaunda dag fyrir kalldag ágústmánaðar, eða 26. d. júlím., eptir dagtali voru, (Septimo cal. Augustas Canicula apparet). Hjá oss eru Hundadagar látnir byrja 23. dag júlímánaðar og enda 23. d. ágústm.

b, Æði hundsins er hjer sama sem ofurhiti sá, er um Hundadaga er.

6) a, Dýrið óarga (eða Ljónið, á lat. Leo), þ. e. Ljónið mikla á himninum; samanb. Stjörnuvísi herra Bjarnar Gunnlaugssonar, síðara part, 22. og 23. blaðs.

b, Umbrot Dýrsins óarga, þá er það hefir tekið rasanda í mót enni hvössu sól, þ. e. með öðrum orðum, sjá enn mikli hiti, er þá hefst, er sól gengur inn í stjörnumark Dýrsins óarga eða Ljónsmerkið, og segir Kólúmella í Akuryrkjub., ellefta þætti, öðr. kap., 52. gr., að sól gjöri það þrettánda dag fyrir kalldag ágústmánaðar, eða 20. d. júlím. eptir dagtali voru (tertio decimo cal. Augustas Sol in Leonem transitum facit).

7) a, smásteinar. Það varð fljótt siður hjá Rómverjum, að þeir höfðu slegin gólf (pavimenta, fleirtala af pavimentum, af pavire: að slá, á gr. παίειν). Í gólf þessi voru hafðir ýmislega litir, og mjög ýmislega myndaðir (skornir eða höggnir) marmarasteinar, og þóttu slík gólf einkar fögur, ef þau voru vel gjör, en Hóraz talar hjer rýrðarlega um slíka hússkreytíng.

b, Hóraz gjörir ráð fyrir, að marmari sá, er verið hefir í gólfum þeim, er hann talar hjer um, hafi verið frá Líbýjahálfu; samanb. næstu skýríng hjer á eptir, einkum a-liðinn og c-liðinn.

8) a, Líbýjahálfa. Fornmenn kendu að eins norðurhlut Suðurhálfu (eða Afrahálfu), og náðu kensl þeirra lítið eitt suður fyrir miðjarðarbaug, en þó voru það einkum norðurstrendur heimshálfu þessar og landnorðurhlutur hennar, er þeir kendu bezt. Grikkir kölluðu hálfu þessa Líbýjahálfu (Λιβύη), en er stundir liðu fram, gáfu Rómverjar hálfu þessi nýtt nafn, og kölluðu Afrahálfu (Africa); þó hjeldu rómversk skáld og enu grikska heiti, og kölluðu hálfu þessa Libya.

ófegri? eða er það vatn tærara, er rennur um stræti borgarinnar, og leitar að rjúfa blýpípurnar[9], en það vatn er, er rennur með hraða og þægilegum nið um framhallan lækjarfarveg? Segja má að svo sje, því að skógar eru ræktaðir inni á milli

19—22.

---

b, *Þá er þjóðdeildir tóku að greinast betur í Afrahálfu, en áður hafði verið, og bygðir deildust glögglegar, urðu til ýmiss ný bygðaheiti, einkum á norðurströnd hálfunnar fyrir sunnan Miðjarðarhaf; vestast lá Dökkland (eða Máritanía), í suður undan Spáni; þá lá Hirðíngjafylki (eða Númidía), í austur og landnorður frá Dökklandi, en í suður og úthalt suður undan Sarðey; þá lá Afrafylki (eða Afríka, er svo var kölluð sjer í lagi), í austur og landsuður frá Hirðíngjafylki, en suður undan Ítali; þá lá Kýrenufylki (eða Sýrenufylki) í landnorður frá landsuðurhlut Afrafylkis, en í suður undan Grikklandi; þá lá Marmarikufylki í suðurhalt austur undan Kýrenufylki, en í suður undan Grikklandshafi, og loks lá Egiptaland austast á norðurströnd Afrahálfu, í austur og landsuður frá Marmarikufylki, en í suður frá miðbiki Ásheimsskaga (eða Áslands). Í suður og austurhalt suður undan Egiptalandi lá Brandíngjafylki (eða Æþíópía), austur undir suðurhlut Arababotns, en upphlutur landsins alls, sjá er lá vestur undir Atlandshaf að vestan, norður undir Dökkland, Hirðíngjafylki, Afrafylki, Kýrenufylki og Marmarikufylki að norðan, austur undir Egiptaland og Brandíngjafylki að austan, en suður að miðjarðarbaug, eða jafnvel suður yfir hann, að sunnan, er stundum kallaður einu nafni Libýjahálfa en innri* (Λιβύη ἡ ἐντός), *eða að eins Libýjahálfa.*

c, *Hjer talar Hóraz um smásteina frá Libýjahálfu, þ. e. með öðrum orðum, um marmarasteina frá Libýjahálfu eða Afrahálfu, (samanb. næstu skýríng hjer á undan), en er Rómverjar tala um marmara frá Libýjahálfu eða Afrahálfu, hafa þeir einkum í hug sjer marmara frá Hirðíngjafylki og Egiptalandi; samanb. til að mynda Eðlissög. Plin. eldr., 36. þátt, 6. kap., 8. gr., 49. atr., og Brjef Seneku, 86. brjef, 5. grein.*

[9]) *blýpípurnar (í latínunni hjá Hórazi:* plumbum). *Eitt af því, er eð forna Róm hefir þótt ágætt fyrir, eru enar mikilfenglegu vatnsveitíngar, er borgarbúar höfðu, og veittu vatn, sumstaðar lángt að, inn í borgina og um hana alla. Til vatnsveitínga þessa höfðu Rómverjar ýmist hlaðnar rennur* (canales structiles), *eða blýpípur* (fistulae plumbeae), *eða leirstokka* (tubuli fictiles), *(samanb. Rit Vitrúvíusar um hússmiðar, átta þátt, 7. kap.,* upph.), *en hjer gjörir Hóraz lítið úr öllum þessum umbúníngi, og bendir Hóraz á með orðum sínum, að blýpípnavatn þetta í borginni sje sýnu lakara, en lækjavatn er á landi úti.*

mislitra súlna[10], og það hús er lofað, er lángt má frá sjá á land[11] út. Þótt náttúran sje með lurki á braut lamin, man hún þó jafnan aptur hverfa, og vinna að lokum á enum illa leiða, og ryðjast á laun út í gegnum hann.

22—25.

---

[10]) a, *skógar eru ræktaðir inni á milli mislitra súlna. Hús Rómverja voru, að minsta kosti eigi sjaldan, svo löguð, að þau voru ferstrend; þó voru þau sýnu meiri á lengd en breidd, svo að þau voru sem eins kyns jafnsíðamynd* (parallelógramm).

b, *Það var títt hjá Rómverjum, að í apturhlut húsaþeirra var svið eitt opið eða óþakið, og var reitur einn ferstrendur á miðju sviði því. Reitur þessi var, sem húsið sjálft, sýnu meiri á lengd en breidd. Umhverfis reit þenna allan, til beggja hliða og beggja enda, voru súlur eða súlnaraðir, eða súlnagöng, og var reitur þessi fyrir því kallaður súlnareitur* (peristylium). *Súlnareitur var opt eigi lítill, og var hann skreyttur eða fegraður á ýmissan hátt; þar uxu trje; þar voru og viðarrunnar og ýmislegur jarðarblómi, og er reitur þessi fyrir því stundum kallaður græni reitur eða grasreitur* (viridarium). *Súlur þær, er giörvar voru um súlnareit, voru af marmara; var marmari sjá ýmislega litur; hann var annaðhvort hvítur, svo sem marmari sjá var, er kominn var frá Parey, eða Pentelarfjalli, eða Hýmetti, eða hann var mislitur, svo sem sjá, er kom frá Hirðíngjafylki eða Lakverjafylki.*

c, *Hóraz talar hjer um trjáræktan inni á milli mislitra súlna, og hefir hann þá einkum í hug sjer súlnareiti þá, er hjer er um talað í* b-*liðnum, en það vill Hóraz sýna með orðum sínum hjer, og því er hjer ferr eptir* (*þótt náttúran sje með lurki á braut lamin,* osfrv.), *að þó að menn reyni innan borgar með ýmislegri fegrendi að glíkja eptir eðlisfegurð landslagsins á sveit úti, þá verður þó slík eptirglíking sveitarfegurðarinnar manni aldrigi svo skapfellileg, að hann uni við slíka fegrendi til lengdar, og þó að einhverr sje svo, að hann um stund byggi út hjá sjer rjettri eðlistilfinníngu, og hafi illan* (*eða óeðlilegan*) *leiða* (mala fastidia) *á því, er eðlilegt er í sjálfu sjer, svo sem er sveitarfegurð, man þó en rjetta eðlistilfinning að lokum ryðja sjer til rúms, svo að maðurinn hneigist heldur að því, er eðlilegt er í sjálfu sjer, en að hinu, er að eins er misjafnlega eðlileg eptirglíking.*

[11]) *það hús er lofað, er lángt má frá sjá á land út.* ***Svo er sagt um sum hús í Rómi, t. a. m. um það, er Mesenas enn góði átti á Eskvilshæð, að þaðan hafi mátt sjá upp til Tíbúrs, og austur til Prenests og Túskúls.***

3. Sá maður, er[12] eigi kann að bera ull þá, er drekkur í sig akvínskan[13] litsafa, saman við purpuradúk frá Sídon[14], man eigi verða fyrir vísara tjóni eða sárara, en sá, er eigi má ósatt frá sönnu greina. Þeim manni, er um of hefir að getizt meðlætinu, man mikið um verða breytíng á hag sínum. Ef þú dáir eitthvað, mant þú því nauðigur sleppa. First það, er mikið er; lifa má betur, en konúngar lifa og gæðíngar þeirra, þótt undir fátæklegu þaki sje.

4, Hjörtur átti[15] baráttu við hest; gekk hirti betur, og rak 26—35.

---

[12]) *Sá maður, er* osfrv. *Hjer ferr Hóraz að tala um, hve skaðsamlegt rángdæmi má vera, og leiðist hann til slíks umtals af því, er hann hafði hjer áður á bent, að menn meta eigi alment ágæti sveitalífsins, svo sem vera berr.*

[13]) a, *akvínskur, þ. e.: er á við Akvín, eða er í Akvíni, eða er frá Akvíni, en Akvín (á lat.* Aqvinum) *var býr einn, er lá í landnorðurhlut Volskafylkis, eða, með öðrum orðum: austarlega í Latlandsauka, fyrir austan 31. stig austurættar, en nær mitt á milli 41. og 42. stigs norðurættar. Í Akvíni var litargjörð, og hefir, sem sjá má hjer á orðum Hórazar, lítið þótt koma til þess kyns litar, að minsta kosti í samanburði við purpuralit frá Sídon.*

b, *Að drekka í sig akvínskan litsafa, er hjer sama sem: að vera litaður í akvínskum litsafa.*

[14]) *Sídon, nafnkend borg, er lá nokkuru sunnar en í miðju Foiníkalandi, en Foiníkaland náði yfir nær þriðjúng strandlendis þess, er lá austan til við Innhaf (eða Miðjarðarhaf); fyrir norðan Foiníkaland lá sá hlutur ens eiginlega Sýrlands, er náði til sævar, og var sá hlutur strandlendisins lengstur, en fyrir sunnan Foiníkaland lá Landið Helga, og var sá hluturinn skemstur. Sídon var einhver en elzta borg í Foiníkalandi, og ágæt mjög fyrir verzlun sína; þaðan fekst ágætur purpuravefnaður.*

[15]) *Hjörtur átti* osfrv. *Hóraz hefir hjer dæmisögu eina, og hefir hann hana, eða höfuðefni hennar, frá Tisíasi skaldi, er venjulega er kallaður Stesíkórus. Tisias þessi átti heima í Hímer, á suðurströnd Sikileyjar; hann var uppi nær sex hundruðum vetra fyr. Kristsb., eða á fyrra hlut sjettu aldar. Þá var Falaris enn illi í blóma sínum, og höfðu Himeringar gjört hann að einvaldshöfðíngja* (αὐτοκράτωρ), *og ætluðu að fá honum vörð til líkamsgæzlu* (φυλακὴν διδόναι τοῦ σώματος); *segir Aristóteles heimspekíngur (í Mælskufræðum sínum, öðrum þætti, 20. kap., 3. gr.), að Tisías hafi þá auk annars, er hann mælti*

